fognud hia Gillibert uin sinum. Ok nu sem Thomas er heim kominn, geingr sua til, at Rikeus kemr til gardz ok þiggr veizlu eptir vana. Ok af þeiri gisting geraz þau raad med fornum felagskap, at Thomas muni lypta sinni ferd ok geraz heimonligr Richeo. Þat sama fer fram, at Thomas gerizt hans notarius, ok kemr sua fyst med honum til konungs hirdar ok hirdsida. Verdr hann nu at uikia sinu medferdi i morgum lutum fra þui einfelldi, sem hann hafdi haftt i sinum uppuexti. For þat ok sua, sem verolldin baud honum nockut sina blidu framarr enn fyrr, at honum lypti til gladningar, þott hann veri hreinferdugr um þat allt, sem mestu vardar. Skemtan mikla hendi hann morgu sinni at fara med hauk ok ueidihundum[1], ok ef þat var nockut syndligt i, feck hann sua falna birting af gudi. Suo for til um dag, sem Thomas hefir sik uti med morgum kumpanum til leiks ok fyglingar, at hann fleygir sinum falk at fugli einum. Skilr sua med þeim, at haukrinn snarar[2] langt i fra honum eptir bradinni fram yfir aa nockura ok sezt þar. Thomas uill sækia haukinn ok ridr fram at ænni. Aa þessi var suo fallin, at hon hefir hafa backa ok fellr med odstreymi. Bryggia ein hardla mio var lagin nidr aa bakkana, er fehirdar uonnduzt at renna. Litlu fyrir nedan bruna var buit um mylnu eina. Var straumurinn þui sterkari, sem hiolinu geck nærri. Enn þadan fram var hardla skamt, adr ossinn sialfr tok uid. Var hann sua meinligr med huitfyssi ok storgryti, at eingi hestr matti þar fæti koma, sem raun aa bar i þetta sinn. Thomas, sem hann kemr ridandi frammi at ænni, sier fliott, at bryggia su litla fyrirkuedr med ollu at rida leingra, ok þui stigr hann af hestinum, geingr ut aa bryggiuna med meira flyti enn forsia; þuiat honum stockr fotur sua hætliga, at hann keyrir nidr i ana. Enn um þat stormerki sem drottinn uann i þessum stad, er at tala eptir ordum ok sogn priors Roberthz af Cretel, er skrifadi med latinu lif heilags Thome, at iafnfram sem honum varpadi nidr i odstreymit, stoduadiz hiolit i mylnunni, þui at sain[3] vard i avgabragdi hit blidazta siluetni. Sua segir hann priorrinn, at æigi kom fyrr aptr straumrinn at snua hiolit, ænn allir limir hins sæla Thome hofz ur uatninu upp aa þurrt land. Enn þat maa huerr uitr madr hugleida, huersu dasamlig lof þeir mundu gudi ueita, er her saa upp aa, huersu Thomas var leystr ur lifshaska, þuiat mannz fullting matti honum æigi gagna sakir urdar ok ufæru sem fyrr var tiad. Sannliga var þeim efni gefit at segia sua til himnakonungsins: „Þu

[1] ueidihondum *Cd.* [2] hnarar *Cd.* [3] æit *Cd.*

neitz, drottinn minn, giorla, huern þu hefir kiorid at standa ok strida fyrir þinum herbudum.

*Thomas va-d erchidiakn.*

9. Nv sem Thomas hefir verit tuo uetr med hirdsidum ok hann hefir fiogr ær ifir tuttugu, leidiz honum þess hattar lifnadr, þuiat hann ser i morgum lutum atgerdir ueralldligra hofdingia snaraz i mot lærdra manna reitt ok soma, ok þui lettir hann brutt fra þuisa lifi, enn leitar til Theobalidum godrar minningar Kantuariensis erchibyskups, er fyrr var nefndr, ok kemr ser i hans þionustu, meirr af sialfs sins tilstilli ok framkuæmd enn annara tulkan ædr tilmæli. Ok innan litils tima fær (hann) sua hagat sinn efni, at sakir uizku, litillætis ok þionustu tekz hann med fremztum uinum erchibyskups ok heimonligum rædgiofum, ok þat var uel uerdugt, þuiat prior Robert skrifar þar um eitt dyrligt efni ok morgum nytsamligt, huersu hann kunni ok uilldi sæma sinn herra. Hann uottar priorrinn, at erchibyskup var einfalldr madr, nockut fliotr i sinni lund, ok æigi sua forsiall i sinum ordum, ef æ hann feck, sem hogaerisregla bydr framaz. Ordsnilld hans var ok sua fallin, at mikit læ undir laungum, hueriar upptektir voru æ hafdar, ef hann taladi med rika menn. Enn mot þessarri grein huarritueggio skipar signadr Thomas sina godgirnd ok uitzku, at ef erchibyskup ræidiz[1] i einhueriu, suarar hann æ þui miukara ok fridar sua hiarta sins andligs fodr. Sua ok i adra grein, ef ordfelli byskups feck nockut þrot, rennr Thomas undir ok klædir med klerkdomi, sua at nu ma synaz sem framburdr erchibyskups se textus uordinn vndir fagra glosu. Sie her nu þegar forkunnligan mann, bædi i litillæti ok uandlæti laganna. Hann flydi fyrr af konungsgardi fyrir þæ eina sok, at æigi sæi hann lyti leikualldzins mot kirkiunni, enn þionar nu sinum formanni med þeim hugarkrapti, at alldri fanz ofran med honum, helldr var hann æ þui lægri fyrir gudi, sem hann var hærri fyrir monnum, ok þui var heyriligt eptir reglu drottins, at sæ hefiz er sik lægdi. Eigi hofum vær skyrt fundit, huersu leingi Thomas var i Kancia, adr hann geck til þeirar sueitar at geraz Kantuariensis kirkiu erchidiakn med ollum þeim soma ok arligri rentu er þar læ til, þuiat þess hattar nafni fylgdi mikill vandi med ymiss storf i malaskipan ok odru uppholldi heilagrar kristni. Þui er af honum sua lesit, at hann geingr optliga til þess skola, er heilagrar kirkiu log lesaz ok utakyraz, at þui riettara megi hann ollum lutum skipa, sem hann skilur framar, huerssu til

[1] hrædiz *Cd.*

Digitized by Google

geingr ok efni vikr malunum. Bænar godfyst ok olmusugædi, sem Robert uottar, fylgdi honum alla tima, ok þui uard hinn uoladi þegar uiss med fullu, er femunir hans uxu. Enn allt framdi hann þat med leynd ok sem firz manna ordlofi, þott hann bæri fogr klædi, var hann fatækr i hugskoti. Optar enn um sinn ferr hinn signadi Thomas allt til pafagardz fyrir kirkiunnar nytsemdum. Ok er æigi auduellt at greina, huerssu aluarliga hann leggr sitt lif ok mædu til þess, at allt veri skilrikt ok fagrliga fyllt innan landz ok utan, þat er honum var vmbodit, ok at honum var ærchibyskupinum hinn mesti afli. Sannliga þottuz þeir bezt hafa, er hans uinir voru, at hann flyti þeira maal, at faa einhueria sæmd, prouentur ædr beneficia. Eru þeir ok nockurir[1] at sambinda vid hann stadfasta uinattu. Maa þar ok til nefna tua sæmiliga menn, Johannem Cantuariensem ok Rogerum Nevstriensem. Ok med þui at sæll Thomas þionar Cantuariensis kirkiu sua þægiliga, sem nu var tiaad, syniz vel fallit, at lysa med faam klausum, huersu þat blezada sæti hofz i roksemd valldz ok virdingar ifir ollu Einglandi.

*Hversu sancte Gregorius skipadi fyst kristni i Einglandi.*

10. Nv lystir at nefna[2] þann mann, er heitir herra Gregorius pafi hinn milldi, fyrstr med þui nafni, þuiat hann er postoli Einglismanna ok setti þeim lifsbraud af munni Augustini abota. Ok er uors herra tru var tekin um landit, skipar herra pafinn med ualldi Roma kirkiu, huersu rikit skal sundr greinaz undir formanna stiorn i byskups syslur. Þar ifir er lesinn opinberligha pafans bodskapr, nykominn af Rom inn i Eingland, at Augustinus skal uera Kantuariensis erchibyskup ok primas yfir ollu landi, ok hans eptirkomendr, ok at þat sæti skal med tign ok priuilegijs uera hæst i hofdings(kap) yfir ollu Einglandi. Þangat skulu undir luta tolf byskupsdæmi· til kosnings ok uigslu. Enn ꝍnnur iafnmorg skulu til heyra tueim byskupum Eboracensi ok Lundoniensi, ok þessum tueim leyfiz i herra[3] pafans brefi at beida pallium af romuersku sæti, enn þui rædr lif ok hlydni, huart þeir faa þat. Fyrir þessa grein þarf eingi at undra i saugunni, þott fleiri beri erchibyskups tign ok nafn enn at eins Kantuariensis i Einglandi. Þetta er ok skrifat fyrir þa sok, at sidarr i þessu maali geriz[4] þa enn liosara, huerssu þat samir, ef nokkur kennimadr i Einglandi fylliz þess at gripa undir sik kirkiunnar frumtign i Kanncia, domdraga hennar formann ædr ueita honum einnhuern uansa med ofbelldi.

[1] nuckurir *Cd.* [2] nafna *Cd.* [3] herrans *Cd.* [4] geraz *Cd.*



Digitized by Google

*Er Heinrek(r) vard konungr yfir Einglandi.*

11. Enn nu næst er siaanda, huad leikualldi lidr i Einglandi, þuiat Stephanus konungr[1], sem hann hefir rikt .xiiij. aar, endar hann sitt uald med daudadægi. Geingr þa til hasætis at erfdum Heinrekr, er fyrr uar nefndr. Hellt hann adr hertugadom Andegauie eptir dag fodr sins, ok þui vard hann uidlendari enn nockur konungr fyrir honum i Einglandi, at hann helldr þren riki, Angliam ok Andegauiam ok þar til iarllzdom Nordmannie ok Aquitannie, er Einglandz kruna eignadiz at erfdum eptir Bastard. Theoballdus erchibyskup uigir til krunu þenna nyia konung, ok þui var vinatta þeira sæmilig. Setr Heinrekr konungr sitt hasæti i Lundunum, þuiat saa uar stadr mestr ok glæsiligazr i landinu. Ok med þui at hann uill þar iduligaz uera, skrifar hann til Alexandrum pafa tertium, er fyrr var nefndr, at hann muni ueita honum til Lunduna þann byskup i rikinu, er uitraztr ueri til raadagerdar ok uænaztr til hialpar ønd ok likama. Þessi byskup heitir Gillibertt, kynstorr madr ok klerkr mikill, ordsniallr ok medallagi heill manna i millum, ok þat þiggr konungrinn, at Gillibert uerdr Lunduniensis (byskup.) Heinrekr konungr uar uitr madr ok glauggr i allri grein þegar a ungum alldri, ordfagr ok, enn æigi lioss i skaplyndi, hardla forr, ef nokkur reis uid, ok æigi sidr langrækr, sem nogliga mun lysaz i þessu maali, adr luki.

*Er Thomas vard canceler.*

12. Eigi hefir Heinrekr konungr leingi rikt, adr ærchibyskupi syniz umraads vert, huersu fara muni landzstiorn ok lagahalldit, einkannliga þat er at uikr kristnum reitt. Konungr er æskumadr ok allydinn, enn raadgiafar rikir ok æigi miok rettir, framgiarnir, enn æigi miok forsioligir[2], ok sakir þess at margir standa bunir at briota batinn hins sæla Petri, uilldi erchibyskup faa til maann at stydia nockut faarskostinn, at æigi leysi med ollu til brotz. Faarkostr ualdra manna til himinrikis er heilog kristni. Vel maa segia, at a þeim farkost uann fyrstr manna i Einglandi Vilhialmr raudi, sem skrifat var. Enn eptir hans dag uar þuilikt, sem konungar helldiz-i hendr fram at elldinum, þa er huerr dro med hofdum rett ok frelsi kirkiunnar undir krununa. Enn i þetta rum, ær sua var mannuant at standa midil roksemdar guds laga ok framlutrar agirni konungs ok hans manna, sier erchibyskup eingan mann likara enn Thomam

[1] hefir *tilf. Cd.* [2] fiorsioligir *Cd.*

erchidiakn, þuiat hann er margfalliga profadr at uitru ok godum uilia. Er þat liost uitrum manni, at þessa sina astundan klædir erchibyskup med annarligri æsionu, þa er hann flytr uid herra konunginn, at hann muni taka Thomam i sina curiam. Ok þat gerdi erchibyskup reitt, þuiat su er heilog undirhyggia, er eingum meinar enn eykr gudliga tign. Þetta ferr fram, at signadr Thomas lyptir nu at sinni brutt af Cancia ok kemr sua i annan tima i konungsgard. Suo stendr sæmreiknadr hans alldr, at nu hefir (hann) .xx. ær ok atiæn, þuiat æ erchibyskups gardi hefir hann uerit .xv. uetr. Leggr hann nu af um stund erchidiakns þionustu, enn tekr i stadinn konungliga fylgd ok hirdsidu. Þar er nu hans æhyggia at uakta konung til suefns ok sætis med allri gaumgiefd ok goduilia. Ok æigi geingr þat langt, adr konungr med uitru sinni dæmir þenna Thomam meiri sæmdar makligan enn vera einfalldrar þionusto, ok þui leidir hann vars herra vin til þeirar stettar, er cancellarius heitir. Sæ heitir eiginliga[1] canceler, er geymir konungs innsigli, ok hefir sua i sinu[2] ualldi, at ecki bref geingr ut af gardinum utan med hans uilld ok samþycki. Ok litlu sidarr geingr enn til uaxtar uirding Thome, med likendi nockuru sem lesit finz fordum af sæmdum Joseph ok ualldi yfir Egipto, þuiat uel mæ sua tala ok til ordz taka, at herra konungrinn leggr til hans sua mikinn kærleik, at hann uerdr sem annar hofdingi yfir ollu Einglandi, næstr i uirding rædi ok metordum. I hans ualld ok uilia æru naliga komin oll konungs mal ok rikisstiorn, borgir ok bæir, kauptun ok kastalar, gull ok gersimar, ok allar konungligar herneskiur. Her med ferr þat frelsi, at huar sem stendr konungs fe, er i hans ualldi, sua tæra rikum sem fatækum, sem þat se hans fǫdurleifd. Enn sua temprar hann þat med uitru ok uarud, at konungi likar sua uel ok bezt, sem hann skipar, þat til marks at umfram þessa luti, sem nu voru tiædir, gefr konungrinn kiotligæn son sinn, er heitir Heinrekr ungi, at hann skal sitia undir tygt ok meistaradom cancelers. Opttliga hafdi Thomas med ser mikit folk, bædi lærdra ok leikmanna, ok uar at ordum gert, at eingi hofdingi i ollu Einglandi helldi sua listuliga sina fylgd, bædi at uopnum ok klædum. Ok þott hann væri likr metnadarmonnum i ueralldar eptirlæti, var hann þeim hardla olikr, er elska þetta lif, þuiat hann uirdi alldri at minna godan mann, þo at fætækr ueri, ok alldri uondan at framar, þott ferikr uęri.

[1] eigingliga *Cd.* [2] sinni *Cd.*

Digitized by Google

*Af hattum hins heilaga Thomas erchibyskups.*

13. Svo skyrdu heilagir fedr, at skirlifr klaustramadr merkiz fyrir riddara þann, er geymir sitt godz ok lif i luktri borg. Enn sa madr er hreinlifiz i uerolldinni, þydiz fyrir þann riddara, er uegr med suerdi ok skiolld a uidum uelli, ok færr malagiof þui fegri, sem sigr er frægri, þuiat forkunligri ær su list at standa obrendr a glodinni enn at firrazt elldinn ok uera uskaddr. Þessi grein huartueggi lytr at lofsamligum manni signudum Thome. Hann var settr af herra konunginum i sua mikla farsælld ok fullsælu ueralldar, sem adr er tíad, ok æigi þui sidr bar (hann) a sinu briosti sua trausta bryniu mannkostanna med gudligri nauistu, at hreinlifi ok heilog astundan braz honum alldri, þuiat ef fiolskyllda talmadi hann a daginn, stod hann upp a nattar tima at þiona sinum skapara. Ok huerssu hann offradi sinum gudi lofgerdir med hreinlifi, lysiz med tueim dæmisogum her næst af þuisa efni. Sva skrifar Robert, at sa madr ueri nafrændi[1] hans, er sotti konungsgard a þessi tid, sem sagan geingr. Hann for med malaferli nockur ok þotti varda, at uel geingi. Hann hugsar gera, sem nu lysti margan i Einglandi, at finna fyst Thomam canceler, tia honum malauoxt ok bidia hann tenadar nockurs. Ok fyrir þa sok at hann kemr æigi fyrr i stadinn, en dagr er miok lidinn, fyrirkuedr honum lofligr uani at ganga fyrir sua rikan mann a sidkuelldi, þui hneigir hann sik til herbergis. Enn þegar i ottu, sem fyrst dagar, hefir hann sik uppi at fylgia sinum eyrendum. Vikr sua til ueginum, at hann geingr hia kirkiu nockurri, ok bratt i huminu ser hann, at frami fyrir musterinu liggr madr til bænar, framfallinn allt til iardar. Enn er hann stendr ok skyniar, huat er honum syniz, fellr til med honum hneyri ædr hostakyn, sem verda kann. Ok þegar bregdr sa uit, er frami liggr, ok riss þegar upp, hann hefr sidan upp hendr sinar til guds ok lyctar med þui bæninni, geingr sua i brutt þadan til herbergis. Var kuamumanni mikil foruitni, huerr af stadarfolkinu sua mundi uel fara, ok þui midar hann vit dagbruninni[2] bædi uoxt hans ok klædabunat, at þui helldr megi hann kennazt, þott sidarr sæi. Er ok þui mali sannprofan æi fiarri, þuiat iafnbratt sem hann hefir orlof a[3] fund Thome cancelers, skilr hann uel, at þessi voxtr ok kledabunadr, er fyrr merktiz, heyrir eyngum manni utan honum einum sialfum, þuiat nu rett leggr Thomas af ser sitt yfirklædi sem nykominn i herbergit. Vottadi þessi madr fyrir frænda sinum Robert, sem hann kom heim, hueria dygd ok gudhræzlu hann

[1] næfrændi *Cd.* [2] dagbrunni *Cd.* [3] af *Cd.*

hafdi fundit med sælum Thomase, moti þui sem flestir hugdu, ok hedan setti priorrinn þetta verk i sitt kompon. Her fylgir aunnur frasogn er bædi leidir sik til bænar ok skirlifis.

*Af hinum heilaga Thomase erchibyskupi.*

I þvi þorpi[1] er Staford heitir var ein kona bædi fogr ok fæmikil. Þat sogdu heimonligir menn Heinreks konungs, at þessi kona litiz honum uel um eina hrid. Enn med þui at þat er nu helldr i renan ok kolnan, kemr konungr þui sialldnar, ok honum fraleiddum berr sva til optliga, at Thomas canceler herbergist i þui sama þorpi[1]. Ok sem hann duelz þar, presenterar þessi kona honum til bordz margar sæmiligar sendingar. Her af hugsar husbondinn, er canceler uar med, at þessarri blidu uili hon fa ser nyan unnasta. Þessi hugsan sinni gefr hann sua mikinn gørm, at einn tima sem canceler duelz i hans herbergi, stendr hann upp um midnætti, tekr skridlios ok geingr til herbergis, er canceler hafdi, geingr inn, hlydiz um, ok heyrir til eingis, hugsar nu fyrir uist, at canceler muni geingit hafa annan ueg. Enn þann tima er hann bregdr upp skridliosinu ok skygniz um, profaz æigi sua med ollu, þuiat frammi fyrir sænginni sa golfinu ser hann berfættan maan(n) framfallinn, ær eptir knefoll ok bæn hafdi suefn sa fallit. Kennir hann bratt, at þar liggr Thomas canceler, ok sua profaz i sannleik, at saa er hreinlifr ok sidlatr, er grunsaamr madr hugdi ser likan. Blezut er su saal, er heimskar uerolldina enn þionar sinum skapara. Þui[2] æru þeir tuæir menn uel teknir til iafnadar sin i millum, hinn heilagi Sebastianus pislaruattr ok þessi Thomas, þuiat þeir uoru brædr likir i andligri list. Sebastianus var skartzmadr ok þionadi heidnum konungi, æigi sidr uar hann uinr drottins, Thomas ær ok skrautmenni ok þionar Heinreki konungi, þuilikr at mannkostum sem synt er. Sua fellr sæmt i odrum greinum skaplyndi þeira, huartueggi madr dreinglyndr[3] i ordafulltingi, trulyndr i fyrirheiti, forsiall i raadi, ok biartr i allri sidbot. Her med lagdi herra Thomas þa milldi til fatækra manna ok utlendra, at uspart huggadi hann þeira uesaldir med fiægiofum, þott þat ueri leynt fyrir alþydu. Enn hofdingium ok stormenni ualdi hann opinberar giafir. Af sliku, sem uon uar, unnu honum fatækir sem sinum fedr, enn hofdingiar uirdu hann sem ser iafnan, ok ottuduz hann sem sinn formann. Þeir einir þottuz uel komnir i Einglandi sa þeiri tid, sem þægu hans[4] blidu. Enn þui matti hann mikit ueita ok margan hugga, at herra konungrinn ueitir honum serliga til aftektar ok auinnings

[1] þorfi *Cd.* [2] þ't *Cd.* [3] dreingrlyndr *Cd.* [4] hann *Cd.*

Digitized by Google

þat riki, er nyir menn kalla baruniam, þat er sua mikit leen, sem þeim manni til heyrir, er kallaz baarun i riki konungsins. Enn greinanda er þat, at af þuilikri konungsins uinattu ok ueizlum margfolldum, sem nu hafa taldar verit um hrid, laugdu signodum Thomase margir hofdingiar i Einglandi vbiartan hug, þott þeir syndi sik blida, þuiat þeir atuz innan af tueim lutum, þat er konungsins blida til cancelers, ok þat annat at þeir kuomu i þenna tima æigi sua illu fram moti kirkiunni, sem þeir uilldu, birtiz ok huerir þeir voru, þa er brestrinn kom, at briota konungsins uinattu. Enn sua uoru þeir fallnir, at giarna þagu þeir sæmdir ok syslur af krununni, enn logdu henni hatr i moti, þuiat huert þat brugg illzkunnar, er i þeim bra(u)tz moti Thomasi, var sannliga moti krununni. Þuiat med sinum frama iok hann mikit Einglandz konungs riki, sem bækr uikia til, þott þat standi æigi med greindum atb(u)rdum ædr skyrri frasogn. Enn bædi nefnir bok stund ok stad þar til fyrir sunnan sio at landamæri midil Franz ok Nordmanniam, at hann hafi unnit med sinni uitru ok logligri aastodu, huer landaskipti at fornu hofdu verit millum Franz ok Nordmandi. Þat er ok lesit med godri frægd, huerssu roskr madr hann hefir uerit til strids, þuiat hans hugdirfd for uhollum fæti, huar er hann lysti, sem einkanliga greiniz i Uestrlondum, er Heinrikr konungr striddi upp aa Gaskoniam, er liggr undir borg Tolosam. Þuilik er hans framistaada, at huarki lif ne likaam sparir hann til at efla rikit ok konungsins soma, ok þo skal hann þunga mæta af þeim, er konungs uinir kallaz uera, ok þui geingr sua, at raunar elska þeir midr konunginn enn sialfra sin aagirnd ok ofsa. Enn sua gloggr sem Thomas signadr var i ollu sinu uiti, fekk hann laungu skilt, huersu stormenni i Einglandi hug(d)i honum flatt, þott fagrt leeti. Þadan er skrifat, at morgu sinni bad hann Theoballdum erchibyskup med tarum, at hann skyll(d)i aptr takaz i hans þionustu ok færa sinn haals undan þui aanaudaroki at standa millum kirkiunnar ok konungsmanna. Enn erchibyskup uilldi þat æigi ueita, þuiat undir andliga ombun segir hann Thomam kirkiunni þui naudzynligra, sem hann þolir þyngra. Enn med þui at daudligr madr uill æigi ueita, at Thomas rymi konungsgard, skal byriaa þessu næst i nafni guds, huerssu hin himneska forsio, er alldri maa fallæraz, uikr hans uegum, at hann aptr uendi til Kanciam.

*Er Heinrekr konungr kiori Thomas.*

14. Nv sua miklu rikari sem Heinrekr konungr uar enn nockr fyrir honum i Einglandi, krefr skynsemd, at hann hafi uti þui meiri

Digitized by Google

verud ok hardfeingi fyrir laundunum, sem þau voru uidari, þuiat þetta lif er sua fallit, at allt eftirlætid liggr undir anaud ok mædu. Hedan geriz suo, at þau tidindi flytiaz heim i Eingland af Nordmandi, at su þiod er Gualensis heita, ueitr æhlaup rikinu med ræn ok oroa. Þessi saugn leidir þann dyn i landit, at Heinrekr konungr ok Thomas canceler bua sik i herferd sudr um sio. Er nu Heinrekr ungi eptir i konungs stad med godu raduneyti, ok sitr i Lundunum æ hofutgardi fedr sins. Verdr konungr uel radfara at frida land sitt, ok hann duelz leingi i Nordmandi. En nu er at sia til Englandz, huat þar horfir til mikilla tidinda, at virduligr herra Theoballdus erchibyskup hefir feingit þann siukdom, at hann leidir fram af þessi[1] uerolld til fedra sinna i sanna huilld. Þa hafdi hann stiornat Kantuariensis kirkiu .xx. ær ok tuo, lofsamligr madr ok godrar minningar. Er nu kirkian i eckiudomi, ok þui æru bref gerr ut af Einglandi sudr um sio til Heinreks konungs, er votta frafall erchibyskups. Geraz þau bref sua fliott fyrir tuifallda skynsemi, þa adra at birta konunginum framfor sua uirduligs hofdingia, fyrir þat annat, at konungsrikit geck sua hatt yfir Eingland i þessa tid ok upp fra Vilhialmi rauda, sem fyrr var greint, at ecki capitulum var sua diarft i landinu, at þyrdi til kosnings fram at fara, fyrr enn konungr leyfdi, þuiat kirkiurnar skylldi liggia til aftektæ undir konungsgard, medan þær ueri formanna lausar. Herra Heinrekr konungr sitr i þeim kastala, er heitir Phalase, sem (hann) fregn þessi tidindi. Er hedan æigi langt, þat er einkanligt mæ synaz, at i þuilikri uerralldar uirding, sem Thomas canceler stendr æ þeim degi, lyptir margr madr til hans þegar sinu hugarfæri, at hann muni hliota sætid i Cancia. Enn konungrinn gerir med sinni lund, sem honum var giarnt, lætr sem þat lidi hia honum, vtan bydr Thomase canceler, at eptir konungligum uana bui hann sik til heimferdar i Eingland at skipa kirkiunni ok gozi hennar þa forsio af krununnar halfu, sem fyrr var sagt, þuiat þessi sysla var Thomasi handuiss, sidan hann kom i uolld. Sem hann er ferdar buinn ok hygz hafa oll sin eyrindi, geingr hann ok tekr orlof, heilsar merkiliga æ konunginn sem i þeira skilnadi ok snyzt i brutt. Konungrinn talar þa ok kallar hann aptr til sin ok tala(r) sua leyniliga: „Æigi ueiz þu enn til fullz um þina ferd. Vaarr uili er med ollu rædinn, at þu verdir Kantuariensis erchibyskup.“ Her i mot brosir hinn signadi Thomas nockut litt, ok tekr framan i handueginn æ kyrtlinum, er hann bar, ok suarar suo lagliga: „Sie, minn herra, sagdi hann, huersu sidsaman mann ok

[1] þessu *Cd.*

Digitized by Google

heilagan þer uilit setia ifir þat haleita sæti ok sua marga munka ok dyrligar personur, sem þar þiona gudi. Þurfi þer ok æigi at girnaz sua miok a þetta mitt umskipti, þuiat ef þetta fer fram med þolinmædi guds, myndi ydr uinatta fliott fra mer uikia. Hafi þer ok sua lofsamligar personur i ydru riki, at min likamlig lausung ferr lagt fyrir þeira fotum. Kann ok uera, minn herra, ef sua kastadi um minu efni, at ek ueri þeim ulikr[1][miok ok usamlyn]dr, sem nu stendr her frammi, mundi ok þar uerda nogir menn til at [bera rog millum ockar. Þui bid] ek med allri mykt, at þer uikit annan ueg.“ Eptir sua talad hneigir hann konunginum ok geingr ut af herberginu. Sie her nu þegar efni dyrligs manz, er æigi flytr sik i tignarsæti sem sumir adrir, helldr talmar hann med einurd, at konungrinn gæfi honum orlof ok frialsan. Enn fyst Heinreks konungs er nu sua heit i þessu mali, at a eingan hatt suæfiz hon fyrir slikar motbarur, helldr by(d)r hann i stad, at su fylgd, er fara skylldi med canceler til Einglandz, kalliz inn fyrir hann. Þat er ok greinanda, at rett i þenna punckt er hia Heinreki konungi einn af cardinalibus, er heitir herra Heinrekr, af þeim stad er heitir Pisa, hann er ok legatus herra pafans nordr til Einglandz at sysla ok umsia þat, er romuersku sæti til heyrir. Hann er nu innkalladr, at merkiliga heyriz af ollu stormenni, huat herra konungrinn opinberar af sinum uilia. Sidan hefir hann þat upphaf, at hann nefnir sua marga, sem honum likar, af fylgd kancelers, ok gerir þa sina sendiboda heim til Einglandz, at þeir bodi capitulo Cantuariensis ok byskupum landzins, at þeir fari fram til kosnings eptir frafallinn erchibyskup Theoballdum ok birti konungs uilia, at hann ser eingan betr tilfallinn enn Thomas canceler at taka þat tignarsæti. Yfir þenna skilning huarntueggia, samkall lærdra manna ok konungsins girnd yfir kosninginum, eru bref giorr, sem sidarr mun lysaz i Einglandi. Skrifar hann ok til Heinreks sonar sins heim i landit, at hann skal hafa uskert konungs ualld i ollum þeim greinum, er at luta krununni i þessu mali. Eptir þetta fullgert yrkir herra konungrinn a þann riddara, er heitir Rikardr af Luci: „Rikardr, segir hann, mundir þu hallda son minn til rikis ok sæmda, ef ek uæri daudr?“ Riddarinn suarar: „Sannliga, herra minn, skylldi ek hann til rikis hallda upp a mitt lif ok limar.“ Konungr segir þa: „Somu leid uilium ver ok biodum, at þu halldir Thomam uarn canceler til erchibyskups i Kancia.“ Vndir leggr ok herra konungrinn vid cardinalem, at hann

[1] *Her er bortrevet en Snip af Codex nedentil, hvorved de to sidste Linier ere defecte. Det saaledes Manglende er paa denne og næste Side udfyldt efter Gisning og sat mellem* [ ].

Digitized by Google

stydi sua eyrindit, at æigi þarniz þat sina framkuemd. Huat leingra, enn eptir suo skipad af konunginum taka sendibodar orlof ok uenda i veg. Nu mun sua synaz med bradu tilliti, at þat samþycki varlla kirkiunnar logum, ad konungligt ualld setti sua mikinn þatt i kosning þenna. Enn ef uitr madr hugleidir, hialpa þui mæli sannar greinir, þa ser satt uera at samnadi i Cancia, þott hann hefdi haft logligt ualld ok frialsi at fara framm til kosnings, hafdi hann sa sitt lif æigi sua diarfr verit at kiosa þa personu til erchibyskups, er sua margfalliga uar streingd i krununnar þionustu, konungsins kanceler ok landstiornarmadr, þar med æzta raad, ok þeira logum æigi nær enn uuigdr leikmadr. Her med run[nu at margir lutir, er] Thomasi gafuz i sauk at kiosaz til sua haleitrar stettar, sem var ueralldar skra[ut ok heimsins hegomi], sem sidar mun birtaz med berum motkostum bædi i Kancia ok Lundunum. E(r) nu liost af settum greinum, at lærdomrinn hafdi sua til mikillar uirdingar huarki ualld ne raadinn uilia, ok þui uar hardla naudzynligt, at saa leidiz i malit, er þetta hafdi huartueggia. Herra konungrinn hafdi ualld at frialsa Thomam bædi af stett ok istodu, hafdi hann ok uilia oruggan, þott æigi væri miok granduarr med þeim sauinning, at hann treysti Thomasi framaz allra manna at hallda sina erfingia til hasætis, ef han(s) misti uid. Þat flaut med annat, sem æigi uar biart i konungsins hiarta, at (hann) hugdi Thomam eptirlatan sinni uilld um lagahalld ok konungligar sidueniur i rikinu. Enn þat uar af þui meinlig hugsan, at nu var sua fottrodinn uigdr sem ouigdr, ok sua dreginn til doms lærdr sem leikr. Nu uard her sem ritad er, at optliga kemr sa eitt mot godr uili guds ok illr ok uondr uili manz, sem uirduligaz dæmi maa til leida lausnina sialfa, þar mættiz elska guds vit mannkinndina ok hatr uida til vars herra. Enn her mættiz fyrirætlan guds ok undirhyggia Heinreks konungs, at þat sama uerdi Thomasi til dyrkanar, er konungrinn hugdi til glatanar, ok þat kristninni til uppreistar, er hann hugdi til hrapanar. Vel lysiz i lofi guds, at þat uerda rettlætis uopn, er hann neytir, ok þat log, er hann leyfir. Siaam nu til eptir þessa duol, huat lidr sendibodum til Einglandz.

*Thomas kiorinn erchibyskup i Cancia.*

15. Signadr Thomas ok oll su ferd, er honum fylgir, tekr þaa stefnu til Einglandz moti Cancia, ok sem þeir fram koma, taka huarir sitt embetti. Thomas canceler skipar ytri syslur eptir nytsemdum kirkiunnar ok konungs bodi, enn sendibodar taka korsbrædr ok munka med konungs ordsending ok brefum, huern kosning hann

Digitized by Google

uill geraz la'a yfir setid i Kanncia. Er her seigi langt at bida, adr andsuor koma mot helldr framhuoss ok ymislig. Munkarnir, er þetta maal kemr mest til, ganga þegar i tuo stadi, segia sumir, at þetta muni storgott vera, adrir mæla þuers i mot, segia þetta alldri munu uel duga. Þeir er uel lata yfir, færa þat til sinnis, at konungr er þessa uin ok muni uerda honum styrksmadr; adrir suara her til, at ef sua geriz, mun konungsgardr at marki luka upp sinn munn at gleypa goz ok frelsi kirkiunnar, segia þat ok einkar miok uheyriligt ok aflaga, at saa skipiz forstiori[1] yfir reglumonnum ok sidsemdar, sem adr suimr i leik ok lausung ueralldarinnar. Sem konungs sendibodar faa skilt, at her æru kappautur fyrir kosning ok ogreidi fyrir godan uilia, nefna þeir sua marga ut af capitulo Kantuariensi, at a nefndum degi komi þeir til kosnings a konungsgard i Lundun med byskupum tilstefndum ok audru stormenni, ok sua skiliaz þeir þar uid enn rida til Lunduna. Lidr nu til stefnudags, drifr þa mikit folk samt i einn stad, bædi lærdir ok ulærdir. Þar er þaa Heinrekr ungi konungr ok hefir sed sitt valldzbref af halfu fedr sins; þar er herra Heinrikr cardinalis, þrir æru byskupar nefndir, Gillibert i Lundunum, Heinrekr af þeim stad er heitir Uincestr ok Hilarius af Cistr. þar var ok signadr Thomas, ok var nv aahyggiusaamr um sitt efni. Margt var þar annara rikra manna. Er nu suo komit, at byskupar byria sina framferd med þu(i) upphafi at gera bæn til guds, er hiortu ser allraa manna, at siaa kiosiz hirdir ok hofdingi til Kantuaria, at bædi verdi þarfr kristninni ok þeckr folkinu. Þessu næst er framborit ok uppbrotid af sendibodum bref gamla konungs. þat er sua mælir eptir kuediusending til hofdingia i landinu, at til erchibyskups i Cancia sier hann eingan betr fallinn en Thomas, sagdi hann bædi til hafa uit ok uilia godan, ordsnilld ok siduendi ok flesta luti adra, þa er fylgia eiga gofugligum heilagrar kirkiu hofdingia. Eptir sua lesit ok heyrt, sem nu var greint, taka lærdir menn samtaal, ok ferr likt sem fyrr, at tuideila verdr i samfnadinum, adrir fylgia fram konungs ordum, enn adrir standa aurdigir þuers i moti, segia Thomam þuilikri stett aa eingan ueg heyriligan, þott hann sie merkiligr madr i leikualldi. Tillaga Gillibertz Lunduna byskups er su, at mælit bidi enn framleidis undir konungs atkuædi. Þar til suarar Hilarius byskup af Cister: „Huat uantar oss i fulla uissu, huar[2] konungrinn er? Gnogliga birtiz hans uili nu fyrir litlu, ok seigi truum ver hann[3] i þessu mali tuifalldan.“ Her eptir leggr til einn aboti: „Þat mundi synaz sumum monnum uel fallit, sagdi hann,

[1] fiorstiori *Cd.* [2] huer *Cd.* [3] hans *Cd.*

at einnhuerr af reglulifnadi ueri kiorinn til sætis i Cancia, þuiat Augustinus fyrsti erchibyskup var af regluhusi kosinn." Honum abotanum suarar enn Hilarius byskup: „Hyggi þer, herra aboti, sagdi hann, at eingi megi gudi lika[1] ꜳn ydrum sid? Langt ifra." Þessu næst tekr Heinrekr byskup sua til ordz: „Þui ærum ver saman komnir, at med hoguærd ꜳ huerr at segia, sem syniz. Enn birta mꜳ ek minn uilia, at eingan finn ek tilfelldan sua at vera erchibyskup sem Thomam, ok þann see ek eyngan lut i hans fari, at honum hrindi, ok eggiandi uil ek uera i guds nafni, at hann sie kiorinn." Laung var su dagþingan med ymsum atuikum ok motkaustum, þuiat sumir toludu skynsemd, enn adrir horfa upp ꜳ sialfra sin auinning, ok æigi var uænligt til gods enda, adr enn sira Heinrekr cardinalis geingr at med rauksemd ok ritningum, at þeira þof ok þrætur se ꜳ einga(n) veg heyrandi, er tælma uilia kirkiunnar eyrendi. Ok af hans tilleidzlu iatta nv allir kosningi upp ꜳ Thomam, þott hiortu sumra færi annan ueg. Ok þui er signadr Thomas innkalladr, ok adr hann kemr inn ꜳ fundinn, skipar cardinalis Heinriki byskupi at byria kirkiunnar eyrendi, sem nu var komit.

*Thomas kuittadr af kr(ununni).*

16. Nu sem Thomas canceler er innkominn, hefir Heinrekr byskup sitt mæl til hans ꜳ þessa leid: „Almattigs guds forsio ok uart samþycki hefir kiorit ydr til erkibyskups i æzsta byskupssæti ꜳ ollu Einglandi til dyrdar heilagri þrenningu, til stiornar kristninni ok folkinu til nytsemdar, ok bidium uer[2] iafnfram, at þer samþyckit uorn uilia i guds nafni." Þessu eyrendi byskupsins suarar hinn signadi Thomas med tarum: „Hui syniz ydr, uitrum monnum, at uikia til min sua hafum lutum ok leggia mer oberan þunga yfir mina byrdi uleysta? Þer þraunguit mitt lif, þuiat ek kenni mina samuitzku hardla miok sekia i augliti mins hins himneska domara." Þetta er fatt af morgum hans motkaustum, þuiat ꜳ alla lund telz hann undan. Ok sem her stendr, syniz uel fallit at leida til minnis þat mikla umbod ok bryning, er Rikardr tok fyrir sunnan sio i kastala Phalase. Hann stendr nu upp ok tekr sua til ordz: „Til þess, sagdi hann, at su nytsemd heilagrar kirkiu, er þer hafit her byriat, fꜳi ęskiligan enda, see ollum ydr kunnigt, at minn herra gamli konungr hefir tekit or þessu mali allan trega, sem hann mꜳ framaz, at heilug kirkia i Kancia fꜳi þui skiotara sinn logligan soma. Vær barum hans bref af Nordmandi, i hueriu hann gaf syni

[1] luka *Cd.* [2] med *Cd.*

sinum Heinreki unga[1] fullt ok konungligt uald til samþyckis ok frelsis allra þeira greina, er Thomasi til heyra, ok þat saama flytia[2] mins herra sendibodar, at til se latid aan duol, greitt ok gert med ollum goduilia. Heyrir ydr ok einkanliga lærdum monnum at stydia þat maal, þuiat i varygd ok uitru hæfir ydr at leida þa personu i faadm heilagrar kirkiu, er þer kiosit henni til formannz, þuiat þat efni skal uel byria, er sua miklu vardar, at hafi godan enda.“ Sua segir Rikardr ok fær godan rom aa sinu maali. Ferr þetta sua merkiliga fram med uottum bundit, at herra konungsins ualld leysir Thomam af ollum lutum ok serhuerium, er krununni varda, sua at eingi um alldr sidan skal aa hann kæra, huat hann hefir stadit edr med konungs gozi farit. Sem þessi tilbunadr er allr ut, leita enn lærdir menn at faa samþyckt ok iatyrdi kosningsins af signudum Thomase. Enn þat maal er æigi fliott, þuiat morg bara geingr nu þegar i hans hiarta, honum er æigi okunnigt, huat setid i Kancia hefir til uegs ok uanda. Eiginni raun hefir hann ok profat, huert ottaefni stendr i hia konunginum ok hans iustisum. Skilr hann ok uel, at mutera þarf hann sialfan sik fra þeiri samþyckt, er nu hafdi hann ueitt um hrid konungsins uilia, ef kristni guds i Einglandi skal æigi med ollu hniga. Afla honum þuilikar hugsanir mikla rygd, þuiat þar kom samt i einu briosti uitrleikr med guds otta. Sem her er komit, segir til hans Heinrekr byskup: „Son minn sætazti, sagdi hann, lat þer æigi hrygdar afla þetta efni, þuiat hedan ifra muntu fagrliga bæta, ef þu hefir nockut brotid. Leid þer til minnis, huersu hann gerdi Paulus, hann uar fyrri motstodvmadr guds kristni, enn sidan mestr upphelldismadr i ordi ok eptirdæmi, ok dyrkadi hana at lycktum med sinu banablodi. Gefi þat gud drottinn, at þu likiz honum aa gotu lifs ok rettlætis.“ Þa suaradi signadr Thomas med upptendran heilags anda: „Leyndri guds þolinmædi, sagdi hann, er geingr med ydrum uilia i þessu maali iatti ek, þott miok ottandiz.“ Þa stendr upp allr safnadr med hatidligri gledi. Syngz þa Te deum med hringdum klockum. Lykr nu sua þeim fundi, at erchistollinn i Kancia ok enn helldr aull kristnin i Einglandi atti at lofa gud fyrir. Þa var lidit fra hingatburd uars herra Jesu Kristi þusundrat hundrat .lx. ok fim aar, þa hafdi Thomas uerit kanceler Heinreks um fimm aar ok vetr, ok hafdi nu fiora tigi ok .iiij. aar sialfs sins alldrs. Ridr hann sua brutt af Lundunum, at hann resignerar adr i hond Heinreks unga allt þat leen ok audrædi, er hann hafdi halldit nærr ok firr af krununni.

[1] ungi Cd. [2] flytium Cd.

*Thomas vigdr munkr.*

17. Signadr Thomas archielectus ridr nu af Lundunum med uirduligri fylgd bædi lærdra ok leikmanna til þess stadar er Merintonia heitir. Þat er hans eyrendi þagat, at hann uill syna bædi gudi ok monnum sitt hægri handar umskipti. Hann lætr ser hugkuemt uera, huerssu forfedr i Kancia hofdu roksamligir uerit i sinni inngongu, at naliga allir þeir fram fra Augustino uoru af regluhusi tilteknir, sem þrir af þeim voru nefndir i onduerdri sogunni, Lanfrancus, Anselmus ok Theoballdus. Þessum uill likiaz blezadr Thomas, sem hann kemr i Merenton, þui sækir hann kirkiu unnustu sinnar iungfru Marie drottningar, þar leggr hann af ser nidr guduef ok silkiklædi, enn tekr upp suarta skickiu ok huita slyppu med kanunka uigslu, ok þa reglu helt hann sidan med byskups embetti sua lofsamliga, sem fam er mattuligt, at huarki hneig fyrir odru. Epter sua gert ridr hann ut af þeima stad i þa halfu, er uikr til Kanciam, ok rett aa ueginum, sem einn klerkr merkiligr madr ok honum heimonligr, er heitir Herbert af Boseam, ridr nærr honum, talar hann sua til hans lagliga: „Bar fyrir mik nockut i nott“, sagdi hann. „A huern hatt var þat?“ sagdi klerkrinn. „Svo syndiz mer, sagdi Thomas electus, sem einn uirduligr madr kæmi til min ok feingi til geymzlu .x. pund silfrs.“ Nu vard her, sem uitr madr maa hugleida, at herra electus skildi synina, þott sakir litillætis leti hann æigi til þydinga. Enn klerkrinn skildi æigi i þenna punckt, huat hun hafdi at merkia. Enn nu er ollum liost, at heilagr formanzstettr hins signada Thome, er gud gaf honum, eru þau tiu pund eptir gudspiallinu, enn auoxtr salnanna ok uppheldi guds rettar er auinningr annarra .x. Ok enn segir herra electus til hans klerksins: „Med þui at þu ert oss heimonligr, uilium uær ok biodum þer, at þu segir oss einum samt, huer ordromr a legz þat, er uær forum fram, þuiat rikum monnum er þat hættligt, ef eingin dirfiz at segia þeim sinar afgongr.“ Ok enn talar hann til klerksins: „Þat uilium ver ok, at þu segir oss einardliga ok þo leyniliga, huert misfelli þu ser oss hættligaz, þuiat fleira sia .iiij. augu en tuo“, sagdi hann. Huat hefir at þyda þessi varygdargrein hins sæla Thome, utan i faam ordum, at hann uill hafa sua sem skygn augu bædi bak ok fyrir, utan aa eyngan veg megi hann falla. Sannliga uill sa uerda rettr hirdir ok lofligr leidtogi sinnar hiardar, er sua gerir. Enn er hann kemr til Kanciam, geingr stadarfolk ut i mot honum med andligri gledi, enn lærdir menn gera ut af hofutkirkiunni hatidliga processionem, sua

Digitized by Google

leidandi hann inn sem sinum saalum af gudi gefinn. Æigi hofum ver fundit dagstætt, nærr. signadr Thomas uar kiorinn i Lundunum til erchibyskups, en þat maa skiliaz, af þui sem skrifat finz, at electio hefir gerz aa uorit eptir paskir, þuiat nu sem hann kemr i Canciam, stendr naalægt huitasunnudags hatid, ok med þui at su frægd flygr ut i rikit fiogurra uegna, at aa laugardag i helgu uiku muni Thomas electus uigiaz allt til prestz, enn aa trinitatisdag næsta til byskups, þaa faam ver æigi greint, huilikt fiolmenni þangat sotti uida um lond bædi af kirkiunni ok curia, virda margir þar til konungsins uinattu, enn adrir æigi sidr þess mikilmensku ok astud, er uigiaz skal. Suo mikit megn uar i þeiri tilsokn, at þar koma samt fiortan liodbyskupar, þar med abotar, priorar, erchidiaknar ok decanar, korsbrædr ok klerkar, sua mikill fioldi sem æigi er summerat, þar er ok Heinrekr ungi med morgu stormenni. Enn sakir þess at þar æru sua margir byskupar framir menn ok mikils uerdir, ma þat hugleida, at meirr en einum þeira mundi þat fagrt synaz at bera hæsta rodd i uigslugerd sua mikils herra, ok þar hellt uit um tima, at greinir mundi til renna, adr þat samþycktizt ollum samt, at uirduligr fadir Heinrekr byskup Uintoniensis skal ǫdlaz þessa sæmd, ok er þat uel uerdugt, þuiat hann er madr bædi kynstorr, litillatr ok sidgodr.

### *Thomas vigdr byskup.*

18. A nefndan laugardag þiggr herra Thomas electus allar uigslur, ok segiz dyrligt af þui efni, þuiat æ skipadiz til meiri giezku hans hiarta, sem bænarordin upplesin geingu til uaxtar med ueizlum ok aminningum vars drottins giafa. I sinni prestzuigslu tekr hann gull, er merkir ualld ok forrædi stadarins i aullum lutum faustum ok lausum, enn aa trinitatis hatid uigiz hann byskup i sialfri hofudkirkiunni, sem modir er yfir allri Einglandz kristni. Gerdiz su uigsla med allri sæmd ok heidr, er heilog kirkia kann at ueita sinum uoldum formanni. Sem Thomas er blezadr byskup vordinn, eru kosnir uirduligir sendibodar til herra pafans curiam at þiggia pallium ok honum heim flytia. Er þar nefndr fremzti madr af þeim meistari Adam, aboti þess stadar er Ornaham heitir. Lypta þeir sinni ferd brut af Einglandi med miklum rikdomi, ok fyrr enn þeir kuomu fram, stendr uel at greina, huat þui uelldr, er uirduligr herra Alexander pafi rennr aa ueginn moti þeim allt nordr um fiall. Fyrr i pafatali er Alexander tertius uar nefndr, fer þat med, at hann atti æuint i sinum ualdzdogum, bædi fyrir ofbelldi Romueria ok nordan af Anglia. Mun enskr oroi honum til mædu sidar greinaz. Enn unaad Romueria

mæ sua byriaz. Herra Adrianus pafi fiordi med þui nafni uigdi Fridrek hinn fyrsta keisara til krunu. Ok þui syndiz keisari nockuru hæfr i hlydni uit Roma kirkiu, medan þeir lifdu badir. Enn sua sem herra Adrianus var uthafinn, skutlaz kardinales i tuo stadi, birtir þa Fridrekr, huat i honum bio, þuiat hann fylgir þeim cardinalibus, er uerr hofdu. Hefia þeir allir samt til pafuadoms sterkan þrætumann, er het Octouianus, enn sidan rettir cardinales kiosa þann mann, er þann tima het Rollant, enn sidan Alexander tertius. Ok at þeim kosningi snyz Hloduir Frackakonungr med cardinalibus ok Heinrekr, nu konungr ifir Einglandi, enn þann tima hertugi Andegauie, ok sa kosningr ofigadiz, þuiat gud uilldi. Enn Fridrekr keisari ferr sua ofdrvckinn[1] med illzkunni, at þegar annar uillupafinu uallt, hof hann annan allt til fiorda manz. Sua heita hans þrætupafar, Octouianus, Guidon, Johannes ok Leuidonus. Enn pafadomr Alexandri angradiz af þui mest, at nockurir af þeim uoru cardinales ok foru med bannsetning ubættir af heimi. Þessi er sok til ofridar, er herra Alexander þolir naliga ut um .xx. aar ok eitt, er hann rikti. Enn þo sættuz þeir at sid(u)rztu, sem enn mun sagt uerda. Hedan lidr ok þat, er Alexander pafi elskar Heinrek konung ok þolir honum meira enn dæmi finniz til, þuiat i sinum hertogadomi uar Heinrekr aludaruin Roma kirkiu bædi med ordum ok expens. Nu er æigi undarligt, þott af þuilikum ofridarelldi angriz ok sturliz Romania, sidan storefliismenn gangaz a sem med sterkazta stridi. Her fyrir rymir herra Alexander brott af Roma, þuiat hann fær æigi uid halldiz, ok gerir sem vani er romuerskra byskupa, at ef þa sækir nockurar þraungslir, er blezada Frackland sem þeira erfd ok odal til allra godra luta. Hedan rennr su grein, sem fyrr uar getid ok skrifat, at sendibodar uirduligs herra Thome þur(fa) æigi at leingia sinn ueg allt til Roma, þuiat þeir finna postoligan herra Alexandrum i þeim stad Franzie, er heitir Munipeler, ok þar þiggia þeir med sonnum goduilia herra pafans aull sin eyrendi, þuiat frægd ok mikilmenska Thome flytr þeira maal hardla uel a gardinum. Suo uenda þeir aptr i ueg ok koma heim med elskuligri færsælld. Ok þuisa næst fagnar enn at nyiu heilog Cantuariensis kirkia, þuiat a næsta hatidisdegi þeira heimkuomu audlaz hon uirduligan erchibyskup med pallio ok postoligri roksemd.

*Huerso Thomas erchibyskup hattar dagliga sinum hag.*

19. Sem uirduligr herra Thomas er erchibyskup uordinn, uendir

[1] ofdryckinn *Cd.*

Digitized by Google

hann um sinu sidferdi bædi med ordum ok athofnum, sem þeim manni til heyrir, er skaparann elskar yfir alla luti, sua sem hann (bætir) sitt lif, at bædi fyrir kenning ordz ok eptirdæmis megi hann leida sinn lyd aa sanna lifsgotu. Vel maa til hans tala, at hann bar tuo dyrliga menn, var aannar hardlifr reglumadr, enn annar uirduligr erchibyskup; þui reglumadr, at hann bar leyniliga snarpt harklædi aa sinn beran likam, enn þui uirduligr erchibyskup, at hann berr fyrir utan þau klædi, sem bædi æru huit ok hrein, uid ok sid, med huitum skinnum ok luktum ermum, sua mundanglig, at huarki uoru þau ne med þeim ofranaar mynd ne forlitning. Elskuligt uar honum at uera þuilikr fyrir guds augum. Enn sammyndadr fyrir monnum, yfir þessa hirting ok mædu er harklædit fær honum, med sinni myckt fremr hann þa godfyst ok litillæti, at hann legz morgu sinni lagt til iardaar undir þann lima er han(s) trunadarklerkr ueitir honum. Maa þat hugleida hiartagodr madr, huersu klerkr sa mundi ugladr ganga til þeirar gratligrar syslu at plaga ok pina naudigr sua blezada personu. Sua uenr Thomas nu þegar sina limu at þola þyngri luti, at pislaruættis nafn maa hann i þuiliku hardretti uel greinaz. Dagliga berr hann yztan stola huitan ifir oll sin klædi til aaminningar, huat er hann reiknaz gudi skylldugr ser ok odrum til fagnadar. Enn nu sem greint er i stuttu maali, huerssu signadr Thomas skipar omiukliga vid sialfs sins lif ok likam, stendr vel, at ver heyrim þessu næst, huerssu miuklatliga hann skipar vit limu drottins vars Jesu Kristz, fatæka olmusumenn. A hueria nott sem uti var ottusaungr, eru innkalladir þrettan fatækir menn i nockut leyniligt herbergi, þar sem bord er sett ok buit. I þetta herbergi geingr sialfr erckibyskup ok leggr af ser klædit, enn gyrdir sik einum duk, ok þuær framfallinn þeira fætr, er fyrir sitia, med suo mikilli nægd gudligrar miskunnar, at taarin fram af hans augum samflutu þui uatni, er hann þuærr med. Med þeiri mykt ok framfalli bidr hann þaa guds olmusumenn arna ser guds miskunnar. Sidaan þionar hann þeim til bordz bædi mat ok dryck, ok þar umfram gefr hann fiora skæra penninga huerium þeira þa enn med knefalli. Eptir þat ganga þeir ut, enn herra erchibyskup ferr at sofa um nockura hrid. Enn þui fremr herra erchibyskup þetta miskunnaruerk helldr aa natt en dag, at hann firriz alla hresni, ok i adra grein at eingin fiolskyllda dragi hann fra þuilikri stadfesti. Annan tima moti lysing æru innleiddir adrir þrettan fatækir, þionar þessum ok þuerr einn brodir skipadr af erchibyskupi. Saa brodir gæymir at nockurum lut fatækra manna fe, sem þessu manntali hæfir, hann hefir ok þionustu i stad erchibyskups i fyrra

fotaþuætti, ef hann ær æigi heima. Er su misgrein þessarrar innleidzlu tuennrar, at i sidarri gefaz æigi penningar. Þridia samkunda er skipud nærri þridiu stund dags, i þeiri er hundrat fatækra manna, þiggia þeir allir braud ok dryck i nog. Nu sem heyraz mæ, æru þessar olmusugerdir sua storar, at eingi erchibyskup i Cancia hafdi geingit meirr enn til halfs vit Thomam, ok mun þo rett at hugsa, at æigi se her allar greindar, þuiat handuis var þeim olmusan, er badu, huart sem hann uar heima edr i syslu sinni.

*Atferdi Thome.*

20. Nv er þar til at taka, sem fyrr var fra horfit, at herra Thomas erchibyskup hefir sofit um stund eptir fotaþuottiun, riss hann upp sua uakrliga, at þa ero enn adrir menn i nadum. Hann geingr þa inn i sitt studium bædi til bænar ok heilagrar ritningar, þuiat studium heilagrar bækr uar honum hardla kært, þegar æigi stod fiolskyllda fyrir. Sem hann hefir setid um stund ok trackterad, er suo lofsamligr hans uani, at hann sendi skosuein sinn at kalla fyrr nefndan klerk Herbert af Boseam, at þeir badir samt greini fagrliga eptir rettu formi ritninganna, huersu þat rennr i samþyckt, sem syniz sundrligt. Eptir þat gert sem byskupi likar, uikr sa brutt, er[1] kalladr uar. Enn þat blezada hugskot sitr þa enn eptir i sama stad, lesandi saman i sinu hiarta sem hunangligan sætleik þat, sem adr var tracterad med rauksamligum skilning ok concorderan, þuilikan hug elskadi sa blezadi byskup, at vera odrum uitrari ok þyckiaz þo annarligrar uizku þurfandi. Sua sitr hann framan til messumæls einn samt, huart sem hann officerar ædr æigi. En þær hatidir sem sialfr hann skal syngia, geingr hann til skrydingar a þridiu stund med sua lofsamligu upphafi, at þegar sem hann ser messuklædin ok skrudann at ser borinn, ognar hann sinni samuizku med sua litillatri hugleiding, at þegar æru tarin uti, ok þeiri somu godfysi helldr hann fram i allri sinni embettisgerd, at hans heilog æsiona þornadi alldri fra tarum, ok þadan af geingr sua hiartaligr tregi med hafum anduorpum, at uarlla feck roddin sitt frelsi til framburdar. Medan messan syngz fram til ewangelium, less hann þær bænir[2], er foruerari hans settrar minningar Anselmus erchibyskup hafdi componerat. Leingztum hafdi hann eina collectu, hafdi hann ok þriar, enn fleiri trautt edr æigi. Einga nyiung leidir hann i embættisgerd sina, utan helldr hefir hann allt eptir heilagra fedra setning. Sua fremr hann ok embettid med fogrum hætti, at ollum

[1] sem *tilf. Cd.* [2] *oprindelig skrevet* idranar *i Cd.*



Digitized by Google

var hugbot i, er hia stodu. Enn þat uar audsynt, at sakir uarygdar flygandi hugsanar, gerir hann alla sina þionustu med fliotu yfirbragdi. Þat er ok greinanda, at þa tima sem hann predicar fyrir sinu folki, geingr hann i þui embetti sua lystr ok lærdr af gudi, at framburdrinn uar bædi miukr ok mikilvirkr med reyndum rauksemdum ok sætleik elskuligum. Optliga mykti hann þat hiarta med sinum blezudum aminningum, er adr var hart ok frosit i langri uanrækt ok syndum, ok var þat likligt, at hans tarlig godfyst leiddi adra menn til tara, einkannliga fyrir þa grein, at hann lærdi þat eina, er hann lifdi sialfr. Her ma nu siaa uegligan forunaut ok felaga þriggia konunga, er af austrriki foru med þrennum fornum at tigna drottin Jesum blezadan Mariu son, þeira offr var gull, reykelsi ok mirra. Sannliga var nu lesit um stund, huersu heilagr Thomas erchibyskup geingr med sama offur um nætr ok daga fyrir uarn gredara. Gull fornar hann med rettri glosu, þa er hann þionar fatækum monnum med olmusugædi, tarum ok knefalli, þuiat gull er fegrzt ok dyraz yfir allan malm, sua er ok olmusan a domsdegi, sem heyraz mun af sialfs drottins munni. Fornfærdi hann ok ilmanda reykelsi sinum gudi fyrir suo fallna glosu: Reykelsi lagt a glod leitar i loptid giarna, somu leid for hans signada bæn til himna, þa er hann fornfærdi, er allt flaut i upplitningar hæd ok ilmandi giæzku fyrir gudi. Til lagdi hann ok mirram þessi blæzadi byskup. Med mirru smyriaz daudra manna likamir, suo lagdi hann somu mirru upp a sinn likam, þa er hann deyddi sinn likam ok sitt horund med harklædi ok hudstrokum ok þiadi fra raungum girndum eptir vars drottins bodordum.

### *Af setningi Thome.*

21. Nærri nontima dags geingr signadr Thomas erchibyskup i holl sina til bordz med sua gott mànnual, at fam hofdingium ueittiz þuilikt. Þeir æru .xx. at tolu uppsitiandi yfir hans hasetisbo(r)d honum til hægri handar, er allir megu med rettu kallaz meistaramenn i speckt ok ollum frodleik, sæmiligir i sidferdi ok heilogum lifnadi, þat til marks, at eptir liflat heilags Thome var eingi þeira minni madr i guds kristni en erchidiak(n) edr dæcan. Sumir vurdu byskupar ok erchibyskupar, einn af þeim vard ok sialfr pafinn Vrbanus tertius. Þuilikir æru samsætismenn virduligs Thome erchibyskups, hafandi sua uænan sess, sem fyrr var tiad, til hægri handar, enn munkar ok reglumenn til vinstri handar. Yfir þetta signad(a) bord heyriz eingi rodd nema heilog leccio ut alla maltid. Ok þui skipar erckibyskupinn riddurum ok odru hoffolki serligt bord, at þeir megi

Digitized by Google

hafa med lagri hofsemd sina skemtan. Varlla kom sa tiginn madr a gardinn, at brygdi þessu samsæti, sem adr er greint, a tuær hendr herra erchibyskupi. Enn þeir uoru þo sæmdir dyrum sendingum af honum sialfum, er til gardz kuomu, þui framar sem þeir uoru meiri uirdingar. Þat er ok audsynt i sogu þessi, at bædi uirding ok langr uani bar til þess Thomam erchibyskup at hafa rikuligt bord med fogrum ok ymissum reittum. Enn þott margir ok lystiligir ueri honum settir, tok hann af fam ok þo hardla litid med sua miklum bindendis krapti, at upp fra bordinu stod hann i huern tima helldr uanmettr enn ofmettr, sem þeira skynsemd matti uel dæma, er satu ihia honum. Somu dygd framdi hann a uin upp ok ualinn dryck, at eingi beidni uleyfdrar girndar sigradi hann þar um. Enn er bord uoru upp tekin ok gratias gioruar, geingr herra erchibyskup med lærdum monnum i sitt herbergi, ef honum likar at disputera um helgar ritningar. Er þat ok til, at honum likar uel i þenna tima, at sofna nokkut litt. Þridia grein er su til eptir atuikum at sitia yfir malum manna, þuiat idiuleysit fordaz hann bædi nætr ok daga. Enn þat uar likligt, þott hans nattura beiddi, ath hann hneigdiz a daginn til nockarrar huilldar, þuiat suefntimar hans uoru æigi langir a nottina fyrir þionkan fatækra fyrir tar ok trega, bæn ok studeran. Enn sua heitt sem hann unni sinum lauard ok lausnara, var astud naungsins æ sammilskut i hans hiarta sameigin til allra, ok þo einkum til aumra manna, sarra ok siukra, þuiat þessum ueitti hann fyrir guds nafn æigi at eins fædzlur ok fiemuni, helldr sua fodrliga umhyggiu, sem lesit er, at hann gerdi optliga heimonliga menn sina at uitia siukra manna herbergi, at þeir saliti med uanduirkt, huersu su renta ok uitværi aktaz inn ok geymiz, at þagat liggr med rettri skipan. Ok gudi til tignar uitiar hann sialfr morgu sinni þetta saluhus, at eiginni raun sie honum liost, huat þeim lidr er þar liggia. Til þessarrar salubudar leggr hann tiund af ollu þui godzi, er a gardinn kemr, ok þat ma segia med fam ordum, at þær guds giafir, er hann hefir ualld yfir, æru allar ollum sameignar. Theoballdus erchibyskup uar milldaztr madr fyrir honum, ok þo sætr Thomas aull miskunnaruerk tuifolld yfir hans dæmi. Nu sua miukr sem hann uar uit litilmagnann, sua uar hann rikr ok rauksemdarfullr uid ribballdann þuiat þeim hardydgismanni, er standa atti undir hans alogum, var mikit gefanda til, at hann hefdi fordaz huarttueggia samt, þat er at skilia tiluerkan glæpanna ok hirting þuilika. Enn þeir sem hann sottu med mykt ok idran annmarka, þott lögbrot ueri afskapliga

stor, mættu þeir æigi stridari æsakan sem hardlyndir, helldr fundu þeir bratt, huern fodr þeir attu fyrir innan, er allr lek i ell(d)i astarinnar ok gret med gratundum, ok þui sua at hans blezut sampining matti ecki aumt siæ.

### *Af roksemd Thome erkibyskups.*

22. Þessu næst er greinanda gudi til sæmdar, huersu signadr Thomas uar i sinni embættisgerd bædi uarr ok athugall, þat er uigslugerdum[1] til heyrir, þuiat honum var hugkuæmt, huat er Pall postoli sagdi sinum lęrisueini: Legg eingum manni uigsluhond æn forsio, at æigi samlagiz þu syndum hans. Þetta ord uaradiz miok herra erchibyskup ok setti laugliga profæn þeim, er uigiaz uilldu. Ok fyrst allra luta litr hann æ eptir reglu rittninganna, huart sæ er uigslu uerdr sakir lifnadar, er framm ætlar, þar næst ræannsakar hann kennidom ok uitzku, sem þeiri uigslu heyrir til, er sæ stundar til. Þessu næst skodar hann, ef vigslan ferr framm, hueria forsio ædr beneficium huerium hann megi ueita, at æigi þraungui þann aureign æ reikanar stig, er gudi skylldaz at þiona med sannri stadfestu ok heilagri vaktan sinnar uigslu. Sua var honum hugstædt allt samt þetta uanndlæti kirkiunnar, at uarlla uilldi hann treysta nockurum manni til þessarrar prouanar nema ser sialfum, þuiat hann sagdi berliga, at huerr sæ byskup, er uuerdan uigir æn logligri profan, styggir storliga miok sialfan gud, þott uigdr betri sidan sitt ræad. Þui var hann ok ræaduandr i uigslugerdunum, æat hann (uar) til eyngrar aumbunar, æi til gullpennings siæandi, þionkanar ædr eptirmælis, þuiat oll simonia var i utlegd fra hans hiarta. Somu gudhræzlu fyrir utan agirnd uardueitti hann i allri kristninnar stiorn, domum ok mæalaferlum, þuiat florinn smaug alldri hans samuizku. Þat fylgir her med, sem dasamligt er til frasagnar ok fagætt fyrir eyrum kristninnar, at af einum uæaldzmanni var allt hans ræaduneyti[2], sua sett ok samit i uarygd ok uoldu riettuisi, at ollum þeim var fiemutan sua leid sem liotr ouin, ok þui sitr heilagr Thomas med sinu ræadi riettr ok uhallr i malaferlunum, at þar inni var eingi sæ lǫstr, er rangęnyr dominum, sem er fesnikni ok mannamun, hatr ok uinatta, helldr uar þar i midiu framsett rettlætis uog med uægd eptir atuikum ok reglu laganna, huersu huert mæal æ at hneigiaz sem bezt sæamir. Enn þott herra erchibyskup siti med ollu kauplaust yfir æaskilnadargrein sinna undirmanna, gefr hann sik betr lidugan at skoda uogst[3] ok efni malæanna, enn þeir sumir er skrapa hinn mæallausa. Blezadr se sæ byskupsgardr, er sua var fyrir guds

[1] uigslagerdum *Cd.* [2] radyneyti *Cd.* [3] uougst *Cd.*

Digitized by Google

astriki fagrliga sidadr, ok aa þeim tima miok uirdandi, þuiat vuist er at nu finniz þuilikr. Enn at þetta lof hins blezada Thome er æigi ordum aukit, þa leidum uer til uott, huerssu satt er. Aboti einn rikr kom til Kanciam med malefnum nockurum, er hann uill uinna. Ok sakir þess at honum er uel kunnig verolldin, huersu hinn kringlotti er iafnan þegir uinnr malin ok flytr fyrir hofdingium, hugsar hann, at her muni likr heimr ok i odrum stodum. Þui ytir abotinn florin aa gardinum ok ætlar at smyria raad erchibyskups til framkuemdar mali sinu. Enn her er annat fyrri. Saa gullpenningr, er uerolldin(a) lockar ok dregr med megni, er i þessum stad hatadr ok hrundinn, þuiat florin abotans uill raad erchibyskupsins æigi sia, ok æigi þui-sidr færr hann oll sin malalok aa gardinum, sem uel likar honum. Sua ferr hann i brutt ok frægir þenna lut sem eina nyung. Hann tok sua til ordz: „Einn hofgard fann ek þann fyrir litlu, er gull fyrirsmaar[1] ok skipar þo maalum hardla uel. Enn huer mun bodat faa med fullu þa sæmd ok sidferdi, er þessi guds madr audlæzt ok aflar bædi fyrir sik ok adra, ok þui maa sua hugleida, at þetta sem nu hefir lesit uerit, er nockur tiluisan uitrum manni, huersu margtækr ok mikiluirkr sæll Thomas erchibyskup hæfir uerit i sinum kraptauerkum. Skal nu þessu næst uikia maalinu til þeira framferda, er hans syslu ok yfirferd til heyra.

### *Af vmvandan heilags herra Thome erkibyskups.*

23. Eptir litinn timaa sem guds madr Thomas erchibyskup hefir setid at stoli sinum, byriar hann sina uisiteran med sua haleitri godfyst uid folkit, sem byskupinum er bodit, med hialpsamligum aminningum predicanar embætti ok logligum hirtingum, miukr ok astudigr var hann sinum lyd, ollum þeim er lydnir uilldu vera, en ranglatum uar hann huellr hamar til hegningar[2]. Finnr hann ok þui giorr, sem hann ferr uidara, huersu logleysur ok uondar uueniur æru i moti kirkiunni sua sem hefdadar. Einkanliga riss þat maal af þui lastudga grunni, er fyrr var skrifat, af skutlan ok gripdeilld, er fyrr leiddizt upp aa guds eign. Nu kynniz sælum Thomasi framar enn fyrr, at iardir erchistolsins liggia nockurar sem herleiddar med eignarnafni undir leikmonnum, ok sakir þess at hann hefir skipt um rumin ok aa nu guds rettar at reka, syniz honum aa eyngan ueg þolanda, huer sem i lut aa. Hann ueit ok i sinu briosti, huersu mikinn uilia hann hefir til at ueita meira guds olmusum enn adrir fyrir honum i Kancia, ok þui setr hann sik einardan umfram sina

[1] fyrirsmaat *Cd.* [2] heginnar *Cd.*

Digitized by Google

forfedr at kalla aptr undir kirkiuna fasta eign ok lausa, er hon æ med rettu, huart sem undan dre(g)z at fornu edr nyiu. Ok þott rikir menn ædr konungsmenn halldi nu adr þessar eignir, verda þeir af lata, þuiat erchibyskup gerir i þessu mæli alla iafna. Nu þær eignir, sem nyliga hafa vndan lagz fyrir umbodsmanna uanmegn edr eptirmæli uid rikismenn, ok hann ueit uist at kirkian æ, tekr hann med sterkri hendi æn ollu profi aptr undir erchistolinn, þuiat hann segiz eingan rekstr ædr mædu uilia bera fyrir þui fie ok frelsi, er hann ueit efalaust kirkiunnar eign, ef hun skal urænt vera. Enn þar allz stadar sem meiri fyrnd er æ fallin, leidir hann til ellri manna uætti ædr letr skilrik, ok tekr sua aptr undir kirkiuna. Nu þott þessi framferd veri lofsamlig, likar hon æigi ollum þui helldr, þuiat þeir sturlaz hardla miok, sem her æiga hlut i. Sua ok hinir sem ottaz æigi sidr, at þeim falli flisin, þott sidarr sie. Þui lyptaz þessir huarirtueggiv nu þegar til unada, hafa sig brutt or landi ok sækia sudr um sio æ fund Heinreks konungs, flytiandi helldr snidhuast af framferdum erchibyskups. Enn med þui at heimonleikr er hardla kær med konunginum til erchibyskups, tekr hann fridsamliga flvtningi þeira, segir at þat mæ uel hafa godan ennda, bydr þeim at uera sem uelkomnir, þar til hann uendir heim til Einglandz aptr sialfr, ok erchibyskup mæ heyraz. Ferr þetta sua fram, at litlu sidarr kemr herra konungrinn til Einglandz, ok þessir i hans fylgd, sem adr æru greindir. Signadr Thomas erchibyskup gerir eingua duol æ at finna konunginn sem fyrst, hefir hann i ferd med ser fostrson sin Heinrek unga, þuiat þeira i millum var sua mikil astud sem tueggia nastædra manna, huart sem þeir uoru dagliga badir samt ædr ser huarr. Þeir mæta konunginum i þeim stad, er Sudhamtun heitir, ok ganga suo i fyrstu inn fyrir hann, at þeir halldaz i hendr. Konungrinn synir sik uel blidan, riss upp af sætinu mot erchibyskupi ok kyssaz med kærleik. Enn er þeir sia þenna fagnafund, er mishalldnir þickiaz, fordiarfaz þeir ok þegia, þuiat þeim syniz æigi færi at flytia, medan sua stendr. Duelz herra Thomas um nockura daga med konunginum, talæ þeir margt ok nytsamligt eptir uana sinum um rikisstiorn ok landzstiorn ok rett. Enn eptir þat lidit tekr hann orlof, ok skiliaz þeir med fullri blidv.

### *Af Thomasi erkibyskupi.*

24. Svo stendr skrifat, at herra Alexander pafi tercius hefir einkanliga þrent lof i krist(n)inni, þat fysta at hann sigradi fiora þrætumenn, sem fyrr var greint, lagasetning hans er onnur grein,

Digitized by Google

þuiat hann samdi eina bok, er af hans nafni kallaz Alexander tertius, þat þridia, at hann helllt tuo kennimanna þing i sinum uældzdogum, annat i Rom, enn annat i Turon a Fracklandi. Ok þat sem hann helldr i Turon hæfir þessum stad saugunnar, sem nu er komit, þuiat midil annarra byskupa ok lærdomsmanna, er uida um kristnina voru samt kalladir i einn stad, ferr uirduligr fadir Thomas erchibyskup ok sækir þetta þing. Byrr hann sik til þeirar farar med allri stormenzku bædi at rikdom ok uegligu foruneyti. Þat er ok hans tilbunadr, at hann uill endrnyia þau priuilegia sinnar kirkiu, sem nv synduzt miok fyrnd, enn voru þa miok nytsamlig. Mæ þar nefna til þriar greinir, er noteraz i sogu þessi, er allar þurptu frumtignar af herra pafanum, ef þær samþyckia laugunum. Þat ær skrifat logmal, at kapitulum huerrar kirkiu skal kiosa ser byskupsefni, enn æigi er sa kosningr ofiugr, fyrr enn profaz logligr ok efliz fyrir herra pafans ædr erchibyskups uallld. Sua kiorinn ok confirmeradr maa æigi uigiaz af nockurum lydbyskupi nema fyrir herra pafans ædr erchibyskups bodskap. Sua kiorinn confirmeradr ok uigdr skal sialfr sækia pallium i pafagard fyrir þa rauksemd, at hin romuerska modir skal profa fyrr bædi lifs fegrd ok uizku, enn hon ueitir þat. Nv uill sua vera i setning laganna, at allra þessarra greina hafi Cantuariensis kirkia þegit priuilegia. Virduligr Thomas kanceler uar kiorinn innanland(z) i Lundunum, ok þegar stod sa kosningr med þui afli, at hann uigdiz litlu sidar æigi af herra byskupi helldr af herra Heinriki Vintoniensi, æigi sotti hann pallium utan fyrir sendiboda. Nu ma synaz likligr til þess blezadr Gregorius pafi, fyrir þa giæzku er hann lagdi upp a Einglandz kristni, at erchistolnum i Kancia hafi hann gefit sua mikit frelsi, med þui at þat er hofutstadr i ollu Einglandi[1], fyrir þa grein at fostrson hans Augustinus uar þar fyrstr erchibyskup, ær ok kunnigt, at æigi sotti hann pallium til Roms, æigi uigdiz hann ok þar, helldr i Saxlandi. Her fylgir fiorda grein i frvmtignum Kantuariensis kirkiu, at[2] hennar erchibyskup er legatus herra pafans yfir ollu Einglandi, þat er at skipa þeim malum, er eingum heyrir til af logunum nema romuerskum byskupi. Ok þetta sama uallld hefir Thomas erchibyskup, sem birtiz i sogunni, þar til agirnd ok ofund riss i moti. Sæll Thomas erchibyskup sem hann er albuinn, tekr hann i haf ok færr þa hofn i Flandr, er Grafningr heitir, ok hefir adr tekit kierligt orlof af Heinriki konungi med fullri blidu. Er þa æigi langt adr enn sia maa, huerrar fregdar ok mikilmenzku hann[3] er, þuiat rikismenn i landinu sækia hans fund med sonnum goduilia biodandi honum sua med frialsleika[4], huat er hann uill af þeira gozi hafa.

[1] sua *tilf.* *Cd.* [2] ok *Cd.* [3] hon *Cd.* [4] friaslega *Cd.*

Digitized by Google

Af Flandr færr hann erchibyskup i Nordmanniam, ok er þat fliott til fræsagnar, sua sem hann kemr i riki Einglandz, er honum sua fagnat med allri uirding sem sialfum Heinreki konungi. Hædan kemr hann fram iuir Cenomanniam, ok er þat fliott til frasagnaar, ok sua upp i Franz. Enn er hann nalgaz Turon ok heyrinkunnigt uerdr i borgina, at hann er nalægr, er þat med miklu megni, huersu stadarfolkit tekr þau tidinndi med mikilli gledi. Lærdir ok leikmenn hafa sik ut af stadnum framm æ ueginum i moti honum, ok æigi sidr sialfir kardinales med sua mikilli ferd, at æigi satu meirr eptir hia herra pafanum enn einir tueir. Her med fer þat til frabærrar sæmdar, at þann tima sem herra pafuinn heyrir herra erchibyskup kominn innan borgar, geingr hann ut af þui herbergi, sem adr hafdi hann setid, at æigi þraungiz hann af fiolmenni, sem þeir finnaz, þuiat honum er flutt, at herra erchibyskupi fylgir mikit folk. I þeiri somu haull mætaz þeir med mikilli blidu, þuiat pafin hafdi longu girnz at sia ok heyra Thomam, fyrir sua goda fregd sem hann gaf efni til. Enn þo sakir þess at ærchibyskup er nu uegmodr, gefz honum bratt orlof til sinna næda. Syslaz honum uænt herbergi æ konungsgardi æigi langt fra pafans holl. Lidr nu sua framm til þings um þria daga. Kemr þar þa samt i einn stad uolldugt mannual ymissra stetta. Enn huerssu heilagr Thomas erchibyskup skipazt uirduliga til sætis, ræds ok tillogu med herra pafanum, þarf æigi langmælis, þuiat stett ok uitzka margfalliga uel profut adr ok sidan skyrir þat uel fyrir heyrondum. Enn huilikt kirkiunnar eyrendi þar flytz framm i fyrstu, mæ æigi med ollu um lida, þott uisum manni see þat liost, fyrir þæ styriolld er nu ueittiz kristninni. Herra pafinn med fodrligri æhyggiu uill tia fyrir lærdum monnum ok einkanliga hofdingium kristninnar, at þeir geymi sin med uarygd at samnetiaz æigi þrætumonnum, ok seti sik aurdiga moti þeim ueralldligum hofding(i)um, er bregdaz heilagri Roma kirkiu, sem er Fridrekr keisari, ok nu kominn þar til Miklagardz konungr ok hinn þridi konungr Sikileyiar. Vel mæ segia i undirstaudu[1] þessa mæls, sem hinn heilagi Paulus se fram settr i midiu, er hann skrifar til Thessalonicenses bidiandi fyrir tilkuomu drottins, at þeir skutliz æigi af reittum skilning, ok æigi sturliz[2] þeir i ordum ædr hugarfari, æigi fyrir bref ordsending ædr fortolur, ok æigi dyrki þeir þann, er drambarr i hasætistign umakligr allrar uirdingar. Morg aminning roksamlig var þar gefinn, þuiat nu var at buaz i morgum æskeytum, ok at þar hofz unadin, sem afskapligaz matti synaz ok mestan ufrid kristninni af leida. Sua lycktaz þingit,

[1] undirstundu *Cd.* [2] styrliz *Cd.*

at huerr uendir i sit land. Bydz ok herra Thomas til heimferdar at gerfum æskiliga sinum eyrindum, er til heyra Cantuariensis kirkiu, ok tekr blidazta orlof herra pafans med fridarkossi ok fogrum ordum. Vænd'r herra pafinn nu brutt af Turon til þess stadar i Franz, er heitir Sennonis, þat er einn rikazti stadr med mikilli argæzku, er uirduligr herra Hloduir Frackakonungr ueitir honum i sinu riki fyrir sæmd ok astud heilagrar Roma kirkiu. Blezadr Thomas kemr heim i Eingland med allri farsælld ok finnr Heinrek konung med blidum kiærleik. Vard þessi sæmdarferd hans mikil a margan hatt, er gerdiz a odru ari hans rikis.

### *Thomas vigdi byskupa ok tok or iordu likam Edvardar.*

25. I þenna tima hugleidir hinn sæli Thomas, huersu þat mun standa fyrir gudi, sem hans aahyggiu til heyrir in prouincia. Þat er sua fallit, at tuo byskupssæti Uigornen ok Hereforden liggia hofdingialauss, þuiat korsbrædr kirknanna þora æigi at kiosa ser formenn sakir konungsins ognar, þuiat eptir fornum uuana uill konungrinn draga undir sik rentur kirknanna, ok þui skulu þær hofdingialausar uera, medan honum likar. Yfir þessum hlut þorir Thomas erchibyskup æigi fyrir gudi leingr þegia, þuiat hann ser afskapligt vera, þui minnir hann a konunginn meirr enn um sinn, at hann liæ tauminn ok leyfi, at formenn sie kosnir kirkiunum til stiornar. Enn med þui at konungrinn lætr seint'uid, snerpir erchibyskup sinar aminningar um nockurn tima, þar til er konungrinn gefr samþycki ok þo miok um þueran hug. Maa nu þegar hans briosti taka þaa liking, at lopt hefir skirt verit, enn missi nu nockut, ok dragi af mestu birti. Korsbrædr faara nu fram til kosnings med uilld erchibyskups, kiosa þeir þann mann til Vigornem, er Rogerus het, ungr madr ok tiginnar ættar, fagr i sidum ok godrar frægdar. Til Hereforden er kosinn meistari Robert, mikill madr i uizku ok skilning heilagrar bækr. Vigiaz þessir badir saamt af Thomasi erchibyskupi. Ok þessir tueirr byskupar uardueittu iafnan sælum Thomasi sina dygd, huart sem yfir stod blitt ædr stridt. I sama argang, sem adr var greint, kallar heilagr Thomas erchibyskup samt byskupa nockura, þuiat hann uill gera med konungs samþyckt aagæta kirkiuuigslu uit Uestmystr i Lundunum. Þat musteri hofdu eflt af grunduelli konungar i Einglandi, ok þar huilir Heinrekr gamli modrfadir þessa Heinreks. Giordiz su kirkiuuigsla med mikilli uegsemd. A sama ari gerdi enn heilagr Thomas hit þridia uerk mikillar nytsemdar, er hann tok or iordu heilagan likam Eduardar konungs, er leiddr

hafdi uerit i Lundunum. Enn nu skipaz hann sannheilagr madr upp i millim annarra heilagra doma i þui nyuigda mustari, er adr var greint. Var Heinrekr konungr (þar) med morgu stormenni.

*Hier riss misþykt milli byskups ok konungs.*

26. Litlu var lesit, huersu Heinrekr konungr hiellt undir sinu ualldi .ij. byskupsstola, adr Thomas erchibyskup feick dregit hann til samþycktar, at formenn veri kiornir. Maa þeim lysaz, er hugleiddi sogunni i upphaf, sat slik er erfd ok eptirdæmi Vilhialms rauda, ok þat dregr driugt, er af honum leidir, adr enn lykr maali, ok einn lut þar af hæfir þessu næst at greina, er fridarspell gerdi i landinu millum konungs ok erchibyskups. Fyrr var lesit, huersu Uilhialmr konungr setti gialld a kirkiur allar i landinu, at kuitta honum aptr þann kost, er Rodbert brodir hans hafdi or landi. Kalladiz konungr þat goz hafa lagt til frelsis Jorsa(la)landi, ok stedi uel lærdum monnum at bera þat aptr konungi sinum. Enn sakir þess at konungsgardr hefir halldzsaman munn, stod þetta gialld ar af ari. Var i fyrstu kalladr Jorsalatollr. enn þui næst leidangra fee, at konungr hefdi uti herskiolld til sameigins fridar i landinu. Enn a þessum tima[1] er sua komit, at þetta utgialld er krafit sem konungs uiseyrir af meira husi ok minna um allt Eingland undir eingu[2] nafni audru enn forn skyllda lagin greinarlaust inn i konungsgard. Þessi framferd likar eigi Thomasi erchibyskupi, segir, at konungs ualldi samir eigi at heimta þuilikt fie med sua mikilli freku sem onnur konungs inngiolld, helldr sem atuik ok naudzyn beiddi landzfolki til fridar, ok fyrir utan þa skynsemd krafdi eingi skyllda[3] at luka þessi hialpargiolld[4]. Mislikar konungi þetta motris ok herdir nu þegar huginn sinn moti erchibyskupi. Safnaz ok hedan til annars um þetta sundrlyndi. Konunginum er flutt morgu sinni aan allri uegd, at Thomas erchibyskup gerir litinn uirdingarmun i skriptabodum sinum ok alaugum, lætr a likan hatt undir luta rikan sem urikan, sua lensmenn ok uini konungs sem adra ut ifra, ef þeir[5] raska guds rett med liotum lifnadi edr leggia kirkiunnar eignir undir sik med agirnd ok ofbelldi. Þetta bryzt enn med konunginum, eigi þui ulikt sem i fyrstu sauiti hann sina samuizku, þuiat hann ser sik bleoktan i þeiri hugsan, at Thomas mundi leika allr audradr i hans hendi, ok þui uæpnir hann sinn hug med forzi upp i moti kirkiunni, at hann skal þui freckligar strida lærdominum, sem erchibyskup skriptar umiukara hans. Ok uel maa segia at þeir lærdir[6] menn sem nu ganga miok afskeidis i Einglandi

[1] timam *Cd.* [2] eignu *Cd.* [3] skylldi *Cd.* [4] hiallar gialld *Cd.* [5] þeira *Cd.* [6] leidir *Cd.*

Digitized by Google

æru storliga framlutir[1] til illzkunnar, þuiat sua æru þeir nu gripnir af syslumonnum sem ulærdir ok dregnir undir limalaat ok skemdir, nema þeim uerdi undan skotid med roksemd ok raadi herra erchibyskups. Þuiat sua eru sumir ollu godu afflettir ok kieyrdir af landi brutt i eilifa utlegd, enn adrir streingdir inn i klaustr undir æfinliga idran, at med þeim flotta drægiz huarirtueggia undan meidzlum ædr konungsins suerdi. Sua bar til i syslu byskups Sarisberiensis, at einn prestr for sua uanstilltr, at hann serdi mann til olifis. Frændr hin(s) uegna kæra hann fyrir konungs ualldi, ok syslumadr gripr hann ok flytr hann fram undir byskups dom. Rægia þeir hann med megni ok þo at uuerdugu, er eptirmalit attu, þuiat mandrapit er sua liost, at hann færr a einga læid snaraz undan. Sem byskupin(n) hefir profat maalit prestzins, huerssu liott er, geingr bædi til med honum uþoran moti konunginum ok uheil samuizka til erchibyskups, ok þui uill (hann) hlifa ser, at annar fai vandkuædit, þuiat þessi sami byskup, Jocelin at nafni, profar sik mun sidarr leigumann einn, þa er vargrinn kemr at dreifa hiordina. Þat tekr hann til raads at skrifa allan malauoxt til Thomam erchibyskups bidiandi med miuku yfirbragdi, at hann urskurdi maalit, hueran enndiliga skal gera uid prestinn. Herra erchibyskup skrifar i mot med fullum sentencia, at prestr skal aftignaz allri sinni sæmd ok hræra all(d)ri sinn fot ut af idranarhusi, ok sua lyktaz hans maal. Annar lutr fellr saa til, er mikla hræring leidir af. Madr er nefndr Philippus, korsbrodir[2] i þeim stad er þeir kalla Bræis. Hann er vordinn kunnigr i sua uanstilltri tungu, at Heinrekr konungr þyckiz hardla miok smadr af, ok þui riss upp a hann korsbrodrinn daudligt hatr bædi af konunginum ok raadinu, þuiat (sua er) hliod ordanna, at rikisstiorn ok framferd i landinu hafi hann fordiarfat. Herr(a) erchibyskup sier, at þetta maal suellr sua med konunginum, at þat fer æigi atgerdalaust uerit, ok þui hugsar hann, at likamlig hirting upp a korsbrodurinn muni faa myckt þessa hræring. Suo ferr til, at Philippus er dreginn undir opinbera hudst(r)oku, þi ollu framar at konungr skylldi þui h(e)lldr sefaz ok lata ser nægiaz sua mikla plagu. Enn þetta uinnr honum þorf a onga lund, helldr grimmiz hann nu at marki upp a allan lærdominn, þuiat þau undanskot ok skutlan, er hann kallar giorr moti krununni, liggia honum æigi uæl, ok þui hugsar hann, at þat maal skal opinberliga til uegar ganga. Hedan leidir, at hann bydr lærdum monnum, at a nefndan dag komi þeir til Lunduna at suara ser med rettri skynsemd til sagdra greina.

[1] framlytir *Cd.* [2] krosbrodir *Cd.*

*Deila konungs ok byskups.*

27. Þetta þing i Lundunum sækir herra Thomas erchibyskup med þeim fararbloma, at hann hefir med ser signad raduneyti, sem fyrr var greint. Þar koma byskupar ok abotar, korsbrædr ok klærkar, þar er ok Heinrekr konungr med ollum baronum ok morgu stormenni. Sem þing er sett, ær æigi langt adr enn sialfr herra konungrinn hefr sina rædu a skada klerkdomsins i þessum skilning: „Vær hofum þagat um stund, sagdi hann, ok hlytt med hoguerd, huersu þer byskuparnir uilit skipa uid konungligan rett ok riki uort her i Einglandi. Ok sem uer hofum sied ydra framferd, hugleiddum (uer) med oss med fridsamri eptirleitan, huert lyti þer myndit oss finna, at uer skulim sidr makligr enn adrir konungar fyrir oss at bera uhalla krunu med þeim rettarbotum ok konungligum sæmdum, sem haft hefir ok halldit huerr eptir annan, ok einga lærda menn fyrir ydr lysti at draga undan konungligum soma, ok þott þær greinir fiolgiz dag fra degi[1], sem þær dirfiz meirr ok meirr. Vilium ver uikia nefniliga uorri rædu til þeira olifismanna, er þer kallit klerka, enn uer kollum þui uerri enn ulærda menn, sem þeir drogu sik ofdiarfir fram undir sæmd ok uigslur heilagrar kirkiu, snuandi hennar tign ok frelsi upp i hæd ok herfiligan þrældom, þuiat þeir megu rettligar heita fiandans uerkrekar enn uigdir klærkar, er til eingrar skemdar spara sik miklu sidr enn margir ulærdir, er med sæmd ok hlydni laganna leida fram alla sina daga. Nu kalli þer byskuparnir, at þat standi skrifat i yduarri reglu at uernda þuilikan osoma ok draga undan rettri hirting, sem þer hugsit, at login keisarans ædr kirkiunnar kunni (æigi) nockur madr at skilia utan þer einir, enn uer uitum þat sannara, at her med oss æro þeir uisdomsmenn til beggia laganna, at ydarn uanskilning mega uel uppræta ok med ollu bakfella. Þetta uotta þeir sua reitta glosu til ganga, at glæpamenn, þott uigdir sie, gefiz upp rettri hirting undir konungs ualld. Ok þui krefium ver ydr byskupana fyrir þa sæmd ok hlydni, ær þer ærut skylldugir krununni, at alla þa klerka, sem þer ræangliga ruglid[2] undan uoru ualldi i ymissa stadi innanlandz ok utan, skipi þer aptr undir uorn handlegg til rettrar hirtingar, ok her um uilium ver af ydr taka lios andsuor." Signadr Thomas erchibyskup, sem hann hefir heyrt þetta konungs eyrendi, er honum syniz helldr strangt moti kirkiunni, geingr hann æ rad med sinum spekingum, huat upp skal taka i þuilikum uanda. Enn sua sem þeir hofdu iafnan eitt hiarta ok eina ond til samþyctar i godum

[1] dagi *Cd.* [2] riglud *Cd.*

lutum, er ein ok sama þeira tillaga eptir dæmum postolanna, at framar see hlydanda gudi enn monnum. Sem heyrt er ok hiartaliga samþyckt af erchibyskupinum þat er þeir segia, lætr hann kalla byskupana, ok þeim komnum talar hann sua: „Nu krefr naudzyn at leida til goda athygli, huersu uer skulum suara konungs eyrendi, enn an duol maa ek segia minn hug, at þa tign ok frelsi, sem gud gaf sinni kristni med fedranna setning ok somdu logmali, skal alldri eydaz med minu iatyrdi, ok sua uilldim vær, at þer gerdit.“ Þeir suara: „Ok med þui at þer erut skipadir uart hofud ok herra, hæfir at þer halldit upp suorum fyrir oss, enn vart er at skiliaz æigi uid ydr.“ Erchibyskup talar þa enn: „Buit hug ydarn til þolinmædi ok byskupligrar stadfesti, þuiat reidi konungsins er oss ollum reidubuin, ef uer risum moti hans uilia, ok giarna uilium uer bera fyrir guds nafni, huat er a gnyr, helldr enn kaupa oss stundligan frid med eilifum haska.“ Þeir iatta allir at standa uel, ok koma sua fyrir konung. Blezadr erchibyskup Thomas byriar þa sitt eyrindi a þenna hatt: „Þat ueri sanr uili uor byskupanna, at sæma ok uirda med uegsemd allan ydarn uilia, minn godi herra, ef hann snaraz æigi moti rettu. Enn ef (hann) setr sik þueran moti guds uilia ok logmali ok tign heilagrar kirkiu, megum ver æigi ne þorum at samþyckia honum. Bidium uer ydart ualld, at þer leidit inn til ydar lofsamlig dæmi godra hofdingia, þuiat æigi mun finnaz, þar sem kristnin er rett halldin ok logliga uardueitt, at suo skuli dæmaz uigdr sem uuigdr, þuiat fornar decretur heilagra fedra bioda sua: Ef klerkar uerda stadnir at þuilikum osoma, sem er manndrap, stuldr ædr raan, skulu þeir fyrst suspenderaz af ollu embetti ok gersamliga or skipaz kirkiunnar godzi, sidan bansetiaz ok af ollum uigslum degraderazt, ok lægdir ok lyttir æru þeir komnir undir leikmanna log, ænn æigi fyrr. Nu bidium ver i annan tima ydarn herradom med allri mykt, at þer leidit æigi i land ydart nyungar i moti heilagri kirkiu, þuiat ef þer uilit þau log setia, er i moti gang(i) guds retti, ær æigi uort byskupanna þui at samþyccia. Vil ek þat ok birta ydr med hofsemd, at þær setningar, sem heilagir fedr logfestu til upphelldiz heilagri kirkiu, skulu hér i landi æigi nidr falla, medan ek ma þeim upp hallda.“ Suo lycktar erchibyskup sitt eyrindi. Enn Heinrekr konungr suarar til med mikilli reidi: „Vitid fyrir uist, sagdi hann, at fyrir ydra illgirnd ok ofsa munum ver æigi af leggia konungstignina, þuiat med rettri erfd geingum ver til hasætis ok sæmda eptir fodr uorn Heinrek konung gamla, ok þui krefium ver enn af ydr, at þer ueitid konungdominum frelsi ok frid, rettarbætr[1] ok landzuana

[1] rettarbætar *Cd.*

þuilika ok sua marga, sem syndir uerda, at um hans daga helldaz, ok her um krefium ver ydr samþyckis med handfestu." Her til suarar erchibyskup: „Alla lofsamliga uana her i landinu uilium uer hallda, heilli uigslu uorri ok uskerdum guds retti." Her standa nu allir byskupar um hrid, sem fylgiandi ordum erchibyskups at hallda konungliga uana heilli uigslu[1] sinni. Enn sidan konungrinn sediz uid þetta ord med sua forligri brædi, sem allt hans ualld ueri fyrirlagt, fær þat nu þegar eigi borit einn af byskupunum, er heitir Hilarius fyrr nefndr Cisternensis, hann uendir um ordum sinum ok gerir þui annan lit. For þat sem makligt uar, at þar er hann uisar fra ser dygdinni, færr hann eyngua þock af konunginum, þui helldr þar i mot, þuiat litlu sidarr stockr hann upp or hasætinu med þeim ordum: „Þott þer snariz nu allir undir einn skiolld moti oss, munu þer æigi sigri hrosa, helldr skal sua ganga, at ef nockur ydar dirfiz fra þessum dægi at unada vart riki, skal sa med rettu sialfan sik fyrir finna." Med þessum hardydgisordum lycktar konungr stefnuna. Enn herra erchibyskup lætr hrynia snarpt eyrendi a berar brynn Hilario byskupi, huerssu laust ok leigumannliga hann stod þegar i fystu raun. Enn huerssu mikil stygd er nu var med konunginum, birtiz i þui, ath þegar a næstu nott ridr hann brutt leyniliga af Lundunum, fyrr enn lysir af degi, sua at eingi byskup blezar honum ædr bidr hann uel fara.

*Af Thomasi ok byskupum.*

28. Þa er þing var i Lundunum, sem nu greindiz, hafdi herra Thomas setid tuo ær i erchibyskupsdomi. Er nu þar komit hans timum, at hedan af lytr hiolit fyrir heimligra manna augum, enn i sannleik var hans tign æ þui meiri, sem hann þoldi fleira fyrir guds nafn. Mikil ær sæmd at vera smurdr erchibyskup, þar med legatus herra pafans ok primas yfir ollu Einglandi, enn morgum hlutum ædra at uera skrifadr a lifsbok undir þann riddaradom, er hann audlad(i)z i holl himnakonungs. Vel fylliz a þeim dogum i Einglandi med byskupum þat, er sagdi Salomon hinn spaki, at reidi konungsins er sem grimd leonis. Þetta uirdiz þeim satt, þuiat þau afarord, er konungr setti þeim at skilnadi i Lundunum, hafa skekit or þeim allan stad, sua at naliga þraungiz huer fyrir annan at kriupa undir konungs ualld. Sia þeir undirbrot heilagrar kristni, ok þa uanmegnaz þeir at standa henni. Skilnat gera þeir ok uit sinn andaligan fodr Thomam erchibyskup, ok yfir fram stunda þeir a alla

[1] uigsli *Cd.*

Digitized by Google

lund at leida hann brott af rettu. Margfolld er su freistni med ymissum fortolum, er nu profar Thomam erchibyskup, at hann skuli uikia til meiri myktar uid konunginn. Ok sialfr konungrinn tekr hann ordum meirr enn um sinn bædi blidt ok stridt, at hann skuli minnaz a fyrri daga ok felagskap þeira, ok huersu ferligt er, ef þeir fara til at deila. Enn herra erchibyskup stendr enn uhneigdr, þuiat samuizka hans hæfir æskiligt rum a godum grunduelli. Nu sem konungrinn hefir reynt, at herra Thomas uill æigi uikia eptir hans ordum, kemr einn byskup fyrir Heinrek konung af þeim stad er heitir Luxonion. Hann hefir fallit i oblidu noekura ok uill nu leita fridar, hann fer ser þuilikt efni guds otta utibyrgdum: „Minn herra, sagdi hann, ek hefir hugleitt, huerssu fasta fylking lærdomrinn setr i moti ydr, ok ær Thomas merkismadr fyrir ollum þeim, þui er audsynn uegr yduarri uitzku, at locka fra honum fylgdina sem aluarligaz ok leida sua til ydar, at þeir ueiti ydr fylgi aptr moti erchibyskupinum. Þessi er tillaga byskups Lyxoniensis, ok veri uel, ef hun stædi æigi upp yfir halsinn a honum, ok hedan af gerdiz sua, at byskup fær uingan konungs, þuiat af hans radi heimtaz sua lærdir menn dagliga brott fra erchibyskupi sem ax af hueitikorni. A nockurum degi koma fyrir erchibyskupinn þessir þrir hofdingiar, byskup Herefordensis, iarllinn af Uintonia ok abotinn af þeim stad er heitir Almes. Þessir hafa tracteran i fyrstu af konungsins uonum, ær nu var kæraz til umrædu. Abotinn segir sik sendan til erchibyskups af Alexándro pafa[1] med þui eyrinndi, at hann myki til fridar uid herra konunginn. Segir þat af herra pafans ordum, at herra konungrinn hafi suarit fyrir cardinalibus hans sendibodum, at leida eingua nyung skaduænliga upp a kirkiuna. Enn þott nockut grand flioti med, uill herra pafinn sakir elsku fadernis ser lata kenna. Ok þessi er sa flutningr, er Thomas erchibyskup uikr aptr ok sækir konungs fund, talar med honum leyniliga, at hann skyli blidka sinn hug, segiz nu uilia af leggia þeim ordum, er hann hefir stygt adr. Herra konungrinn synir a ser nockut blidubragd ædr lietta her i mot, enn segir þo med stauddum ordum, at sua sem a skilnadr þeira uard a almenniligu þingi, sua skal ok þeira sættargerd med sama hætti, ok þui bydr hann lærdum ok leikualldi at koma samt a nefndan dag i þeim stad er Clarenton heitir. Þyngiz nu enn af þessu efni hugr erchibyskups, þuiat hann skilr þui giorr, huerssu astundan konungsins er diup[2] ok meinlig kristninni, at hann lætr ser eingan ueg lika, utan þingbera hennar nidrbrot ok uansa, þui skipar hann aptr sina

[1] fafa *Cd.* [2] diyp *Cd.*

hugsan i fyrra stett at standa med einurd fyrir kirkiunni at uernda hennar laugligan reitt.

*Er Thomas samþykkir konungs vana.*

29. Nv sem herra Thomas erchibyskup med lydbyskupum ok lærdum monnum kemr aa konungs fund i Clarenthon, kallaz þeir allir saamt upp aa konungsgard til stefnu. Ok þegar i upphafui krefr konungrinn med mikilli aakæfd, at Thomas erchibyskup med odrum lydbyskupum fylli sitt fyrirheit at styrkia þa somu konungs uana, sem þeim risu greinir af. Thomas erchibyskup sierr, huersu mikit megn konungrinn ferir i at briota laugin ok reitt kirkiunni, þui skipar hann sik nu enn at nyiu[1] onduerdaan med allri hans yfirgirnd. Enn er þat heyriz, skortir huarki ædi ne afarord af sialfum konunginum. Enn guds madr hefir sik hogueran moti honum ok kyrran moti kugan. Sem sua hefir stadit um hrid, ganga fram fyrir ærchibyskupinn tueir lydbyskupar af Sarisber ok Norduik bidiandi mikiliga, at hann firri þaa alla saamt sua bradu aafelli, sem nu liggr yfir, ok miskunni klerkdominum, at hann sie keyrdr i utlegd, segia hann mikla uansæmd erchibyskupsins tign, ef hann kugiz allt til myrkuastofu, þuiat hinir[2] lægri byskupar falla sua fremi i fordæming. Herra erchibyskup stendr enn ok uiknar æigi. Þui næst koma fram fyrir hann iaarlar tuæir hardla rikir. Þeir flytia sua snartt eyrindi, sem her stendr. „Vitid aan efa, sogdu þeir, utan þer heptid ydart hardydgi ok af leggit þralyndi, munu þer med opinberum konungsins bodskap sua framarliga kugadr, sem sa madr ær sinum herra leitar æfinligra hneygsla.“ Sua segia þeir, enn heyraz æigi. Þessu næst setr aa eyrendi saa madr, er Rikardr heitir, hann er mikill hofdinngi kominn af Jorsolum meistari yfir templumbrædrum. Hann tiaar aa margan ueg med skreyttum malshætti, at herra erchibyskup uægi til fyrir þraunguandi naudzyn, at lærdomrinn fordiz enn meinligra aafelli. Her med ganga fram byskuparnir enn at nyiu sem gratandi, segia þann otta yfirkominn, sem konungsins suerd sie skekit ifir hans haals, harma þat ok sialfa sik, sem þeir se allir samt i dauda dregnir. Þessar harmtolur allar saamt afla erchibyskupi uidrkomningar, ok i þui sampiningaruaatni brestr murrinn fyrir hans briosti, sua aat hann afleidiz nu at sinni sannleiksinns frægd ok sinnar modr sæmd, ok þui sua, at hann fallinn kenni sinn mannligan ueikleik ok upprisin dyrki hann med ser gudliga milldi sannliga uerandi. Ok til þess at eingi treysti ser helldr gudi einum, er til

[1] nyium Cd. [2] hinar Cd.

Digitized by Google

minniz leidanda, huersu tueir guds astuinir Petr postoli ok Dauid konungr foru hnaugganda fæti. Æi nefnaz þeir fyrir þa grein, at nockur elski fallit, helldr at hann upp risi eptir þeira dæmi, ef hann hefir fallit. Petr neitadi þrim sin(n)um varn herra, enn Dauid konungr horadi eiginkonu riddara sins ok red honum bana. Huartueggi þessarra enndrbætti sinn stett fyrir tær ok trega sua heilagliga, ad gud lagdi þeim badum sidan meiri sæmd enn adr, Petro i kristninnar hofdingiadæmi, enn Dauid konungi med herradom, ok þat samþyckir uel dyrdligum fedr Gregorio pafa, þa er hann setr sua fall.t dæmi. Meiri fregd ok mæla þiggr sa konungsins riddari, er syniz flottagiarn i onduerdum ofridi, enn snaraz sidan sua framliga moti sinum ouinum, at med sterkan handleg(g) drepr hann ok dreifir þeim ollum. Þessi tiltekin dæmi þiona einkar uel uirduligum herra Thomasi erchibyskupi, hann ueyktiz til þess, at hann skylldi efla, ok fell til þess eina, at hann skylldi sterkari upp risa. Enn huersu hann fellr, stendr þessu næst. Med þui at hann er æztr allra kennimanna i landinu, geingr hann fyrir odrum til festu, iattandi fyrst upp a sin sannindi sem eid uinnandi at hallda alla forna konungsins uana, ok þegir[1] nu ifir þui ordi heilli uigslu sinni. Þetta sama sueria nu byskuparnir med forteknum eid, at hallda med samþyckt þa konungliga uana. Er nu æigi langt, adr nockorir af hirdsueitinni ganga fram, er glogt segiaz uita, huerir konungligir uanar hafa uerit i Einglandi, ok þat er þeir fram bera, er þegar med konungs bodi skrifat sem[2] laugprouat ok lytalaust, helldr, sem sidar reyndiz, at margir articuli þar af voru æigi konungs uanar, helldr uandzligir nyiungar upp a skada kirkiunnar. Enn þeir er samsetia sua mikinn saluhaska, segia at þessir æru nockurir konungs uanar uppnefndir, ok þo enn fæir hia þeim, sem enn liggia utaldir. Herra Thomas hylr sinn harm i sutfullu hiarta, þuiat hann grunar, sem gafz, at þessir menn leggiaz of miok i liltion, er meirr ok meirr girnaz framm a fottrod kirkiunnar. Konung(r)inn er ungr ok erchibyskup æigi gamall, ok þui hefir huargi her uissu yfir. Herra erchibyskup segir liosum ordum, at fyrir þaa grein hefir hann eynga logliga æstodu til motkasta, huat er þeir skrifa. Þetta letr sem laugleitt er sett upp a þriar cedulas, tekr konungrinn eina, enn erchibyskup adr(a), þridiu Eboracensis byskup, sem konungrinn skipar. Her yfir framm krefr konungrinn, at herra Thomas ok adrir byskupar gefi[3] sin insigli þeim uaunum til æfinnligrar styrktar. Enn þar undan hallaz erchibyskup uægiliga fyrst at sinni, segir at eptir ordum hins uisa Salomonis

[1] þegar *Cd.* [2] zem *Cd.* [3] gefr *Cd.*



Digitized by Google

stendr uel, at sua mal hafi skynsamliga bidstund. Enn sa er girniz at heyra þessa uana, hyggi þann tima uel at sogunni, err Thomas erchibyskup less þa upp ok skyrir fyrir sialfum pafanum Alexandro ok kardinalibus. Sua slitr þenna fund, at herra erchibyskup gefr æigi sitt insigli, huersu sem konunginum likar.

### *Hversu klerkr aavitadi Thomam.*

30. Sem fyrstr, er lidr timi, ridr herra erchibyskup brutt af Clarentuun a þann ueg, er uikr til Uintoniam. Ok bratt i ueginum risa[1] upp ymissar ordrædr med fylgdinni, huersu þing þetta hefir ut geingit. Þeir er uernda malit segia, at i þuilikan punkt var suo geranda. Adrir kasta þuert i mot, segia at guds rettr er sua rauksemdarfullr, at ecki hatr ædr hermd a honum at ræda. Sa klerkr, er krossinn berr fyrir erchibyskupi, hlutaz nu i malit, enn adrir þagna, hann segir sua lagliga fyrir munni ser: „Konungligt ualld ok uili sturlar nu alla luti. A Krist sialfan ædiz nu illzkan. Þinghus andskotans saurgar ok suivirdir kirkiur Kristz. Satu hofdingiar ok a eitt sattir urdu moti Kristi drottins. Eingin er sa fundinn, er retlætid elskar, þeir einir uita nockut i dag ok uegsamaz, sem hofdingium þiona. Skok þessi stormrinn stolpa kristninnar, ok þa er hirdirinn huarf, dreifduz saudirnir. Huar mun nu uera stadr meinleysis ædr motstodu, ædr huer(r) mun sigraz i orrostunni at hertuganum felldum." Eptir sua talad þagnar hann um litla stund, ok enn segir hann sua: „Huat hellt sa med ser af kraptinum, er tapadi sæmdina med fregdinni." Sem her er komit, suarar Thomas erchibyskup: „Huerium, son minn, hæyra þessi ord?" „Rett ydr sialfum, minn herra, sagdi hann klerkrinn, ær iadud at hallda þa boluads konungsins uana, kirkiunni ok klerkunum til afellis ok unada, samþyckiandi fiandans felogum ok hans þrælum." Sem Thomas erchibyskup heyrir sua fallin ord, kemz hann uit af ollu hiarta, sua þegar uoru tarin uti, med þuilikum ordum: „Minn glæpr er sua mikill uordinn i þeiri herfiligri nidran ok uanuirdu, er ek hefir gert kirkiunni ok klerkdominum, at berliga dæmir hann mik uuerdugan at standa fyrir gudi minum i kennimanz þionustu, ok þui mun ek þegiandi sitia med sorg ok sut, þar til er hinn hæsti gud a himnum sendir mer hialp at hugga mitt hiarta. Ok ær æigi undarligt at sua gangi, þuiat sakir minna synda mun heilog Einglandz kristni þuilikar uanuirdur þola, þuiat æigi uar ek kiorinn til þessa ualldz ok uirdingar af kirkiunni ædr klerkum, æigi af klaustri ædr sidsemdarhusi, sem adrir minir foruerarar ok forfedr Kantuariensis erchibyskupar, helldr uar

[1] rissa *Cd.*

ek tekinn af konungs holl ok huskollum. Aumr var ek minnar dirfdar, at ek dramsamligr ok hegomligr skylldi þora at skipaz geymslu(madr) yfir uingardi guds, þar sem ek naam alldri at geyma sialfan mik, þui veri mer saa domr makliga dicktadr, at ur sua heilogu sæti veri ek langt med uanuirdu brott kastadr." Þuilik er idranar raudd hins blezada fodr Thome erchibyskups, er bædi maa heita loflig ok aaminnilig. Enn huerr klerkr saa var, er þuilika einardartolu setti sua dyrdarfullum manni, utan fyrr nefndr Herbert af Boseam, þuiat til þuiliks embættis tok hann fordum umbod af sialfum Thomasi electo. Hann bar ok til klerkdom at finna sua meistarlig ord. Lofsamligr er saa erchibyskup, er sua litillatliga tok med auitan sins undirmannz. Virdandi er ok sa þionustumadr, er sua godan lut kiori sinum formanni. Signadr Thomas ualdi ser þann ueg, er Salomon uottar godum manni tilheyræligan, at aasaka sialfan sik i þessu tilfelli, þott hann mætti afsaakaz a nockurn hatt fyrir þa grein, at hann uard leiddr ædr enn helldr dreginn fyrir annara kuein. Enn sua fallin afsakan uill hann uist æigi til sin taka, helldr leggr hann likam sinn undir þisan ok þyngslir, fostur ok meinlæti med sua miklum hætti, at iafnuel leggr hann um hrid sialft alltaris embættid. Med ollum skunda gerir hann sina sendiboda med brefum til pafagardz, i huerium hann greinir sua smasmugliga herra pafanum allan hatt a sinu falli, bidiandi þar med likn ok lausn at honum sendiz til styrks ok hugganar. Ferr þat sua beggia uegna, at herra Thomas sitr i samhalldinni idran allan tima, medan sendibodar sækia til Sennonis i Franz ok aptr þadan heim til Kantuariam med sua sækiligt eyrindi, sem herra Thomas matti framaz kiosa, þuiat med lausn ok fyrirlatning leggr herra pafinn honum faudrlig ord med aminning, at þui roskligar risi hann upp med uernd ok frialsi kirkiunnar, sem nu i nalægd hafdi lot a uordit þeiri stadfestu, sem hann uar gudi skylldugr. Ok þessa frameggian herra pafans (tekr) Thomas sua gladr sem af gudi senda, þui hefir hann sik nu frammi sem nyrr i annat sinn, fullr uanndlætis, hreinsandi folkit ok leysandi af saurr ok syndum, huart sem helldr kostar med blidu ædr stridu. Kennir hann ok uspart, huat hafnanda er edr huat fylgianda, biodandi af guds halfu, at menn halldi þar log, sem heilagir fædr skipudu kirkiunni til sæmdar. Fyrirbydr hann ok sterkliga, at þeir uuanar gangiz uit, er nu voru nyliga innleiddir af konungsmonnum, ok þar yfir hotar hann andligri stridu. Enn alla þa uana, sem hann ueit stadit hafa ok honum synaz þolligir, lætr hann um lida sakir fridar,

þuiat eingin madr i Einglandi girniz meirr sannan frid kirkiunnar enn hann sialfr, þott honum eigniz sidarr i sogunni allar unadir.

### *Agangr Heinreks.*

31. Nu er þar til at taka, sem Heinrekr konungr uerdr alluarliga uiss, at Thomas ærchibyskup uill æigi gefa sitt innsigli fyrir þa uana, er samsettir voru i Klarenthun. Grimmiz hann at nyiu moti ærchibyskupinum med sua miklu megni, at hatr ok afuirding er audsyn med honum. Ok er þat finna gamlir vuinir erckibyskups, draga þeir sik framm or skugganum ok afklæda med ollu þa baulfada aufund ok illgirni, er þeir hofdu leingi borit i sinu briosti. Ok er ferligt til frasagnar, at byskuparnir sialfir ganga i þenna flock at standa i aleitni ok umlestrum upp a skada sins andligs fodr. Sumir fyrir þa sok, at samuitzkan tiær þeim þær liotar sakir, þott enn sie leyndar, er þeir ottaz med sarum hug, ef opinberar koma undir erchibyskups dom. Adrir fyrir þa sok, at þeir hofdu ætlad ser þa tign, er hann hlaut. Sumir rægia hann fyrir eina saman illsku sinnar ulyzku. Ma her til nefna þriá byskupa, er fremstir ganga, Rodgeirr af Jork, Gillibert af Lundunum, ok Jocelin af Sarisber. Hardla fæir æru þeir af byskupum, er standa med huginum, þar sem erchibyskup uar, enn þo er þat leyniligt sakir konungsins ognar. Enn þeir sem med rogi fara, rangturna allar gerdir, ord ok uilia erchibyskups, þat er hann talar, þyda þeir til uinstri handar, ok þat er hann talar æigi, liuga þeir med liotum umlestri. Hofsemd hans ok hardlifi[1] uirda þeir til hræsni, enn uandlæti hans fyrir guds rett þyda þeir til grimdar. Fiarforad ok hagrædi kirkiunnar uirda þeir til agirni. Tempran, þa er hann uandiz at hafa i sinni uisiteran med minna fiolmenni enn Kantuariensis byskupar fyrir honum, uirda þeir i þann hegoma, at hann þyckiz æcki traust a heiminum hafa ædr i hans mannfiolda. Hofdingsskap hans heima uirda þeir til drambsemi. Þat er hann stendr a sinum skilning vid huern, sem hann a at skipta, þyda þeir til einþyckis ok ofdirfdar, ok þat er hann kann framar kirkiunnar log enn adrir Kanntuariensis erchibyskupar fyrir honum, þyda þeir til suo uanstilltrar diorfungar, at hann þickiz einn uita allt. Þessar greinir, sem nu hafa lesnar uerit til afuirdingar Thomasi erchibyskupi, heyrir Heinrekr konungr giarna, a þeim timum sem nu ero yfirkomnir, ok þui snyz hann berliga med odrum ofundarmonnum til þess uegar, at minka erchibyskup ok hans kirkiu med þeiri framferd af illgiarnra manna tillogu, at þat legatanalld, sem fyrr uar getid, skuli[2] hann þiggia brott af Kantuariens(i) kirkiu til

[1] hardleifi *Cd.* [2] skili *Cd.*

Digitized by Google

handa einhuerium sinna klerka. Þui gerir hann menn med brefum til herra Alexandrum pafa, i hueriu(m) hann skrifar af sogdu efni. Enn sakir þess at sua stendr i fornum skriptum, at Kantuariensis kirkia hefdi þetta sæmdarualld iduliga med tign halldit, let herra pafinn þetta æigi ueitaz i fyrstu. Enn sidarr sem hann hugleidir þetta mal med ser, skilr hann af sendibodanna ordum, at af þeira kunnum grimleik, er konunginum voru heimonligstir, mun Thomas erchibyskup fa mikil þyngsl, ef þetta ueitiz æigi eptir konungsins beidni. Nu sakir þess sendir herra pafinn Heinreki konungi bref, er honum birtir, ok mun Thomas(i) erchibyskupi mislika, at þat ualld sem hann beidiz, muni nockur hans manna fa med þui skilordi, at herra Thomasi leidi her af eingan þunga. Sem Heinrekr konungr hefir þetta feingit, hæliz hann, at nu hafi hann þegit af herra pafanum ualld yfir herra Thomasi erchibyskupi. Blidkaz hann ecki vid slikt, ne uanndredin minkaz, helldr hardnar hann þui framar, þuiat alla þa klerka, er at illgerdum uerda kunnir, lætr hann vægdarlaust gripa ok af sinum soknarmonnum dæmaz, suiuirda ok aflima sem ulærda menn. Enn huar er nu uandlæti guds yfir þuilikri uhæfu utan med einum Thomasi erchibyskupi. Byskuparnir sia illzkuna ok þora æigi um at uanda. Skilia þeir sinn saluhaska, ef þeir þegia, ok þo uirda þeir meira fielat ædr lifs tion, þui uerpa þeir herfiliga sinum heruopnum ser a bak, ok flyia[1] sem latir leigumenn fra þeiri hiord, er þeim var umbodit af gudi sialfum, ok nu var dregin i uarga munn. Fra þuilikri[2] sauk koma þar nidr hardindin aull ok hermd[3] konungsins, sem Thomas erchibyskup er. Þrir einir voru þeir byskupar i landinu, ær iafnan stodu med honum i godum uilia, Heinrekr Uintoniensis uigslufadir hans, ok tueirr uigslusynir erchibyskups Rogerus Uigorniensis ok Roberth Herefordensis, enn þo uar þeira goduili sem at baki erchibyskupi an allri hlifd, þuiat konungs ognir slogu brutt af þeim allan styrk. Ok þui er rætt flutt, at i þeim stormi stod upp einn saman Thomas erchibyskup med liku dæmi sem þat tre, ær i sinum uegsti er miok hatt uordit ok rotum hefir ramliga undir sik komit. Þott kuistir tressins bifiz ædr brotni af storum stormi ædr sterkum huirfiluindi, stendr þo sialfr uidrinn fastr ok uskelfdr i sinni stodu, ok þui sua, at berg er undir ok piprar huergi, huat sem sa gnyrr. Byskupliga fylldi heilagr Thomas klausu þessa, þuiat eingin vuina stormr ludi hann ædr lamdi, helldr reisir hann sik aurdigan med rettlæti laganna moti sua boluodum hernadi, sem nu geingr sa kristni guds i Einglandi, ok at hans roksemd sie

[1] flytiaa *Cd.* [2] þuilika *Cd.* [3] hardinr *Cd.*

Digitized by Google

þui liosari ollum þeim, er uel uilia, less hann optliga fyrir eyrum omilldra sua fallit decretum, er uottar frumtign ok frelsi klerkanna: „Ef sa glæpr er gerr, sagdi hann, er heilagri kirkiu til heyrir ifir at dæma ok retta refsing a leggia, fari byskupinn fram hennar laugligr domari eptir rettindum ok fornum setningum, profi malit ok dæmi sidan, þar med seti skript, eingum veralldligum domara til kolludum. Þui er liost uordit af kirkiunar logum, sagdi erchibyskup, at ueralldligt ualld stendr miok fiarri at leggia dom yfir klerka mal, fyrr enn kirkian hefir þeim fyrir sitt ofbelldi ok uaflatliga illzku af sinum miskunnarfadmi med ollu brott kast(at).“ Nu af þuilikri einurd rægiz erchibyskup dagliga fyrir konunginum, þuiat uel ma segia, at heilagr Thomas stendr nu i gudligu stridi med sua sterkum skilldi, at hann fyrirbydr undir bannz pinu, at lærdir menn se skemdir, ok þui þolir æigi konungrinn þuilika ok sua rauksamliga framferd, skrifar til herra erchibyskups, at hann stefnir honum a nefndum degi til þess stadar, er Nordantun heitir, at hann suari þar ollum þeim greinum, er a hann munu kæraz. Þagat er ok stefnt med sterkum bodskap byskupum ok barunum med odrum valldzmonnum landzins.

### *Af fvndi i Nordanntun ok aakærv.*

32. Fundr i Nordanntun byriaz a fimta dag uiku. Er þa kominn uirduligr herra Thomas erchibyskup med ollu þui stormenni. er þagat uar bodit. Lætr Heinrekr konungr þegar stefna þing, ok þui settu æru an duol sakir bornar a Thomas erchibyskup, ok er ein af þeim su i fyrstu framborin greiniliga af konunginum, at hann for æigi kalladr einn tima a konungs fund. Herra erchibyskup suarar her sua til, at hann logliga talmadr feck æigi farit sialfr, enn skipadi skilrikan sannsuaramann fyrir sik. Ok æigi þui sidr ferr þetta mal i dom bædi byskupa ok annarra ualldzmanna, at i þessarri uhlydni hefir erchibyskup ollu sinu lausagodzi aluarliga fyrirgert, nema konungsins milldi uili framarr miskunna. Sem herra Thomas heyrir þenna dom uppsagdan, suarar hann sua, einkanliga uikiandi at byskupunum[1]: „Huilikr er þessi domr, er þer hafit mer sett? þott ek þegi, munu vorir eptirkomendr i frasogn fera. Nyrr er þessi hattr domanna, kann ok uera, at hann see eptir nyium logum diktadr, er næst voru sett i Klarenthun, ok þat truum uer ifalaust, at huarki hafi verolldin heyrt ne uitad, at her til hafi nockurr Cantuariensis erchibyskup verit sua dæmdr æigi fyrir meiri sok. Sannliga er þessi nyrr hattr domanna, at nockurr primas ædr erchibyskup se sua undir

[1] byskupinum *Cd.*

dom dreginn, edr nockurr fadir hafi sua uanuirdr uerit af sinum undirbyskupum ok andligum sonum." Med þessum hætti lyktaz fysti dagr þing(s)ins i Nordantun. A næsta morgin er kemr, sem blasit er ok þing sett, byriar sialfr herra konungrinn ok krefr herra Thomas erchibyskup sua mikit goz, sem hann segiz hafa lanat honum, er hann uar canceler. Reiknar konungr þat fim hundrat punda silfrs. Enn þott signadr Thomas uæniz þar um uottum, at þessa peninga hafi konungrinn æigi led honum helldr gefit, þa heyriz þat a eyngan ueg, þuiat uitnin[1] æru þar eingin, helldr er settr i stad domr annar, at þessa alla peninga skal Thomas erchibyskup konunginum med skilriki aptr luka, med þui at honum fells eiginordit, enn konungrinn uill hafa. Sem sua er dæmt eptir einsogn Heinreks konungs, krefr hann þegar sialfa med mikilli ækefd utgreidzlu a ollu gozinu nu i stad, ella borgan sua auruga, at gozit se handuist. Thomas erchibyskup tekr þui tomliga at faa honum ne eina borgan, setr sik hofsæman ok lætr ser fatt um finnaz. Enn er konungrinn uirdir duol ok undandratt i fara, segiz erchibyskupi diarfliga af konungsmonnum, at hann muni fanginn vera. Sem i slikan uoda er komit erchibyskupsins mal, sampiniz honum nockurir godir menn af leikualldinu, þuiat þeir sia konunginn sua reidan sem buinn til ahlaupa, enn erchibyskup af ollum fyrirlitinn, ok einna mest af byskupunum. Ganga þeir fram fyrir konunginn ok borga þetta hundrat punda upp a sitt eigit goz. Eptir sua gert stendr konungrinn, upp ok geingr brutt. Lykr sua stæfnu þann dag. A laugardaginn sem herra erchibyskup hefir lesit, sitr hann i herbergi, ok byskupar margir[2] hia honum, ok æro .vii. nefndir þar af, Heinrekr Uintoniensis, Gillibert Lundoniensis, Hilarius af Cistr, Robert af Linkolni, Bartholomeus Exoniensis, byskup af Uigornen, ok byskup Rofensis. Þessir sæma vit herra byskup, ok þo med olikri samuitzku, sem reyndiz. Ok er þeir sitia sua, skipar Heinrekr konungr breida malstefnu med sinu stormenni, radgiofum ok hirdfolki. Stefna þessi er æigi kristiligri enn sua, at sialfr konungrinn kærir a sialfan Thomam erchibyskup frauerandа med þui efni, at hann bryttr upp allan þann tima, er Thomas uar canceler a konungs gardi, ok lætr sua risa, at hann hafi einga skyn ædr reikning fyrir gert af aullum þeim innrentum ok auoxtum, er hann tok a fim ærum af byskupsstolum ok klaustrum formannzlausum. Her af krefr konungr sitt fullretti, þuiat sua mikit goz sem þetta reiknaz skal falla med þui nafni, at Thomas hafi suckat ollu undan krununni. Her til kuedr konungrinn þa menn,

[1] uitnit *Cd.* [2] margar *Cd.*

er kallaz klokir a þess hattar reikning, at þeir feri saman ok summeri, huersu mikit fe þetta er uordit i sua laungum tima. Ok þeir salugir menn horfa litt a sina uhæfu, þuiat þeir lata, sem þenna reikning geri þeir med nockurri uissu ædr skynsemdar asionu. Leggia sidan a orskurd, at þetta godz hefir sua mikit uordit brænt silfr at markatali[1] sem þrirtigir þusundrat. Enn er þessi reikningr kynniz monnum, tala tueir ok tueir med ser mikit af forzi Heinreks konungs a gardinum, at æigi horfi lettliga erchibyskupinum. Sumar bækr segia suo mikit af Heinreki konungi i þessu mali, at medan þessi stefna stod, hafi hann latid streingia med laas herbergit ifir byskupi, at eingin talman ædr tillaga rynni moti hans rongum uilia. Enn þann tima sem stefnan er uti ok husit upp lokit, flytz[2] herra byskupi, huat nu er fram farit i moti honum. Enn hann þagnar uid i fyrstu ok þackar gudi alla sina mędu, uikr sidan til Heinreks byskups, huat honum syniz her til suara. Byskupinn talar sua: „Ek hugdi, sagdi hann, at fleirum, er her sitia, enn mer einum, veri kunnikt, huersu til geck i Lundunum, þa er þer uorut komnir til erchibyskups, leystr ok lidugr gerr af ollum þeim lutum, er konunginum ok hans gardi til heyrdu, huart sem helldr snart med ydr uerk ædr uilia, ok þui mun æigi ollum liost uerda, huat femal þessi upp renna.“ Fæzst þessum uitnisburd ecki motkast, þuiat þessi sannindi voru alkunnig. Þessu næst talar byskup Gillibert: „Fadir, sagdi hann, ef þer uilldit a minnaz þa dygd, er minn herra konungrinn tiadi ydr med ualld ok uirding, æru þer skylldugir æigi at eins ærchibyskupsdom fyrir honum upp at gefa, helldr annat tiu lutum meira, ef hann uill krafit hafa. Væri ydr ok uirdanda, i huern oroa þer hafit leidt orss byskupa, ædr enn helldr allra Einglandz kristni. Nu ef þer uilldit mykia minn herra konunginn med þeiri uægd, myndi tuænt gott saman fara, hann myndi hœgiaz allr til fridar, enn þer aptr þiggia fulla sæmd ok uskerda ydvarrar tignar.“ Sem hann þagnar, suarar erchibyskup: „Liost er þat, brodir, huat þer leggit til.“ Lætr hann her standa sakir hoguerdar. Enn Heinrekr byskup suarar sua til: „Þetta rad, er Gillibert gaf til, er heilagri kirkiu med ollu skaduænligt, ædr huad skal þa kirkiunnar rettr ædr rauksemd standa, ef uorr erchibyskup ok allz Einglandz primas gefr oss slikt eptirdæmi, at fyrir hofdingianna ognarhot skuli hann sina erchibyskupliga sæmd ok heilagrar kirkiu rætt upp gefa, ok þær sælir uid skiliaz, sem hann tok af sialfum gudi. Munu þa uel fara, ef ver skulum byskupa(r)nir þegar kriupa, er ueralldligt valld ueitir oss nockura stygd.

[1] markitali *Cd.* [2] flutz *Cd.*

Huár munu þa kirkiunnar lag rædr setning fedranna? slikr er þar uigdr sem ouigdr, lærdr sem ulærdr." Enn Hilarius byskup byriar sitt maal a þenna hatt: „Sannliga syniz mer, at þessir lutir veri sua halldandi, sem þer herra Heinrekr hafit sagt, ef illz(k)ufallir timar veri æigi sua harder upp a guds kristni med þuilikri sturlan. Enn huersu sem vanndlæti laganna hliodar, syniz mer efalaust, at i þenna punkt sie hardýdgi heftanda, sem fremz bera formenn traust a, ok ef sua geriz med uitzku ueg um nockura tid, maa kirkian uel sidarr þui framarr fagna i sinni farsælld, þuiat æigi hęfir uitru at bera leingi randa kinn fyrir bradan punkt, er fliott maa um lida til meinleysis, ef hægligan ueg er um geingit, medan raunar timi stendr." Sua endar hann sina tolu. Enn Robert af Linkolni tekr sua til mæls, einfalldr madr ok mætrar skynsemi: „Þat er ollum liost, sagdi hann, at dagar þessir æru bædi harder ok hormuligir, ok þo geingr þat hæst i þeira uesold, er berliga syniz eptir leitad blodi ok lifi þessa manns erchibyskupsins, ok þui mun tuennr uegr honum heyra, þat er at gefa upp ærchibyskupsstolinn ædr lata lifit. Ok kann ek æigi siæ, huersu hann skal erchistolsins niota, sidan þat skal hans bani ædr daudasauk, ef hann uill æigi upp gefa." Er hans eyrendi uti. Enn Bartholomeus tekr sua til ordz: „Þat veri hugleidanda sem undir hulning ok skugga þolinmædis, huersu timarnir æru krankir, enn þott rettuisi laganna syniz moti risa, uirdiz mer i þenna punkt hardla miok þyrmanda, at ver megum sua auflugan storm ok sturlan uskaddir um lida. Ok einkanliga fyrir þa sok er stridum uirdanda ok uęgianda, at þessi hræring ok oroi geingr æigi upp ifir almenning heilagrar kristni, helldr i eins manz ofsokn til fiaar ok frelsis. Ok þui sætir þat raad, þoli (helldr) einn madr nockur uandkuædi, enn oll kristni guds leggiz undir ogrædiliga(n) hærm her i Einglandi." Sua segir Bartholomeus Exoniensis, ok mun þu sanna uilia, at hann er sporgongumadr Caife byskups i Jorsolum, þuiat þeira tillaga liktiz, þa er Caiphas byskup sagdi gydingum ecki annat fridkaup lydnum fliotara, enn uorr herra dæmdiz i dauda. Her næst er spurdr byskup Uigornensis, huat hann leggr til. Hann suarar sua: „Huat kann ek her til leggia, sagdi hann, þuiat ek særi minaa saal i fordæmda pinu, ef ek segi þat ualld fyrir konungligar ognir upp gefanda, er uer tokum i andligri stiorn gudi ueitanda. Enn ef ek segi konungsins uilia þuert i moti risanda, ottaz ek, at konungsmenn heyri ok mik fyrir siolfum honum aflaz beri, er þa synt, at ek mun falla i konungs reidi ok reiknaz med þeim, er i somu tid fyrirlata bædi lios ok lif. Ok þui gefr ek eingan orskurd yfir þessu mali, at ek

uil fordaz lygd ok mins herra stygd." Sua lætr hann standa sina tolu, ok eptir þat þagna allir[1] i herberginu, adr herra erchibyskup kuedr til einn mann, at hann kalli honum .ij. iarlla af konungsins fylgd, er sua heita, ok þeir kalladir koma fliott ok fyrir erchibyskupinum frammi stan(da). Hann talar sua til þeira: „Þat stormæli sem i dag hefir fundiz upp a uorn skada, vilium ver traktera med oss til þeira bezta ansuara, er uer kunnum þar til gefa. Mun þat ok godum monnum kunnickt, huersu þat mal sa med reittu at fara. Nu flytid þat fyrir minum herra konunginum af uorri halfu, at þetta mal bidi morgins. Ok þat sama skulu flytia med yckr byskup Gillibert ok byskup Rofensis." Sua geriz, at þessir fiorir ganga a konungs fund, ok þott adrir flyti i nockura mynd, tekr Gillibert til uana sins ok lundar, at hann fleygir af þueru mælinu ollu, segir konunginum þat undir bidstund erchibyskups at hugsa med stoddu rædi, huerssu honum hæfir at uægia framar enn fyrr, konunginum ok rikinu til fullra næda. Ok med þui at konungrinn truir ordum Gillibertz, sendir hann iarllana til erchibyskups med samþycki þessar beislu. Ok sem þeir hafa flutt erchibyskupi, at bidstund er þegin upp a þa fridargrein ok mycktar, sem flutti Gillibert, suarar erchibyskup: „Þessi er su ordagerd ok umuending, sem ver budum eingum manni at bera, ok þui skulum uer hana med ollu eyda enn i eingu hallda." Skammaz nu Gillibert, þuiat krokar hans ok slægdir hafa nu enn um sinn rodit hans uonda kinn, fer þo eptir hit hærra, þa er pafinn slærr hann. Med þessum ordum lyktaz su dagþingan.

### *Af þvi Thomas sykizt.*

33. Sv grimd ok ægangr med ymissri umleitan, er Heinrekr konungr hrærir moti Thomasi erchibyskupi, hristir nu þægar sua hart margs manz hiarta, at bædi dygd ok fylgdin med tekr a flotta. Hedan er sua skrifat, at a sama laugardagi firraz hann ok fyrirlata margir þeir, er med honum þangat ridu, ok hans rikuligt bord leingi þaagu[2]. Nu eyda þeir hans samsæti fyrir sitt uþoran ok stadleysi. Enn guds madr erchibyskupinn bydr inn þegar odrum i stadinn, þuiat ero astuinir hans utlendir ok fatækir. Med þeim skipar hann sitt herbergi ok sitr suo gladr yfir guds giofum þann dag, sem honum snviz[3] allt i hag. Suo geingr drottinsdagrinn eptir, þuiat konungrinn lætr hann þa kallzlausan sakir hatidar. Enn eptir gledi þessa dags kemr mikil hrygd, þuiat herra erchibyskup ferr sua stridan krankdom um nottina eptir, at hann ma a eingan hatt ur

[1] alla *Cd.* [2] þaugu *Cd.* [3] snyiz *Cd.*

Digitized by Google

reckiu risa. Lidr nu sua fram sa manadaginn, þar til stefnutimi er kominn, flytz þa konunginum sem odrum monnum krankdomr erchibyskups, ok þegar alsær ser þar inn umgrauptr ok sæleitni, huart hann muni siukr nockut, þott hann læti sua, ok til profs her um gerir konungrinn sina menn at lita sottarfsar hans. Ok ef þeim profaz hann med nockurum hætti færr, skulu þeir bioda honum sa konungs fund. Enn þeir er sendir uoro, gera þui verr, at sæn allri umhugsan kalla þeir erchibyskupinn sa stefnu. Hann suar(ar) sua: „Sem þer siæit, fer ek æigi i dag komit, enn ef gud lofar, skal ek þar sa morgin koma, ok þott uanmattr þraungui mik, skal mik helldr i borum bera, enn ek riufi stefnuna." A þenna sama dag brestr upp hardr ordromr i stadnum, at herra Thomasi muni omiukliga fagnat sa konungsgardi, ef hann kemr þar, huart sem hann mætir fyrr myrkuastofu ædr liflæti. Ok þann hurr hinn harda heyrir erchibyskup ok ottaz nockut, þuiat hann dæmir sik enn æigi makligan at pinaz fyrir guds nafni. Her fyrir gefr honum þa tillogu einn godr madr ok uitr, at sua sem gud eflir heilsu hans, muni hann segia messu sa þridia daginn til lofs ok dyrdar sælum Stephano prothomartyri, at sæ guds madr myki med sinni bæn þann uppgang ok oroa uondra manna, er nu uanstillir ok syniz aluarliga bodinn til motgangs ok meingerda. Tekr herra erchibyskup þetta ræd med mikilli samþyckt. Lidr nu sua manadagr(i)nn, at hann liggr, ok lettir þo mikit, þuiat þat kann optliga uerda, at bradr krankdomr linaz bratt. Kemr sua þridia dags morgin, at uorr drottinn hefir aptr skipat fulla heilsu sinum uin, ok litlu sidar enn hann er klæddr, koma byskuparnir nockurir fyrir af konungsgardi, blidir i asianu med beiskri samuitzku, þeir likæ sik samharmandi, enn ero allt at eins sinum fodr meinmælum brigslandi stundum, sæeggiandi at hann kriupi konunginum ok fyrirkomi sua kirkiurettinum. Enn þeira falsligum flutningi suarar sua erchibyskup med hoguerd ok einfelldi: „Brædr minir, sagdi hann, þer siait nu, sagdi hann, at heimrinn med sinum kumpanum herdir sik moti mer, ok þo hormum ver sarligar enn allt annat, at synir modr minnar strida moti mer, ok þott uer þegdim þar um, munu æigi þegia uorir eptirkomendr, huersu þer hafit oss fyrirlitid ok ydr at baki latid i uorri þraut, æigi at eins fyrirlatid, nema helldr ydarn erchibyskup þot(t) syndugan med uorum motstodumonnum undir dom dregit, ok enn grunar oss af sialfra ydarra ordum, at þer seed æigi at eins framlutir sa oss i fiærsokum fyrir annara hond, helldr bunir at rangdæma oss med leikmonnum. Enn at þer heftiz af sua miklu rædleysi, fyrirbiodum

Digitized by Google

uer ollum ydr i krapti lyd(n)innar undir harka uigslunnar at sitia hedan ifra nockurn þann dom, er minni personu til heyrir. Ok at þer megit oss eigi dæma upp hedan ifra nockurn þann dom, þa stefnum uer ydr alla samt upp a pafans gard ok heilagrar kirkiu dom, sar rangdæmdum gerir rett ok þeim hialpar, er uanhluta uerda. Sua ok i adra grein, at sa kuittr ferr med folkinu, at konungsmenn muni leggia hendr a mik med hardindum, þa biodum uer ydr i krapti lydninnar, at þer uerndit oss med þeiri stridu, er laugin leggia þeim, er þuilikt gera. Enn þat uil ek, at þer uitid, at þott fiandinn med sinum fylgiorum grimmiz a mik, skal ek heden ifra alldri fyrir þeim a bak fara, helldr fylgia þeiri skylldu med hugarkrapti, er ek tok af sialfum gudi." Sua lykr þessu mali, at merkismadr ok odduiti byskupanna Gillibert af Lundunum setr þegar a appelleran fyrir þa alla upp i moti erchibyskupinum. Skilia þeir sua, at byskuparnir flestir skunda a konungs fund ok gard, enn Heinrekr uigslufadir hans duelz eptir hia honum med samharman[1] ok heilogum kærleik, sem hann uardueitti iafnan stodugt.

*Hier snuast byskupar i moti sancti Thomasi.*

84. Sem byskupar eru brutt, geingr Thomas til kirkiu ok gerir sem fyrr uar honum radlagt, segir allar tidir af hinum sæla Stephano prothomartyre ok syngr sialfr messu, ok nu med pallio moti uana, þuiat eingin uirkr dagr hefir þat priuilegium. Sem messu upphafit byriar Etenim sederunt, eru nær staddir kirkiunni nockurir konungsmenn ok klerkar, hugleidandi med nockurri undran, huat saungrinn þyddi, ædr hui hann mundi sunginn þenna tima. Sem embettid er uti, leggr Thomas af ser pallium ok mitruna eptir radi uina sinna, enn skryddr messuklædum fyrir utan hokul leggr hann yfir sik eina klerkakapu. Her med sakir manligs otta ok sterkrar truar til guds miskunnar tekr hann ser til hlifdar uars drottins likam lucktan i propiciatorio ok lætr upp undir kapuna, styrkiz hann þegar i huginum af sua blezudu foruneyti. Ok sua buinn uikr hann ut af kirkiunni a ueg til konungsgardz eigi fiolmennari sinna uegna enn med tuo klerka. Sem hann nalgaz gardinn, tekr hann sialfr krossinn af odrum klerkicum, er adr bar, ok þui nær koma byskupar ut af gardinum, er enn Gillibert af Lundunum þeira foringi, meirr kominn af foruitni, huat erchibyskupi lidr, enn nockurri godgirnd ne goduild, sem bratt prefaz, þuiat hann uarpar þegar meinyrdum a guds mann fyrir þa eina sok, er hann bar sialfr krossinn. Segir hann lysa i sinum uan-

[1] sammharmam *Cd.*

Digitized by Google

metnadi, huart hugarfar hans hafdi. Erchibyskup segir, at þat var oyngum manni uanmetnadr at bera pislarmark Jesu Cristi, sem sialfr hann tottar: „Ef nockur uill koma minn ueg med eptirdæmi, taki hann krossinn ok fylgi mer. Enn ef suiuirding er nockur edr uanmetnadr manni helldr þui mali til heyra, er þer uilit mer fyrirkoma ok med ulærdum monnum mik dæma, þar sem þer ættid mik at ueria ok ydart blod fyrir mitt ut at leggia. Sua er decretad, at alldri skal hinn hærri dæmaz af hinum lægra edr bindaz af hans atkuædi. Miok raskar þa heimsins skipan ok hneisiz guds rettr, ef sunr berr birdinn, edr þræll herra sinn, edr lærisueinn meistara sinn, edr son fodr sinn. Ek uar fyrr med Heinreki konungi hans canceler, hlydandi hans bodi gott ok illt, enn nu þiona ek odrum konungi, ok a ek nu þess rettar at reka. Enn at tilteknu dæmi skilr þeira konunga rett sua mikit sem gull ok bly, þat er huartueggia malmr ok eigi iafn, annar er biartr, fagr ok skirr, annar suartr, dauckr ok uskirr. Heilug kirkia[1] hefir gofugt uelldi af sialfum gudi, enn annat ualld þat er stiornar eptir uilld sinni, annat er fagrt enn annat suart, annat af gulli, annat af blyi, annat til sælu aandlig(r)ar, annat til sælu likamligrar. Fyrir þessa merking uæri ydr byskupunum sæmanda, huar þer standit, þa er þer dæmit mik, þar sem uer eigum med rettri settning alla ydr at dæma, eigi at eins at dæma, helldr at binda ok leysa, eigi at eins a iardriki, helldr bædi a himni ok iordu." Sem her er komit eyrindi erchibyskups, geingr at honum hoguerliga Robert byskup Herefordensis ok segir sua: „Minn fadir, sagdi hann, latid mik helldr bera krossinn, þuiat sua hæfir." Erchibyskup suarar: „Betr er at ek sialfr beri hann, þa þarf eingum vera efanligt, huerium ek þiona." Þeim ordum suara(r) sua Gillibert: „Suo herklæddr sem þu þickiz nu, ok komir þu sialfr slikr i konungs herbergi, mun hann uenda sinu suerdi upp a þinn hals." Heilagr Thomas suarar: „Vær bidium gud, at hans milldi gefi rad fyrir oss." Gillibert suarar: „Leingi hefir uuitskan farit med þik, ok yckar skilnadr mun seinn uera." Moti þessum meinyrdum leggr guds madr eingi andsuor, nema geingr þegiandi fram at þui herbergi, sem sialfr konungrinn sitr i. Enn sua sem honum flytz af ferdum erchibyskups, huersu hann er buinn, ok berr sialfr krossinn, vikr hann undan i annat herbergi med ollum skunda, ok eigi lætr hann frammi þat huassa suerd at sinni, sem Gillibert ognadi. Thomas erchibyskup setz nidr med sinum klerkum i þat herbergi, sem konungrinn hafdi adr setid ok rymt, ok byskupar annan ueg gegnt honum.

[1] kirkiu *Cd.*

Eptir litla hrid þysia inn konungs menn med þeim bodskap upp a Thomam erchibyskup, at hann gialldi skyn ok goda grein herra konunginum fyrir allan þann fiarhlut, er hann hafdi undir sinni forsio meira ok minna, þa er hann uar canceler, ok ueiti þat skilriki nu i stad, at eingum konungsins uarnadi hafi hann suckat an orlofi, ok leggi a eid sinn, ef hann fellr at mali, skal hann þola byskupa dom ok annara rikismanna. Heilagr Thomas suarar her sua til: „Þa er uer uorum kiorinn til erchibyskups i Lundunum, er undir margra manna uitordi, huersu herra konungrinn gerdi oss frialsan af þeim lutum ollum, (er) til heyra krununni, ok sakir þess at beztum monnum innan landz er þetta kunnigt[1], þa ser seigi saannligt, at nu see oss sakir gefnar til fegiallda sedr reiknings, sem ver serum byskup vordin, ef þa uar þagat, er uer uorum i lægri stett. Ok med þui at ver eigum eingan reikning at gera, vilium uer þui sidr eid vinna, at ver uilium ongu til suara.“ Þessi fortekin andsuor herra erchibyskups sero þegar flutt herra konunginum. Ær nu seigi langt, adr byskupar ok annat stormenni seru kalladir med sakefd i sialfs herbergi, ok er þeir koma þar, byriar konungrinn sina kæru a Thomam erchibyskup med þuiliku efni: „Godir hofdingiar, sagdi hann, huar er heyrt fyrr enn her, at nockur madr gangi sua i konungs herbergi sem þessi Thomas, oss ok uaru radi til haduligrar suiuirdu, þuiat seigi sotti hann oss sem dygdarmann ok trygda, helldr sem einn suikara, gerandi þa med sonnu sialfan sik opinberan at suikum. Slikt skal af eingum manni heyrt, at ne einn hafi lyst at ueita konungs ualldi sua matka uanuirdu, sem þessi hefir oss uunnit.“ Þetta sanna þeir allir med konunginum, segia erchibyskup iafnan verit hafa miok hegomligan ok metnadarfullan, ok þessi uanuirda sæ seigi konunginum einum gerr, helldr ollu rikinu. Segia ok nockurir, ser diarfari voru, at slikt fellr konunginum makliga[2], at hann mæti af þeim meingerdum, ser hann hof yfir alla menn ok gaf sua mikit efni til ofbelldis. Konungrinn suarar: „Þat motkast, sagdi hann, er oss rettliga fundit, ef ver hofum þuilikan metnadarmann med uorum ordum. Skulum ver hann þui sidr mikla hedan ifra, at huerr sem at þui uerdr kunnr, at honum ueiti fylgd fra þessarri stund, skal sua dæmaz sem ovin vors rikis. Her med skal hann dæmaz ok þola dom fyrir þa alla odygd ok eidrof, grun ok illgirnd, er hann hefir gert krununni.“ Enn er byskupar heyra, at enn skal i dom fara, ottaz þeir nockut, þuiat þeir mega muna, huersu Thomas erchibyskup fyrirbaud þeim i krapti hlydninnar at dæma sik optar,

[1] kuningt *Cd.* [2] makligan *Cd.*

Digitized by Google

þui bidia þeir orlofs um litla stund at uikia i annat herbergi til rædagerdar. Konungr bidr þa gera god ræd. Sem þeir tractera, æro morg uppkost af ustadfesti þeira, enn þat uerdr stodugt, at med þeim hætti skulu þeir undan færaz uid konunginn at sitia dominn, at snaraz med honum i fylgi ok alla adra frammistodu, er þeir megu ueita moti Thomasi erchibyskupi innan landz ok utan. Sem þessi uegr er fastmælum bundinn, standa þeir upp ok birta þat sama konunginum, bidiandi sik sua undan dominum. Þessum utueg iattar konungrinn, at þeir skulu allir vera sem einn madr at uinna yfir Thomam erchibyskup.

### *Guds madr Thomas ridr af fundi.*

35. Nv sem konungs ualld ok byskupar hafa sambundiz moti sælum Thomasi, skorter æigi skynleysi med ymsri unæd fram i þat herbergi, at herra Thomas sitr i. Lokusueinar sla ser lausum med steingr ok stafi ok lata miok ferliga. Her med er flaukt ok ferd byskupanna til ok fra med ymissum ordflaugum. Huar af suo stendr, at Bartholemeus Exoniensis kemr nu fyst til erchibyskups. Hann likar sik godan med knefalli ok segir sua: „Fadir, sagdi hann, þyrmit ydr sialfum ok oss byskupunum brædrum ydrum, þuiat allir ver fordiorfumz i dag af þeiri hermd, ær herra konungrinn ok hans ræd hefir sæ þinu hofdi. Bodskapr er nu birtr, at huer sæ byskup ædr annar madr, er med ydr stendr leingr, skal sua haundlaz sem konungs suikari.“ Herra Thomas serr upp sæ hann byskupinn, medan hann flytr, ok suarar sidan: „Gack brutt þu hedan, sagdi hann, þuiat þu skilr æigi guds uilia.“ Litlu sidarr koma fram fyrir hann fim byskupar. Er þa Hilarius af Cistr sua sem þeira foringi. Hann byriar sua: „Her til hefir þu uerit vorr formadr, ok af þui attum ver þer at hlyda. Nu ær sua komit þinum hag, sem æigi er kiorligt. Þu sort minum herra konunginum at ueita honum trunad, enn þat hefir þann skilning, at hans lif ok limir med ueralldligu ualldi sie af þer heilir ok halldnir med ollum þeim vonum, sem hann uill hafa i sinu ualldi ok riki. Nu med þui at þu uill þær sidusæniur fyrirsmæ, verdr þu lioss meinsæramadr, ok þui uilium ver hedan ifra þinu rædleysi sæ eingan ueg hlita. Ok til þess at uer byskuparnir færimz þui logligar undan þinu oki, setium ver enn at nyiu oss ok uort godz undir ualld ok uernd herra[1] pafans, stefnum þik þar med sæ nefndan dag, at þu suarir i curia, huat er sæ þik kæriz.“ Her til suarar erchibyskup æigi fleira: „Heyri ek“, sagdi hann. Sidan uikia byskuparnir til sætis annan veg moti honum ok sitia

[1] herrans *Cd.*

Digitized by Google

þægiandi, medan Heinrekr hefir rad med sinu stormenni. Enn su uar lyckt a þeira mali sem undir doms atkuædi, at Thomas skal rettkalladr eidrofi ok konungs suikari. Eptir þa gerd standa upp iarllar ok barunar nockurir ok ganga fram til erchibyskups. Einn af þeim heitir Robert af Lecestr. Hann tekr sua til ordz iæallimi: „Herra konungr bydr þer at ganga til sin at gefa skynsæmd, sem þu hietz fyrra dags, af ollu þui, er a þik kiæriz, ella heyr þaan dom, er þer dictadis.“ „Dom!“ segir erchibyskup. Þa talar Vilhialmr iall af Rundinel: „Hugsit, herra, med ydr, sagdi hann, at fyrir vtan ærchibyskups tign munum ver kallaz ydrir iafningiar fyrir kynferd ok adra hluti, ok þui megi þer uel þola uorn dom.“ Erchibyskup suarar: „Herra iarll, sægdi (hann), uer sogdum fyrr i dag, huersu frials ok lidugir ver uorum heilagri Kantuariensis kirkiu upp gefinn fyrir utan skulld ok fepinu, ok þui segium uer likt ok fyrr i dag, at i kennimannligri stett æigum uer æigi fesektum suara, ok æigi uilium ver.“ Þa suarar Robert iarll: „Þetta ueit uid allt odruuiss, enn Gillibert af Lundunum flutti minum herra konunginum ok oss.“ Thomas erchibyskup talar þa enn: „Heyr oss, herra iarll, sagdi hann. Sua miklu mætari sem sælin er likamanum, skylldaz þu at lyda oss framar enn hofdingia iardneskum, þuiat sua sem hann hefir ualld yfir holldinu, sua hofum ver uald yfir sælinni. Þui skilr þu, at eingin log leyfa þat, at synir dæmi fodrinn, ok enn sidr uill heilog skynsemd, at þeir fordæmi hann. Ok med þui at eingin ierdligr madr a mik at dæma, nema einn herra pafinn, þa dreg ek mik med þui moti undan konungsins domi sem allra annarra, at ek set mik ok mina kirkiu med ollu þui godzi fostu ok lausu, sem henni til heyrir, undir herra pafans valld ok uernd. Her med stefni ek ydr ollum byskupum, iorllum ok bærunum, at þær suarit mer a pafuagardi, huat þer hafit moti oss framfarit, ok sua hlifdr undir skildi almenniligrar kristni ok postoligs sætis uernd geing ek nu hedan brutt at sinni.“

Med þessum ordum stendr hann upp ok geingr fram i gardinn, ok æigi langt adr hann drepr fæti ok rasar miok. Enn þetta tilfelli þyda sua hans ofundarmenn, at nu syniz fyrir manna augum, huersu hann ferr radlauss ok ræsandi med sinni uandygd ok þralyndi. Samlagaz þessir heimskum monnum, er lif ok mannkosti dæma giarna eptir veralligri asionu. En sæll Thomas erchibyskup likiz a þeim dægi guds postolum, er fagnandi foru af þui meingerdarþingi, er iudar settu þeim, med hudstrokum ok afarkostum. Sem erchibyskup med sinni fylgd kemr ut at portinu, var þat læst i fyrstu. Ok þat aflar honum nockurn otta, þuiat herra Thomas er radinn i at leita

brutt af Nordantun, ef hann færr komiz. Lettiz ok bratt med guds uilia þessi tælman, þuiat þeir siaa lyckla marga einshuers stad(a)r aa mvrinum, ok bera til huern at odrum, þar til portinu hæfir. Er þar fyrir uti su fylgd erchibyskups, ær æigi uill hann fyrirlæta, hestr hans med saudli ok þat annat, sem honum til heyrir. Sua stigr hann aa bak ok uikr aa ueg til klaustrs nockurs, er heilagr Andress hefir hofdingskap yfir, ok framm aa ueginn fyrir hann renna fatækir menn med andligum fagnadi sua segiandi: „Blezadr se saa gud, er frelsadi sinn þionustumann af ualldi ouina.“ Sem herra erchibyskup ser þenna fiolda ok heyrir þeira fagnad, talar hann sua til sinna manna: „Sie, sagdi hann, huersu uæna fylgd uarr grædari ueitir oss ut af ualldi þeira, er oss þyngudu. Þui er naudzynligt, at þessir sie i bodi uoru i dag, at vær gledimz allir saamt i guds giofum.“ Sua kemr hann fram til klaustrsins ok geingr bratt til bordz med þeiri faatækra manna fylgd, er adr uar greind. Ok er hann hefir setid um stund gladuærr ok blidr sinu folki, koma þagat tueir byskupar fram fyrir hann, Gillibert ok Hilarius, med þui eyrindi, at þeir segiaz fundit hafa einn godan ueg til fridar millum konungs ok erchibyskups. Herra Thomas spyr, huerssu sa er fallinn. Gillibert suarar: „Med þui at feemaal er i milli ok greinir mest i sundr ydart saamþycki, er saa uegr uænn til fridar, ef þer uilit leggia minum herra konunginum i pant .ii. iardir Oxenford ok Uingeth, þa mun hann blidkaz ok litlu sidar ydr bædi samt aptr skipaa iardirnar ok sina uinattu.“ Herra Thomas suarar: „Oss er sannliga flutt, at su iord er Ecka heitir, ok enn i dag helldr Heinrekr konungr undir sinu ualldi, er eign Cantuariensis kirkiu, ok þott hennar formanni heyri med skylldu at kalla aptr iordina, ottar oss, at þat dueliz aa uorum dogum. Enn þui sidr skulu uer uedsetia adrar tuær iardir, at þessa iord Eckam skulum ver alldri upp gefa ok eingan lut annan hedan i fra, þann er Cantuariensis kirkia aa med rettu aat hafa, þott ver þrotnim[1] aptr at kalla.“ Sem byskupar heyra andsuorin, snua þeir reidir aa brutt, segiandi konunginum af sinni ferd. Æsiz konungrinn þa enn med sinni reidi ok hermdarordum til erchibyskups.

Nu er aptr at venda til herra Thomam, sem hann sitr yfir bord ok letr lesa af Tripartita Hystoria, þar sem skrifat stendr af þeim ofridi, er gerr uar Liberio pafa, ok þessi ord vars herra, er hann talar til sinna lærisueina: „Ef þer hafit i þessarri borg ofsottir uerit, flyit þa til annarrar.“ Erchibyskup litr þaa til kler(k)sins ok hugleidir einkanliga, huat hann less af þeim gudspialligum (fl)otta, sem

[1] þrotnin *Cd.*



Digitized by Google

bratt profadiz. Vm kuelldit sama dags, sem sidla er uordit, koma til erchibyskups tueir gofgir menn ok hans godir uinir, þeir æro med sarum æangri ok þeim tidindum af konungs gardi, at nockurir menn miok frægir af illgerdum hafa sambundiz i þa guds reidi, at hafa fyrr erchibyskupsins lif enn sinn maat a næsta morgin. Herra Thomas hugleidir þetta maal, i huern haska nu er komit, ok uirdir med sinni uitru, at kirkiunnar sauk er minnur kunnig innan um kristnina, helldr enn sua miklu maali heyrir, ok þui ottaz hann, ef hann þolir þegar liflat, at þat kalliz meirr framit ok þolt fyrir nokura hans sialfs eiginliga sok enn uernd ædr frelsi guds rettar, ok þadan faai heldr kirkian nidrfall enn nockura uppreist. Þui stadfestir hann sinn hug at leita undan fyrst at sinni at dæmum hins blezada Pauli apostoli, er hann flydi or Damasco aa nattarþeli til leingri nytsemdar heilagri kristni.

### *Er Thomas ferr brott ok af bustigli merking.*

36. Gvds madr herra Thomas erchibyskup, sem hann hefir stadfest at uægia fyrir sinum ouinum at sinni, hefir hann þann tilbunat, at hann lætr gera sæng sina millum tueggia alltara i klaustrakirkiunni. Þagat til geingr hann sem natt(ar), enn gefr allri sinni fylgd orlof til naada, vtan helldr eptir hia ser einn brodr, er hans fullkominn trunad hefir i þessu maali. Sem hans menn æro i brutt, stendr heilagr Thomas aa bæn ok less .vii. idranarpsalma med letania, fallandi aa kne vit huert heilags manz nafn. Enn eptir þat legz hann nidr i sængina fyrir tuenna sok, þa adra at huila nockut mæddan likam, enn þa adra at stadarfolkit tæki aluarligan suefn, adr hann leitar ut af kirkiunni ok klaustrinu. Sem honum þickir timi til, stendr hann upp lagligaa, ok saa brodir med honum, ganga ut af klaustrinu laundyrr nockurar ok sua framm i ueg um nottina, sem Jesus Kristr gerir raad fyrir. Her ferr nu saa bustigull, er klerkr nockur saa þuilika syn af aa þeiri somu nott. Honum syndiz, sem Heinrekr konungr feri aa dyraueidi med ollu sinu stormenni, byskupum, iorllum, abotum, priorum ok barunum med odrum virdingamonnum sins uaalldz, aa þann skog, er Valburg heitir. Sem þeir hafa sik fram aa morkina med opi ok þys, springr upp fyrir þeim þat dyr, er bustigull heitir. Sem þeir siaa dyrit, renna þeir aakafliga þar eptir med aeggian ok haareysti. Enn bustigull leitar undan haart ok hlyckiott higat ok þagat, at hann megi forda ser, stefnandi til siofar med ollu megni. Þat er hans faraarblomi, at hann berr aa baki ser þa bok, er heitir Actus Apostolorum. Enn þat þarf i

syn þessa, at allir er ofsækia dyrit, æru aa einnhuern hatt vaanad(i)r aa sina[1] limu, halltir ædr laamdir, eineygir ædr nefskornir, uarralausir ædr laasmærir med einhueriu kyni. Sem bustigull kemr til siofar, hleypr hann aa kaf ok kom alldri upp sidan. Enn er konungrinn ok hans fylgd ser þat, snua þeir aptr, ok litlu sidar kastar upp þyckri þoku yfir iordina, ok þuisa næst rignir blodi. Honum klerkinum þyckir Heinrekr konungr snua til herbergis. Þat syniz honum eitt eydihus miok þaklaust fiarri maanna bygdum. Her setz konungrinn nidr, hafandi nu sua undarligan bunat aa sinu hofdi, sem eitt siappel, uundit saman af refaholum einum. Klædnadr han(s) nidr fra er med huitu linæ, bædi uidr, skuckottr ok sidr. Ok sem hann sitr einmana, rignir blodit nidr yfir hann, þuiat husit var þakuana[2], sem fyrr sagdiz. Taka nu refahalarnir fyrst med sua miklu blodi, sem þeir uerda fylldir, enn sidan drypr æ sem tidaz aa klædnat konungsins, þar til at allar skuckur ok hruckur linklædisins voru sua fvllar, at flytr yfir. Geingr nu þessu næst blodit sua i uoxt umbergis hann, at um sidir fellr i munninn honum, ok geriz nu su nægd at blodinu, at ymiz fellr ut ædr inn. Er nu draumrinn vti, enn hans þyding er 'su rettskilin, sem her fylgir.

## *Vtskyring af (drauminum).*

37. Bvstigull þessi, er upp uaktiz fyrir op ok akall Heinreks konungs ok hans rikismanna, merkir Thomam erchibyskup, sem fyrr var tiaad. Þuiat hann var haduliga mot rettindum utrekinn af riki konungsins ok sinni attiord med atkalli stormennis i landinu. Allir þeir er elltu þenna bustigul fra sinni bygd, uoru uanadir einhueriu lyti, er þydiz fyrir þeira andlig saar. Þeir uoru blindir ok eineygir, nefskornir ok uaglæygir, uarralausir ok halltir, biugir ok fotbrotnir, handlami ok uisnir, aflausir ok lasmærir. Saa er blindr eptir ordum sæls Gregorij, er hatar[3] gudligt lios ok geingr i myrkrvm heimligs eptirlætis med skammsyni fallualltrar blidu. Saa er einsynn, er ser med huguiti, huat er fremiaanda veri, enn illuili[4] blindar hann, sua at hann hafnar andligu lifi. Saa er nefskorinn, er eyngua[5] skynsemdar grein berr aa sina gerd, þuiat neflauss madr hefir eingaa kenning ilms ædr fylu. Saa hefir fleckott auga, er sua þyckiz uitr, at þar fyrir gleymir hann saannri uitrv, er uikr til himinrikis, þa er hann uefr sitt[6] hugskotz auga i ueralldar hegoma. Saa er uarralauss, er sik iattar undir stiornarualld heilagrar kristni, enn þegir sidan yfir aaminning ok reittri hirting sinna undirmanna, þuilika kallar spaa-

[1] sinu *Cd.* [2] sakuana *Cd.* [3] hatur *Cd.* [4] illuilli *Cd.* [5] eymgua *Cd.* [6] sitr *Cd.*



Digitized by Google

madrinn sem þa hunda, 'ær æigi kunna geyia. Saa er halltr, er uel ueit, huat hann skal gera[1], enn drepr fæti sua haart i sinni vueniu, at hann halltrar brott af guds gotu. Saa er hryggbiugr, er sua saluarliga legz undir ok ueralldar ahyggiu, at þar fyrir gleymir hann allri upplitning, enn greyfiz nidr i iardliga blidu. Þeir æru fotbrotnir, handlami, uisnir ædr lasmærir, er þat kosta med allri aastundan at fullgera fystir sins likama, ok þui uanmegnaz þeir fra þeim krapti, er leitar eilifra faagnada. Þessir allir sua lyttir ok lamdir, sem stendr i drauminum, syna þat af konungsmanna figuru, er taupudu natturuligri fegrd andligrar skynsemi, þa er þeir sottu sælan Thomam erchibyskup sua sem til utlægdar fyrir suikara nafn ok feepinur.

Nu er at uikia til þydingar, hui varr herra syndi Thomam helldr fyrir bustigul enn aannat kvikuendi. Enn þar ær lios skynsemi til, þuiat bustigull er med hordu hari ueriandi sik med þeiri hlif fyrir uopnum, dyrum ok ofrhita. Haarsins snarpleiki[2] merkir hardlifi heilags Thomæ, er hann skryddi moti skeytum andligrar freistni, ok þui bar hann uel ser aa baki postolanna verk, þaa er hann gaf sik at þeira dæmum undir þiaan ok þyngd likamans, ok at sidrztu undir sialf bodafoll mannligrar grimdar med sarum dauda. Her eptir syndiz klerkinum, sem myrkr ok þoka þraungdi iordina, ok vr þeim myrkua rigndi blodi. Jord merkir i þessum stad iardligar saamuitzkur, er fyllduz syndamyrkri at fyrirkoma rettuisum med sinum ologligum domi. Þessum saagdi spamadrinn: Vei þeim er med laugleysu þraungua rettuisa. Sannliga kom myrkr yfir þær samuitzkur, er drogu kristinn rettinn vndir uondar uueniur. Af þeim myrkua rigndi blodi, þaa er uillter menn fra guds logum gafu dreyrugt raad yfir ærchibyskupsins hofut. Þessu næst sitr Heinrekr konungr i eydihusi med huita linklædi, er bædi var sitt ok uidt. Þat klædi merkir ueralldar blidu stundligs rikis. Þat klædi uilldi Heinrekr konungr rumt hafa, þa er hann dæmdi sua lærdan sem olærdan. Krvnu bar hann aa hofdi samsetta refaholum. Sæll Gregorius uottar hofut maanz merkiaz fyrir hugskot, þuiat limir luta hofdi, enn hugsaanir briosti. Reflig kruna aa konungs hofdi uoru suik ok slægligar fortalur at draga konungsins hiarta i moti erchibyskups uilia, þui uoru halar, at refsins slægd liggr i halanum. Hali er ok endir aa hueriu kuikuendi, sua feingu þeir ok daligan ennda, er reidu manndrap ædr uunnu ubættir med ollu. Skuckur i klædi konungsins merkia illa raadgiafa, er hans riki ueralldligu gafu þa skugga ok stærd hugarins, at hann beri sik brott or aullu hofi. Þessir halar

[1] ok ætti *tilf.* *Cd.* [2] snarpleika *Cd.*

Digitized by Google

ok skuckur uppi ok nidri baru konunginum um sidir sua noga bloddryckiu, at bædi hann ok þeir hofdu þar af fullan munn. Þessi er saunn glosa, sem uitr madr maa uel skilia, þott æigi see langt vm gert.

Fylgir her ok onnur syn, er uard aa somu nott, ok enn þydiz til þess flotta, er guds madr Thomas tok upp med frelsi laaganna. Klerkar erchibyskups hofdu ser einir herberg(i) til suef(n)s aa þeiri nott, er herra Thomas flydi, ok þui æru þeir aallz uuitugir, huern skaada þeir feingu. Einn aaf klerkunum heyrir i suefni nærri midnætti, at ein[1] skærlig rodd hl(i)odar þessa tuo uerssa upp i loptid: Anima nostra sicut passer erepta est de (laqueo) uenantium, laqueus contritus est, et nos liberati sumus. Þetta þydis sua: Vart lif er sua leyst af ueidimanna snoru sem einn titlingr, snaran er slitin, enn ver ærum frialsir. Þessi raudd audsynir, at dauda snaraa uar upp egnd fyrir erchibyskupi, adr enn hann fordadiz med flotta. Enn huat maa þar um ætlaa, huersu saaran aangr ok hormuligan þeir mundu faa at morni, ær med braadum atburd hofdu laatid sua blezad faderni, er bædi var blitt ok sætt ollum sinum monnum, sua at allir unnu honum hugastum. Þui er þat liost, sem sidar stendr skrifat, at allir þeir er af erchibyskupsins fylgd, sem framarr voru mentir, leitudu sudr um sio, þegar þeir hofdu uissu sins uirduligs fodr. Enn þann tima sem Heinrekr konungr spyrr med sannynndum þessor tidindi af brottferd erchibyskups, verdr hann bædi hryggr ok reidr, kallandi saaman þegar i stad bædi byskupa ok adra landzhofdin(gia) til raa(da)gerdar. Siti þeir nu um stund aa raadi, sem þeim likar, enn ver hyggium at merkiliga þessu næst, huat lidr heilogum Thomasi.

*Hier byriar flotta Thome erchibyskups.*

Uirduligr guds madr heilagr Thomas hof sinn heilagan flotta, þaa er lidit var fra holldgan drottins þusundrat hundrat .lx. ok .viij. aar, aa þrettanda kalendas dag Nouembris manadar aa annarri nott eptir festum Luce ewangeliste. Þuiat þing i Nordantun byriadiz aa fimta degi uiku, sem fyrr segir, þat er pridie idus Octobris, þat er festum Calixti paaua, er ver kollum at uetrnottum. Þingit stod um sex daga, byriadiz sem nu sagdiz, enn laukz þridiudag i annarri uiku. Ok aa þeiri næstu nott for heilagr Thomaas af klaustri Andree postola. Þat samþyckir ææri uars herra, at þa hafi hann erchibyskup uerit þria uetr, enn hafi nu .xl. ok .vij. uætr sialfs sins alldrs.

Heilagr Thomas torkennir sik fyrir nafn ok klædabunad, at æigi uerdi hann kendr ædr fanginn. Lagdi af klærkaklædi, enn hafdi

[1] einn *Cd.*

einfalldan kanunkabunat, ok æigi uill hann nu kallaz Thomas ærchibyskup helldr brodir Kristianus, ok þat nafn heyrir honum uel, þuiat Kristianus þydiz kristinn madr. Æigi uill hann[1] ok ganga þiodbrautir, helldr leyniliga smaastiga. Stefnir hann sinn ueg nordr til Linkol(ni) ok geingr aa fystu nott .xx. milur ok fim fram til þess bæiar, er Graham hæitir. Þar huiliz hann um hrid ok sofnar, enn geingr sidan framm til Linkolni adrar .xx. milur ok fim. Þar tekr hann herbergi nockut fraskilliga i husum þuattara eins. Annan dag flytz hann yfir aa þaa, er þar fellr i gegnum stadinn, enn geingr sidan .xl. milur framm til heremitorium nockurs, er stendr einsliga, þuiat uotnin kringia naaliga umbergis. Þar duelz sæll Thomas uel þria daga ok lætr uotnin geyma sin. Einn samt hefir hann herbergi ok æigi rikara kost, enn brodirinn kaupir uti, huart sem verdr ertrarettr ædr eitthuert potagium. Brodirinn stendr fyrir erchibyskupi, medan hann etr, hugleidandi, huer fatækt ok fasinni er þar var inni hia sua uirduligum manni. Tekr hann i hiarta, sua at hann taaraz af, geingr ut af husinu, at hann geri æigi guds manni hrygd i sinum grati.

Af þessu heremitorio geingr hinn sæli Thomas til Botulfs steins. Enn þadaan fer hann enn um uatn nokkut til þess bæiar, er Hauelorr heitir. Enn sidan leggr hann af dagferdir, þuiat i þeim luta landz hefir hann opt uerit ok er miok kunnigr. Þui liggr hann i leynum aa daginn, enn geingr um nætr, ok stefnir nu miok ueginum til austrs, þuiat hann ueit uel, huar hann ætlar til brottferdar af landinu, ef gud lofar. Ok saakir þess at hann þarf bædi menn ok hesta ok farkost sudr yfir sioinn, enn ær æigi sialfr festerkr nu uordinn, uendir hann at þui siotuni, er Hestræi heitir, þar er formadr yfir prior einn, er lytr undir Kanciam. Þui leggr herra erchibyskup allan sik ok sinn uilia i lios fyrir honum. Þar kemr hann nockurum faam dogum fyrir allraa heilagra messu, ok duelz þar fram um hatidina. Stendr hann i litilli afstuku, medan messurnar syngiaz, ok ser þadan um einn glugg uars herra likam. Priorinn syslaar honum einn litinn baat til sioferdar ok tuo rosku prestbrædr til fylgis. Allra heilagra messa var þa aa manadegi. Ok aa þeiri næstu nott eptir godri stund fyrir dag, ferr heilagr Thomas brott af Estrelii fram til siofar med þrim brædrum sinum, ok lætr ut af Einglandi, þaar sem Sanduik heitir. Ok saa þridi dagr, er hann er i hafi, er hinn fimtandi fra þeim þridia degi, er hann uar mest angradr i Nordanthun.

Suo uel uerdr hann raadfara med uilia guds, at sama kuelld

[1] h'm *Cd.*

Digitized by Google

tekr hann Flaandr eina milu fra þui þorpi[1], er Grafningr heitir, helldr hann þegar aa ueg fram til þorpsins[2]. Stormr er uedrs med mikilli vætu, enn uegrinn blautr, auckaz leirrinn uid fetrna, ok er miok þungfert. Erchibyskup ferr af kapunni ok uefr henni um herdar ser. Geingr hann sua mædiliga, sem uitr madr maa marka, var nykominn af sio ok þeim uelltingum, er uerda kaann aa litlum bati, enn uuanr þuiliku uasi aullu iafnsaman. Ok reitt i ueginum berr sua til, at nockurir ungir menn koma i mot honum, ok einn af þeim berr faagran falk ser aa hendi. Enn þott ærchibyskup ueri miok modr, uikr honum þegar til fyrri glædi, er hann saa fuglinn, ok nemr stadar. Enn er þeir siaa, aat Thomas gefr ser at um fuglinn, horfa þeir upp aa hann, ok einn þeirs talar sua: „Sie, sagdi hann, þessi madr er Kanntuariensis erchibyskup, utan ek faalleriz.“ Annarr suarar: „Sannliga ertu uuitr madr, at Kantuariensis erchibyskup mundi sua fatækliga fara mega.“ Enn er signadr Thomas heyrir ordrædu þeira, helldr hann ecki til duala, ok hefir sik þegar fram aa ueginn, ok æigi langt adr hann fyrirlegz med ollu, þuiat uegrinn var sua meinligr, sem fyrr sagdi. Hann taalar sua til brædranna: „Hedan fer ek æigi farit, vtan þer berit mik ædr syslit mer reid-skiota.“ Þeir renna þegar i bygdina, er næst uar, ok leiga eitt ross fyrir pening silfrs, þat er beislaust ok saudullaust, nema hefir sila nockurn um haalsinn. Þeir breidaa klædi sin aa baakit ok letta ærchibyskupi sua til reidar. Ok litlu sidarr koma uæpntir hofmenn med hestum aa moti honum, ok spyria þegar, sem þeir mætaz: „Ert þu Cantuariensis erchibyskup?“ Hann suarar þegar sem brosandi nockut litt: „Satt er þat, segir hann, at sua ridr hann rett Kantuariensis erchibyskup.“ Fyrir þessaa hans undirtekt af leidaz þeir sinni aastodu ok skilia uit sua buit.

Ridr Thomas framm til Grafnings, taka þeir ser herbergi med husbonda einum. Ok þann timaa er undir bord er skipat, sitr brodir Kristian sidarstr af þeim fiorum kumpanum. Husbondinn er uitr madr ok merkir med ser, at saa brodir, er Kristianus kallaz, hæfir ser einn haat(t) ok hæuersku yfir bordinu. Hann skyniar her med hans likamligt form, huerssu þat er fagrliga skapat med aasionu uel[3] fallinni, med breidv enni ok fogrum augum. Þui tekr hann med ser stodugt raad, at þessi er meiri madr, enn hann hafdi fyrr tekit[4] i sitt herbergi. Ok med þui at kuittr hafdi komit i Flandr, at Cantuariensis erchibyskup hafdi fliott ok leyniliga af Nordantun brutt farit, hyggr hann ok fyrir saatt, at þessi Kristian sie Cantua-

[1] þorfi *Cd.* [2] þorfins *Cd.* [3] uell *Cd.* [4] tekitt *Cd.*

Digitized by Google

riensis erchibyskup. Fyrir þessa sok kallar hann til sin kerling sina ok talar vit hana launmæli, huert efni her mun i vera um gestinn þenna. Sem hon heyrir þetta, verdr henni annars hugar vid, ok skundar þegar fram fyrir bordit, stendr ok ser upp sa hann brodr Kristian, brosir sidan ok snyrr brott til husbondans: „Saatt er, saagdi hun, hann sialfr er.“ Er nu æigi langt, adr rettir fiolgaz, þuiat kerling trytir æ sem tidaz at bera fyrir Thomam, brodr Kristian, þat er hon hefir bæzt til, ertrnar, eplin ok ostana, þuiat lætr hon, sem hon siaai eyngan utan þenna Kristian. Enn er erchibyskup ser, huersu horfir, grunar hann um, at kerling muni hafa feingit nockurn[1] auital, huerr madr hann er, ok giarna uill hann þui kaupa nu, at hafa rettu færri ok vera æigi rettkendr af henni. Sem bord er upptekit, geingr husbondi til brodr Kristian sua gladr sem med oluerd, ok (mællti til hans) þessum ordum: „Verit gudi vel kominn, sira minn, sagdi hann, ok glediz af þui godzi, er ek maa ydr ueita.“ Brodir Kristiaan tekr honum uel ok hardla blidt ok bidr hann sitia til saamrædu upp i hia ser. „Nei, sagdi hann bondinn, þat ær æigi mitt sæti ne rum, helldr a golfinu[2] fyrir fotum ydr.“ Brod(i)r Kristian suarar: „Huerr er ek, sagdi hann, einfalldr brodir, at þer þurfi nockut um mik at finnaz?“ Bondinn segir: „Sialfum þer er kunnigt, huerr þu ert, þott þu latir annat yfir fliota, ok fyrir vtan ef þickiumz ek uita, at þott þu nefniz einfalldr brodir, æru þer i saannleik Cantuariensis erchibyskup.“ Herra Thomasi þyckir uandi nockurr i uera, honum likar æigi lygdin, enn uilldi þo giarna leynaz. Þat rædr hann af, sem honum samir bezt, at hann segir bonda nærgætan uera, enn bidr hann þo iafnframm med godum trunadi þat geyma. Husbondi heitr þui ok gerir sua. Enn þui uarar hinn heilagi Thomas, at husbondinn halldi þar trunad yfir, at han(s) uizka ser i gegnum, huat sa mundi koma, ædr huersu morg eptirleitan ok forgilldra honum mundi ueitt af Heinreki konungi, at huergi mætti hann frials faraa ædr sinum fæti huilldar leita.

Ok þetta profadiz sua. Þuiat Heinrekr konungr gerdi bædi bref ok ordsendingar sudr um sio fiogurra uegna fyrir hann. Einkannliga skrifar hann iarllinum i Flandr, er Filippus heitir. I þui brefi standa sua haardsnuin ord, sem her fylgir: „Þat see ydr kunnickt af aullum uorum uinum, aat saa Thomas, er var um tima Cantuariensis erchibyskup, hefir leynz ok flyit or uoru ualldi sem einn uondr drottins suikari, ok þui skal honum uei vera i ollu uoru riki ok uorra uina, sua framt sem var ord ok uald maa honum þyngia.“

[1] nockura *Cd.* [2] golpinu *Cd.*

Digitized by Google

Tok Filippus iarll þetta bref Heinreks konungs med mikilli blidu ok sæmblæstri, þuiat hann uar adr hinn mesti ouin Thome erchibyskups fyrir þaa sok, sem her stendr skrifat. Stephanus konungr, er rikti næst fyrir Heinreki yfir ollu Einglandi, atti dottur eina, hon uar fogr mær ok geck i klaustr þegar a ungum alldri, þroadiz hon sua i godu lifi, at i fulltida alldri gerdiz hun æbbadis yfir þeim lifnadi. Nu er at uikia þangat[1], at Filippus iall i Flandr a brodr þann, er Matheus heitir, iarll yfir Bolonia. Þessi Matheus at radi brodr sins hefr þat bonord at faa abbadisar konungsdottur til eiginhusfru. Er þa sua komit tima, at Heinrekr er konungr, enn Thomas kanceler a hans gardi. Jarllarnir sækia traust Heinreks konungs at þessu mali, ok hann var buinn at gang(a) med þeim i þessa guds reidi, adr Thomas canceler stod i moti med ollu megni. Ok þat fær hann aflat med guds uilia[2] ok fulltingi, at sua liotr hiuskapr tokz ægi. Þessi var hans sauk æ sidan uid þa brædr bada, at hann dro þa brutt or heluiti med sinni rettuisi. Feck hinn sæli Thomas fagra merking i þui mali, er hann tælmadi sua liotan hordom, ok tok þar hatr fyrir, þuiat liost er i þui verki, at hann stod til hægri handar sælum Johanni byskupe. Enn hueria þialma nærr ædr firr Heinrekr konungr egnir fyrir fætr Thome erchibyskupi, ferr hann frials ok lidugr, þuiat gud greidir hans gaungr. Enn þo hugsar hann einkanliga at fara, sem hann ma leynilegaz, um land Philippi iarllz.

### *Af ferd Thome.*

39. Snemma um morgininn, sem uarla er uegliost, rædr hann a ferd brutt af Grafning, geingr hann .xij. milur þann dag miok krankan ueg sakir leirs ok uętu, ær uerda kann a uetrar tima, er iordin blotnar af regnum. Nær kuelldi þess dags kemr hann til gramunkaklaustrs nockurs, er Klaremaries heitir ok stendr uit stad hins heilaga Audomari byskups. Þegar fer hann þadan um nottina, sem segiz ottusaungr, stigr a skip ok flytz upp eptir uatni þui, er klaustrid stendr hia, til þess stadar, er Valdemunstr heitir, þat var fordum einseta heilags Bertini abota. Er hann nu uel hirdr fyrir sinum ouinum, þuiat sa stadr er alla uega luktr uotnum. Ok sem hann duelz þar um fim daga, kemr þagad Godskal aboti, bi(d)iandi erchibyskup fara med ser til abbatiam[3] sancti Bertini. Stigr þa enn herra Thomas a skip ok flytz upp eptir uatninu til stadarins. Ok i ueginum talar einn madr sua til hans i skipinu: „Sira minn, sa(g)di hann, ver munum koma i dag til godra manna, er ydr munu

[1] sannat *Cd.* [2] uillia *Cd.* [3] abbanam *Cd.*

fagrliga fagna, einkanliga fyrir þat er þer komuz heilir or ualldi ydvarra ouina. Latid þa kenna ydra tilkuomv ok gefit þeim gott orlof at eta tuimęllt i dag, huat er gud gefr fyrir utan kiot." Heilagr Thomas suarar: „Miduikudagr er a morgin, ok þui hæfir oss at þarnaz." Sem her stendr, talar annar madr til hans: „Siraa minn, sagdi hann, vera kann, at þeir i klaustrinu hafi fiskafatt at fagna ydr, ok þurfa[1] þeir þaa uorkynndar." Erchibyskup suarar: „Vorr herra beri þar forsio fyrir." Ok reitt saamtida þessum ordum stockr einn mikill fiskr or uatninu ok framan i fang erchibyskupi, ok er hann halldinn i stad. Lofa þeir gud fyrir fagra sending, ok uirda sua þegar nockurir, at varr herra syndi kiærleik sinn i þessarri sending ok uidbragdi til erchibyskups.

Enn er heilagr Thomas erchibyskup kemr til klaustrans, er honum þar fagnad med allri blidu bædi af abota ok ollum hans brædrum, ok her er hann ladadr ok leiddr til huilldar eptir langa mædu. Hann er nu kominn i Fracka konungs riki brutt or ualldi sinna ouina. Her ueitiz honum ok af gudi su gledi, at hans heimonligzi madr Herbert af Bosea ok enn fleiri adrir klerkar af hans fylgd koma til motz vit hann, þuiat astin, sem fyrr var saagt, hrærdi hiortu þeira at sækia sem fyrst landz ok laagar sua blezadan fodr ok herra. Her berr ok sua til, at fyrr nefndr Rikardr af Luci, hardla kiærr Einglandz konungi, kemr þar til klaustrans, sem hann uendir heim af pilagrims[2] ferd nockurri. Sem hann fer sanna uissu af, at herra Thomas erchibyskup er þar kominn sem med þuiliku efni, sem um rid hefir sagt verit, geingr hann til motz vid hann med þeim fagrmælum at koma honum aptr i fulla vinattu Heinreks konungs, ef hann uill snua heim til Einglandz med honum. Erchibyskup hefz undan ok truir honum varlla, ok þui sua, at Rikardr hefir gefit honum þaa raaun. Ok sem ecki uinz at, stæriz mettnadr Rikardar, sua at ærchibyskupi ueitir hann einga uirding, helldr lætr hann nockur þau ord um fara, sem hann megi honum saakir gefa ædr finna. Ok þui skiliaa þeir vit sua buit. Færr nu erchibyskup sanna uissu fyrir framburd klerka sinna, huat fram for i Einglandi, sidan hans flotti vard kunnigr, ok þui skal nu sæll Thomas huilaz i klaustri Bertini, medan ver uikium þangat sogunni.

### *Er konungr sendi til Roma.*

40. Nv er þar til at taka, sem fyrr uar uppgefit, at Heinrekr konungr for i raad med byskupum ok odru stormenni, huat upp skal

[1] þyrfa *Cd.* [2] pilagrins *Cd.*

taka i sliku vandkuædi, sem nu var nyliga vordit i flotta Thome erchibyskups. Ok uerdr þat stodugt, at fim byskupaar af landinu skulu fara til kuriaam at flytiaa maal Heinreks konungs moti Thomasi erchibyskupi. Ok æru þeir til ualdir, sem æru klerkdomsmenn miklir ok maalsniaallir, enn huarki til fullz raduandir ne uinir erchibyskups. Þeira fremztr er Gillibert af Lundunum; annar Rodgeirr af Jork, hann bar pallium med erchibyskups nafni, sem enn mun sidarr getit uerda i þessu maali; þridi Hilarius af Cistr; fiordi Bartholomeus af Exonien; fimti Roger af Uigornen. Her med skipar konungrinn þeim til fylgis nockura sæmiliga menn af sinum klerkum, er þat skulu aallt sanna, sem þeir uilia fram bera. Gerir hann ok æigi sidr nockura mikils hattar menn af leikualldinu. Ma þar nefna til Vilhialm iarll af Arundinel, ær sæmiliga stendr i sinu rumi, huart sem hann er innan landz ædr utan, hann tekr med brefum herra konungsins, þuiat hann skrifar bædi til Fracka konungs ok pafans. Ok til þess at sendibodar konungsins megi honum bera sem mesta frægd, sua fyrir herra pafanum sem Fracka konungi ok odru stormenni, huar er þeir koma, gerir hann ser þa liking, sem hann uili login giarna geyma, at allr uarnadr ok eignir Kantuariensis kirkiu skulu standa med fullri naad ok frelsi, sua sem Thomas setti þat allt saman undir uernd sinnar appellacionis til heilagrar Roma kirkiu ok herra pafans. Med þessum bodskap geraz fiogurra uegna þeir rennarar um rikit, at þar til sendibodar koma heim af curia, skal allt kyrt uera. Enn þann tima er sendibodar æru albunir med miklum metnadi, rada þeir i ueg ok hafa nægra silfr enn sannindi, meira gull enn þann goda uilia, er þuilikum personum til heyrdi. Þær presentur, ær þeir bera med ser af konungsins halfu, æru æigi smaaleitar, þuiat uel ær kunnigt, huersu sialfr herra pafinn ær nu feþurfe sakir þess ufridar, er honum ueitiz af o(f naudum. Suo ær ok hans romuersku raadi þat hugat af Heinreki konungi, at þeir muni meirr hyggia at presentum enn rettindum, ok sua muni þeim synaz maalefnin, sem fegiafir dickta fyrir þeira briosti. Sua sækiaa þeir sina ferd med miklum pris, þar til er þeir koma sudr um sio, ok þaa somu nott sem Thomas erchibyskup tok aa litlum bati ut af Eingländi ok feck bliduidri, feingu þessir (i) storu skipi sua mikit vaas bædi storms ok ofsæuis, at þeim hellt vit haska. Sem þeir voru komnir i Flandr, hallda þeir þegar fram aa ueg, ok þann sama dag at aptni, sem Thomas erchibyskup hafdi farit aadr um morgininn af klaustri heilags Audomari, koma þeir i stadinn ok æru þar um nott,

Digitized by Google

ok þo leynizt fyrir þeim, huar byskupinn ferr. A næsta morgin rida þeir ok sækia upp i Franz.

Verdr nu heilagr Thomas erchibyskup sannliga uiss af þeira ferdum, ok gerir, sem hann uar uanr, med mikilli uitzku sin raad ok utuegu aa þann hatt, at hann sendir meistara Herbert ok enn annan sinn klerk uitran mann at slaz i foruneyti med sendibodum konungsins uuitandum, at þeir megi aull þeira raad ok framferdi þui smaasmugligar skilia, sem þeir fylgia faastara. Sua fara þessir eptir, sem hinir fara undan, ok hafa dagliga uissu af, huat þeim lidr.

Er nu ecki fyrr at segia af sendibodum Heinreks konungs, enn þeir koma i þann stad, er Kompin heitir. Þar finna þeir Hlodui Fracka konung, ganga fyrir hann ok kuedia, sem honum somdi, tiaa honum sidan bref Heinreks konungs af Einglandi. Huert uppbrotid hefir likan skilning, sem fyrr uar skrifat af Philippo iarlli, at saa Thomas, er fyrr uar Cantuariensis erchibyskup, hafi ur hans riki sua flyit ok farit sem einn suikari. Her med stendr sua, at Heinrekr konungr bidr Hlodui konung sua sinn herra, at hann lati þann Thomam huarki hafa fridland ne nockura naad i ollum Franz. Sem Hloduir konungr hefir brefit ifirlesit, hitnar hann i sinu hiarta med gudligu vandlæti ok herdir sinn hug i moti þui ordi Heinreks konungs, ær hann kalladi Thomaam sælan (at) sinni aftignadaan ok undir suikara nafn settan, þuiat forligt ord gerir optliga stygd godum manni, þuiat Salomon segir, at saa einn maa uitr kallaaz, er tempra kann sina tungu. Hlauduir konungr talar þa: „Her stendr sua skrifat, saagdi hann, at Thomas se aflagdr sinum heidr ok ualldi, enn ver spyrium ydr, huerr þat matti med rettu gera at deponera hann. Þat er kunnigt, at Heinrekr er konungr i Einglandi, ok uer ærum rettr konungr æigi sidr her i Franz, ok megum ver þo æigi þui helldr aftigna einn minzta klerk i ollu voru riki.“ Enn er Heinreks konungs sendibodar heyra þuilikt andsuar, ær eingi þeira sua haardr, at uernda kynni þat, er hann saagdi, faa þeir ok eingan orskurd af Hlaudui konungi, þann er þeir megi bera sinum herra. Ok þui taka þeir fliott orlof ok gera sinn ueg framm til Sennonisborgar.

Enn eptir þeira bruttferd af Kompin koma þar næsta daag sendibodar Thome erchibyskups. Þeir beidaz einkanliga at finna konunginn, þuiat þeir hafa bref erchibyskups til hans, i hueriu hann kynnir konunginum sina utlegd, bidiandi fridlandz i hans riki fyrir guds skylld. Þeir faa fliott orlof, þuiat Fracka konungr tekr þeim med sannri blidu, einkanliga i þann punkt sem þeir bera honum kuediu erchibyskups, þuiat honum hafdi Thomas alla tima hugþeckr

Digitized by Google

uerit, af fyrsta er hann uard Heinreks konungs canceler, fyrir þa dygd ok mikilmenzku, er hann ueitti sinum herra med heilum rædum rettrar skynsemdar. Enn sakir þess at Fracka konungi æru þessir badir menn ukunnigir, sem nu standa fyrir honum, spyr hann þa sua fallit: „Eru þit af heimamonnum Thome erchibyskups?“ Þeir segia sua uera. Konungrinn tekr þa hæuerskliga moti þeim bædum ok minniz til þeira. Sidan tekr hann Herbert til frasagnar, greinandi þa mædu, er Thomas erchibyskup hafdi þolt æ sio ok landi, sidan hann for brutt af Nordantun, segir hann ok konunginum, hueriar meingerdir ok afarkosti hann feck, adr enn hann fordadi ser med flotta. Enn er Hloduir konungr heyrir sua hormuliga rædu, taraz hann med heilagri sampining. Sidan segir hann þeim innuirduliga, huat Heinrekr konungr hafdi skrifat til hans æ skada erchibyskups, ok huerssu hann hafdi suarat, ok enn talar hann: „Heinreki konungi hefdi nytsamligt verit æ þessi tid at hugleida, huat Dauid setr sua rettskyrt[1] i salminum, at su reidi er ein abyrgdarlaus fyrir gudi, sem æigi snaraz i gegn hans logmali, ok æigi riss med yfirgirnd, helldr af harmi laugbrottzins.“ Her med til suarar meistari Herbert: „Minn herra, sagdi hann, þessarrar ritningar mundi konungrinn giarna geymt hafa, ef hann yndi ser iafnuel i kirkiunni sem þer, þa ær þuilikt uerdr sungit.“ Konungrinn brosir at ordum hans. Brytr nu upp þessu næst bref erchibyskups, er stendr med þeiri beislu, sem adr var sagt, ok þo suarar konungr eingu þar til at sinni. Eru sendibodar æ konungs gardi um nottina frialsliga reiknadir bædi med blidu ok godum kosti. Enn um morgininn timanliga kallar konungrinn sitt ræd, birtandi þeim bref ok beizlu erchibyskups. Geingr þat fliott, þuiat allir standa med, at þat hafi godan enda. Eru þui næst sendibodar innkalladir. Konungrinn taladi sua til þeira: „Herra Thomas hefir skrifat til uor sua fallin ord, at ver munim gefa honum fridland i uoru riki, ok þat uilium ver gera giarna, þuiat krunu Fracka konungs hefir þat leingi fylgt at utlægia æigi saklausa, helldr at hialpa þeim, sem utlægdir uerda fyrir uandlæti guds bodorda.“ Þeir þacka honum hæuerskliga af halfu Thomas erchibyskups, taka sidan blidt orlof ok hafa sik fram i ueg til Sennonis, sem herra Thomas hafdi bodit þeim.

*Af sendimonnum Thome.*

41. Sem sendibodar Heinreks konungs koma degi fyrr med rikdom ok presentum fram i pafagard enn fatækir sendimenn Thome

[1] reirttskyrtt *Cd.*

erchibyskups, yta þeir þegar bædi flutning ok fiarlut uid cardinales ser til fylgis. Var þar suo skipat, sem hattr ær heimsins, at menn æru mislikir, adrir tapa rettuisi ok fylgia femunum, enn adrir ottaz gud ok sinna logunum; adrir segia Heinrek konung i Einglandi hardlaa rettuisan ok stiornsaman, enn Thomam erchibyskup framgiarnan ok forzugan; adrir mæla þuerss i mot; adrir mæla þat, at erchibyskup frammi standi med guds retti, sem hann sor i uigslu sinni, ok þui kalla þeir skylldugt, at hin romuerska modir styrki hann i logligri framferd, enn beriz æigi mot þeim, er hun aa at efla til allra godra luta. Vel maa sua kalla, at cardinales geingi med þrætum i tuo stad(i), þuiat sumir ruglaz af aagirnd, sumir af otta, fyrir pafans hond ædr sina, ef Heinrekr konungr hefir æigi fullnat allraa sinna[1] maala, ok þui uilia þeir þat ecki heyra, sem erchibyskupsins maalum ær til greida, ok æigi uilia þeir minnaz vid hans boda, sem þeir koma aa gardinn. Þat angrar miok þa kumpana, þuiat þeir skiliaa uel, at slikir æru uinir Heinreks konungs enn aufundarmenn erchibyskups. Þo flytr drottinn sua þeira maal, at þeir faatækir faa fyrr orlof sama dags sinnar þarkuomu inn fyrir herra pafann enn byskupar fullrikir at fe. Enn er þeir koma inn, kuedia þeir virduliga, sem vert var, postoligan herra, bera honum þar næst audmiuka kuediu[2] sins uirduligs fodr Thome ærchibyskups. Þeir segiaz fyrir þa sok þar komnir, at kynna herra pafanum, huat ærchibyskupi *lidr*. Byria þeir þar med orlofi herra pafans i fyrstu, huersu Thomas erchibyskup var ofsottr i Nordantun af Heinreki konungi ok hans stormenni. Her næst, huersu hann fordadi ser med leyniligum flotta, sidan hueria farleingd ok uegarvas, er hann bar landz ok laagar allt fram i klaustr sancti Bertini. Enn er Alexandr pafi hafdi heyrt rædu þessa, kemz hann vid ok klaukkr af huggædi, enn talar sidan: „Thomas erchibyskup, sagdi hann, lifir enn i likamanum, ok þo krunaz hann þegar med pislaruættis fegrd i andanum.“ Sua segir hann blezadr ok gefr sendibodum ærchibyskup(s) blitt orlof m(ed) postoligri blezan til sins herbergis.

Enn þegar aa næsta morgin sem cardinales æru samt komnir i consistorio herra pafans, kallaz þagat sendibodar Heinreks konungs, bædi byskupar ok leikmenn. Þar koma ok sendimenn heilags Thome, at þeir megi heyra, huat geriz, þott þeir standi lægra ok flyti færra. Sem kominn ær heyriligr timi stefnu þeirar, synir enn Gillibert af Lundunum sina mikilmenzku, þuiat hann stendr fyrstr upp ok tekr sua til eyrendis upp aa personu pafans: „Heilagr fadir, sagdi hann,

[1] sina *Cd.* [2] kuedia *Cd.*

almennilig stiorn heilagrar guds kristni vikr at ydr þeiri forsio yfir andligum sonum ydrum, at þeir er uel uilia, styrkiz med yduarri rauksemd þat gera, sem þeir skilia reitt, enn þeir rangt skilia med illum uilia, sie af pafaligu valldi sua hirtir, at þeir snariz fra illu ok geri gott. Saa madr truiz æigi ydarri uitzku uel lika, er ser einum truir ok eingis manz raad uill heyra, vtan helldr gera allt med brædi ok sinu einrædi, berandi sundrlyndi medal var byskupanna, at huerr hati annan, virda eingis ualld ok uilia konungs af Einglandi, nema helldr leggia hans herradom sua odyrt sem allz ecki. Sua ueit vit, sem ek kann segia ydr, at nyliga hefir upp sprungit mikit missætti millum kirkiunnar ok konungs i Einglandi, er audueliga myndi lægz hafa, ef goduili[1] ok uizka hefdi um geingit meirr med stilling enn stridu, meirr med raadi enn rasandi forzi. Thomas erchibyskup eignaz þann lut at heyra eingis manz raad, æigi helldr var byskupanna enn annara, ok þui ferr hann med sinni framleypi þat er hann fysir, þat er unaad ok mar(g)falldr oroi. ær sturlar[2] fridsama menn. Þuiat hans aakefd gefr eyngu gaum, æigi timunum, ei skynsemd[3], helldr egndi hann ser ok oss byskupunum þer snorur, at ef uor uizka hefdi æigi skilit þaa somu þialma, myndi þessi mal enn til uerri lyckta leidt hafa. Enn sidan ver fordudumz hans umsaatir, sneri hann sinum glæp upp aa herra konunginn at uanuirda sua allt hans raad ok riki. Her med ufrægdi hann oss brædr sina, ok til þess at hann mætti bædi konunginum ok oss fyrirmæla, uann hann sua uheyrdan lut[4], at hann flydi sitt fostrland fyrir utan ogn ok afarkosti. Þui maa honum uel segiaz, at hann flyrr hinn omilldi, þott eingi biodi honum ofriki[5]." Sem her er komit æyrindi byskupsins, talar herra pauinn: „Þyrm, brodir!" sagdi hann. Gillibert suarar: „Sannliga mun ek þyrma honum." Herra pafinn segir: „Eigi bidium uer, at þv þyrmir honum, helldr sialfum þer." Vid þessi ord sliofar sua drottinn uit ok skilning byskupsins, at æigi geck sidan ord af hans munni.

Enn Hilarius byskup tekr sidan til maals, er meira traust hefir aa sniollum framburd glæsilig(r)a orda enn aa sannyndum mætra skynsemda. Hann segir sua til herra pafans: „Heidarligr fad(i)r, segir hann, ydarri hæd ok heilagleik til heyrir aptr at kalla ok enndrbeta[6] vtan alla duol til fridsamligrar farsælldar ok rettrar uppreistar, huat er kristni guds ok almuganum verdr til aaskilnadar, sem nu hafi þer heyrt af Lunduna byskupi um hrid. Þer megit

[1] goduilia *Cd.* [2] styrlar *Cd.* [3] skynsend *Cd.* [4] lyt *Cd.* [5] afriki *Cd.*
[6] enndrbetr *Cd.*

æigi dissimulera, ef eins manz uanstilli sturlar heilaga kristni med dul ok drambuisi, ok þess kostar at huerr hati annan. Harmr er oss þat, er Thomas erchibyskup hafnar huerss manz radum ok dictar sua meinliga utuegu med sinu einrædi, at hann megi ser ok sinum herra konunginum, þar med lærdum ok leikfolki, sem mestar unaadir inn bera. Enn slik framferd i kristni guds heyrir aa eingan ueg sua mikilshattar personu, ok þui skilduz þeir rettliga vit hans forz ok raadleysi, sem adr uoru hans undirmenn af skyllduanni." Byskupinn talar sua snialla latinu, sem huert ord veri skreytt, ok þui þickir monnum sem nockur uerallig gledi, huersu listuliga hann þyckiz sina tolu greida. Hedan geriz sua, at hlatr mikill brestr upp i herberginu, þuiat menn hofdu leingi bundiz. Her med leggr honum einn rikr madr byskupinum sua fallin ord: „Seint ok illa komtu til hafnar." I þessu ordi gerir gud byskupinn sua þauglan, sem hann hafi latid tunguna.

Enn er Rodgeirr erchibyskup af Jork ser þat, huersu þessir tueir hafa farit, hugleidir hann nu med ser, at honum skal æigi sua takaz, at nokkur ueiti honum hlatr fyrir sina uanstilli, helldr skal hann tempra sik med megni, huat sem honum byr i skapi. Hann hefr sua sitt maal til herra pafans: „Verk ok uili Kantuariensis erchibyskups fra upphafi æru eingum kunnari enn sialfum mer, ok þui kaann ek lysa, huerr hans lund er, at þat er hann hefir statt um sinn, mun hann æigi auduelliga um uenda, ok þui maa skilia, at þat hugar hardindi[1] hefir hann fætt med longum uuana fyrir þaa grein, at hann profadiz iafnan madr sua þragiarn. Þui ser ek æigi likara utueg honum til hirtingar, enn ydr skilning ok skipaan leggi honum heillt raad med hardri hendi, sua at hann megi kenna sialfan sik." Sem her er komit taulunni, huiliz hann litla hrid, enn leggr sidan til þessi ord: „Þat uænti ek, sagdi hann, at þeim, er undirstanda min ord ok uorn uanda Einglismanna, negiz uel, þott ek taali æigi leingra." Sem hann þagnar, talar Bartholomeus sua til herra pafans: „Heilagr fadir, sagdi hann, þetta maal þarf æigi draga monnum til mædu med ordafiollda, þuiat sua mikit efni geingr æigi til uegar, fyrr enn Thomas erchibyskup er nærr. Þui bidium ver ydart ualld, at þer skipit þa legatos af ydru sæti, at þessum malauoxtum ueiti logligt prof, ok ydr sua flyti, sem fallit er." Eigi taalar hann fleira. Vigornensis byskup þagdi aa stefnu þessi, ok maa þat truaz af godum uilia, þuiat Thomas ærchibyskup var uigslufaadir hans, sem fyrr sagdi. Enn þessu næst stendr upp iarllinn Vilhialmr

[1] hardinni *Cd.*

af Arundinel, bidr orlofs at tala nockur ord, ok þui gefnu hefr hann sua sina rædu: „Heilagr fadir, sagdi hann, huat er byskupar þessir hafa talad um stund, er oss med ollu leynt, er æigi undirstondum latinu, þui hæfir oss eptir uoru uiti at gera ydr kunnigt, til huers ver ærum sendir aa ydarn fund af minum herra konunginum. Eigi er þat uart eyrendi at efla þretur ædr meinmeli, einkanliga sizt fyrir sua agætum herra, sem þer erut, huers bodi ok banni aull kristnin hneigir ok allt iardriki lydir, helldr ærum ver komnir at bera ydr bref ok eyrindi mins herra konungsins af Einglandi, birtandi þann goduilia, er hann ųęnst at uænda til ydar ok enn uendir hanp. Enn fyrir hueria matti hann sina giæzku ok goduilia ydr kunnan gera næma uollduguztu menn[1] af sinum londum? Hefdi hann þessum ædri[2] fundit, veri þeir giarna her komnir sakir yduarrar tignar. Væl er ok minniligt, huilikan ueg ok uirding minn herra konung(r)inn ueitti ydr ok heilagri Roma kirkiu i uigslu sinni, þaa er (hann) setti sik ok allt sitt godz undir ydart ualld ok uilia, ok þat ma med sonnu segiaz upp aa mina tru, at herra konunginum i Einglandi finz eingi uerالldar stiornari til fridargiæzslu traustari ok til ydar godfusari. Sua ær ok æigi sidr Thomas Cantuariensis erchibyskup uel uordinn i sinu[3] ualldi ok uitrleik, þuiat hann ær bædi skygn at greina sik ok adra, þott nockurum syniz hann nockut forr ok frammhuass. Ok ef þessi sturlan veri æigi til uor innkomin, mundu lærdir ok leikmenn med fagnadi lifa undir godum konungi ok hinum bazta[4] ærkibyskupæ. Þui ær su uar bæn einkanlig til ydar, heilagr fadir, at ydart ualld ok milldi beri þa forsio[5], at þetta strid mætti lida, enn fridr formeraz med fagnadi sannrar elsku." Jarllinn taladi sua heidarliga upp aa sina modrtungu, at margir lofudu miok.

Margt var talad aa stefnu þeiri, þuiat sendibodar Heinreks konungs hofdu margan vtbriot, at hans uili mætti fulgeraz. Su er ein þeira umleitan, at herra pafinn dæmi konunginn rettuisan i ollum skiptum þeira erchibyskups, ok æigi er fegra, enn þetta flytia med þeim nockurir cardinales, er meirr elska presentur Heinreks konungs enn frumtign heilagrar kirkiu. Enn i þessarri raun stendr uel herra pafinn, þuiat hann ottaz uel skapara sinn ok þickiz uist uita fyrir skilrikra manna fluttning, at allar gerdir Heinreks konungs, er at uikia kirkiunni, æru med eyngum hætti logleidandi. Saa er annarr Lænastadr konungsmanna, at herra pafinn biodi Thomasi erchibyskupi upp aa hlydni, at hann fari heim i Eirgland til kirkiu sinnar ok geri eingum manni unadir upp hedan. Alexander pafi duelr þat,

[1] m'm Cd. [2] ædrir Cd. [3] sinnu Cd. [4] konungi ok tilf. Cd. [5] fiorsio Cd.



Digitized by Google

þuiat honum þickir ug(g)ligt, ef sua geriz, at skipti þeira konungs ok erchibyskups fari nockut likt sem midil herra dyflizunnar ok bandingians, þa er annarr lemr, enn annarr liggr undir. Sem þetta huarki ueitiz, ær su þridia umleitan, at herra pafinn geri sina sendiboda til Einglandz at profa malin ok urskurda sidan allri appelleran fraskilldri. Ok þetta syniz herra pafanum vel sagt a nockurn hatt, ok þo ferr hann undan þessum ueg, þuiat hann treystir eyngum sinum undirmonnum til þeirar rettuisi, at þeir standi uhallir i þeim hædar mun, sem nu syndiz i millum konungs ok erchibyskups, ok þui lycktar sua stefnuna, at sendibodar þiggia med ollu ecki utan þat, at herra pafinn gefr þeim orlof ok eggiar, at þeir bidi þar Thome erchibyskup(s), þuiat i hans fraueru [segir hann[1] eingan veg a geranda malinu. Ganga sua sendibodar ut af stefnunni, at helldr uit hot, huerssu þat muni lyda, er konunginn i Einglandi skal eingis uirda, segiaz æigi þora upp a sinn hals at dueliaz leingr i kuria, enn þeim var bodit, ok skiliaz med litilli blezan vit sua buit. Rida þeir sua brutt af Sainz, at flestra[2] þeira ord uoru meirr hardlig enn heilaglig, meirr med reidi enn rettuisi. Ok þvi fari þeir nu, sem uegr uisar, enn ver snuum þessu næst til hins heilaga Thomam, þar sem (hann) var uppgefinn i klaustri sancti Bertini.

*Thomas kom i curia.*

42. Sendibodar herra Thomas erchibyskups voru nærr ok heyrdu, sem fyrr var sagt, huat er fram for i dagþingan fyrir herra pafanum, ok þui taka þeir blidt orlof med postoligri blæzan aptr uendandi sinum ueg. Hafa þeir at flytia sinum herra þau tidindi, sem helldr blidaz hann med, bædi af herra pafanum ok Fracka konungi, sua ok at hans motstodumenn feingu ecki eyrendi. Þui syniz heilogum guds manni at finna herra pafann fyrr enn sidarr. Weitir gud drottinn honum nu þegar sua mikla huggan, at uirduligir menn koma til hans biodandi honum sitt fylgi upp i Franz bædi honum til sæmdar ok traustz moti ouinum. Ma þar til nefna tignaztan mann, er heitir Rollu Treuerensis byskup ok annan[3] Gottskal abota. Sua ridr herra erchibyskup ut af klaustra heilags Bertini upp i Franz til þeirar borgar, er Suescon heitir, ok duelz þar um nottina. Ok þegar a næsta dag eptir med guds uilia kemr þar Hlauduir Fracka konungr, synandi sælum Thomasi sua mickla blidu, at an duol geingr hann til þess herbergis, er erchibyskup sitr i. Verdr þar mikill fagnafundr med tueim godum monnum. Harmar herra

[1] [segia þeir Cd. [2] fleistra Cd. [3] annat Cd.

Digitized by Google

konungrinn þær þynganir, ær ærchibyskupinn hefir þolt, ok þar med segir hann sua: „Alla þa næd ok naudzyn, sem þer uilit af voru riki þiggia, skal i ydru ualldi uera. Godz uart ok sannr goduili skal ydr styrkia sua leingi, sem var herra þolir, at þer þurfit værra uelgerda.“ Þenna frialsleika ok sua konungliga milldi þackar hinn heilagi Thomas med fogrum ordum. Duelz hann i Sueskon um nockura daga, enn tekr sidan blidt orlof. Gerir Hloduir konungr hann sua uel af gardi, at hann færr honum marga sueina af sinu hirdfolki bædi til uegaruisis, ok at hann hindri eingan lut þann i sinni umreid, er hann þarf ath hafa. Sua kemr herra erchibyskup i pafagard, ok þar kominn finnr hann skiott ok bratt, at cardinalæs venda sumir til hans litilli blidu, ok skilr hann glaugt, huadan þat leidir, enn ægi þui sidr færr hann blitt orlof sama dag inn fyrir herra pafann. Er þar likt ordfelli ok fyrr uar lesit af Fracka konungi, þuiat rekstr ok mædu ærchibyskups med utlegdar pinu harmar herra pafinn ok hans cardinales, þeir er sin hiortu syndu med gudi. Ok eptir litla stund talar sua herra pafinn til ærchibyskups: „Nu at sinni, brodir uorr, munu þer taka huild ok herbergi, enn koma fyrir oss i morgin ok bredr uora med frammsettum greinum, er snaraz millum kirkiunnar ok konungs i Einglandi.“ Þetta geriz sua, at herra Thomas tekr blezan til herbergis.

### *Er Thomas tess sakir.*

43. Sem heilagr Thomas sitr nædugt i sinu herbergi, birtir hann klerkum sinum þa skipan herra pafans, at a næsta morgin er kemr skal honum tiaz med greinum aaskilnadar efni þeira Heinreks konungs. Yrkir hann a þa, ef nockurr uill þenna framburd a sik taka. Enn þat er fiiott at flytia, at her um segiaz allir uanfærir, ok þui skilr herra Thomas, at þessi uandi uill at honum luta. Kemr nu svæ tima, at hann er innkalladr ok suo uirduliga tekinn af herra pafanum, at hann skipaz rett hitt næsta til sætis honum. Ok eptir hugsanartima litinn talar ærchibyskup sakir pafuans uirdingar at flytia standandi sitt eyrindi. Enn herra pafinn gerir honum signum, at hann siti. Sidan byriar hann sitt mal med þuiliku upphafi: „Þat er monnum kunnigt, sagdi hann, at ek uar fordum med Heinreki konungi, ok þa bar ek hugsan fyrir þui, at mik skylldi ægi stort greina mot hans uilia. Enn sidan gud drottinn þoldi, at ek uikiz þadan i brott til nockurrar forsio heilagrar kirkiu, þott ouerdugr, syndiz mer, sem ek leiddiz ur þui rumi at gera allt, sem konungrinn uilldi. Nu hefir ek litt skipat mik aunduerdan hans uilia, ok



Digitized by Google

þegar flydi fra mer aull hans uinatta. Enn þott hon hafi firdz mik um tima, þarf ek þar um eingis mannz fylgi, ef ek uil hana aptr kaupa, þuiat ef ek segi iaa ollu þui, er hann uill, þa er hann sattr uit mik. Nu þott felagar minir einskir menn ordfleyti þat, at ek hafi fyrir lausung eina lyptz or minu ættlandi, þa ær þat æigi fagr fluttningr. Ef sekum manni þyckir iafnan su meingerd mest at utlægiaz fra sinu fostrlandi, þa semdi mer hardla litt at firraz mina kirkiu, mina hiord ok skylldu, ok þola þenna uansa utlegdar ok fatæktar utan skynsemdar sauk, utan helldr at eins til lytis ok amælis. Ok huersu þat er i sannleik, kann uera med guds uilia, at her lysiz.“ Sidan brægdr hann upp rollu einni, er hann bar fordum af Clarenthun, ok aa standa uanar konungs i Einglandi. Ok talar sidan til herra pafans: „Heilagr fadir, sagdi hann, her er min utlegdar sok, ok ef þer orlofit, fari hon bædi samt her i dag undir ydra heyrn ok þann urskurd, sem þer vilit aa leggia, þuiat æigi kendi ek þat mins ualldz at samþyckia þer nyiungar, sem her standa skrifadar.“ Herra pafinn bydr, at þer heyriz. Sidan less erchibyskup.

Stendr þar sua i fyrstu, sem konuugsmenn dicktudu, at þuilikir æru konungs uanar i Einglandi:.

Ef lærda menn skilr aa ædr leikmenn, lærdan ok leikmann, um einhueria rentu edr inntekt heilagrar kirkiu, þa skal þeira aaskilnadr profaz aa konungs gardi ok urskurdaz.

Saa annar: Huat sem tueim klerkum ædr fleirum uerdr til aaskilnadar uid leikmenn, komi þeir aa konungs gard ædr stefndir fyrir syslumenn, ok eptir þeira raannsak aa mali klerkanna, sendiz þeir um dom byskups. Ok þui sua, at konungs ualld ok leikmenn megi þui framarr skilia, med huilikri skynsemd kirkian semr sina doma. Enn ef klerkr fellz fyrir uottum ædr uidr geingr, þa skal hann sidan einga uernd af kirkiunni hafa.

Sa þridi: Eingi erchibyskup ædr liodbyskup ne nockurr af meirum formonnum kirkiunnar skal fara brott af Einglandi, nema med konungs orlofi, ok þo sua at þeir sueri þann eid at gera konunginum eingan uantrunad i sinni bruttueru.

Saa fiordi: Þott leikmadr hafi bannsettr uerit af byskupi, skal hann eyngan[1] eid sueria, adr hann leysiz, helldr at eins fram iatta sik aa dom kirkiunnar.

Saa fimti: At saa skal eingi bannsetiaz af byskupum, sem hefir konungs uaalld ædr herradom i landinu, fyrr enn konungr er fundinn ædr hans umbodsmadr, taki þa landz laugmadr til sin ok orskurdi

[1] eymgan Cd.

Digitized by Google

þat, er konungdæminu heyrir. Enn þat er iustisar leyfa kirkiunni, fari til byskups.

Sietti: Su skal appelleran i Einglandi, er erchidiakn gerir til byskups, ædr liodbyskup til erchibyskups. Enn ef erchibyskup fyrirneinz at gera rett af, skal konungs ualld þrysta honum at dæma, þuiat til herra pafans skal æigi appellera brott af rikinu.

Siondi: Ef erchistoll, byskupssæti, abotadæmi ædr priors æru hofdingialaus fyrir fraafæll sinna formanna, luta þegar allar þessær eignir ok innrentur vndir konungs gard til ærligrar aftektar. Enn þann tima sem konunginum likar, at madr kiosiz i stad hins framfarna, kallar hann sæmt i sina kapellu þa lærda menn, sem hann uill at med þeira samþykkt ok sinu raaduneyti kiosiz formadrinn. Ok i þeim sæma stad skal kiorinn eid uinna at uera konunginum trurr til lifs ok lima ok veralligra sæmda.

Sæ er hinn attandi: Ef sekr madr ryfr logsamda stefnu byskups ædr erchidiakns, mæ hann forbodaz enn æigi bannsetiaz, ef hann er af þeiri borg, kastala ædr bæ, sem konunginum til heyrir, þuiat ualldzmadr af konungs halfu yfir þeim stad, ær stefndr sitr i, skal gera[1] rett af honum. Enn ef hann uanrækir, sæ stefndr æ konungs miskunn, ok þa mæ byskup hirta þat er hans ær i mælinu.

Sæ er hinn niundæ Heinreks konungs uani: Ef lærdan ok leikmann skilr æ um einhueria eign, huart hon heyrir kirkiu til ædr konungs ualldi, nefniz i dom þar yfir tolf menn af leikualldi, huarr rettara mælir, ok huart er þeir dæma eptir atuikum undir konungs ualld ædr kirkiunnar domara.

### *Er Thomas yfirvann kardinales.*

44. Sem her er komit framburdi herra erchibyskups, birta kardinales, huerir þeir uoru, ok huersu fiarri þeir foru rettlætis ueg i mælum þessum fyrir oleyfda uingan Heinreks konungs, ok ma þo serliga nefna til þess efnis einn kærazta konungsins uin i curia, er heitir herra Uilhialmr kardinalis, byskup af þeiri borg, ær kallaz Papia. Hann setr sik berliga fram i fylgi med konunginum med sua morgum utuegum, at þat aflar guds manni mikla mædu æ þeim degi, þuiat kardinalis sparir huarki klerkdom ne klokskap at hafa uti badar hendr, adra[2] til lofs ok eptirmælis vid konung i Einglandi, enn adra til lytis Thomasi erchibyskupi. Suo til eptirmælis vid konunginn, at allar þær þynganir, sem nu voru lesnar upp æ skada kirkiunnar, skreytir hann ok fegrar med falligum lit af rettindum

[1] gert *Cd.* [2] adrar *Cd.*

laganna, at þui framarr megi þat lofaz ædr med nockurum hætti uel þolaz. Enn gerdir guds manz i framferdir ok flotta leggr hann sua lægt, at hann setr honum spurningar grein, hui hann lysti einn primas at leida sua mikinn oroa inn i guds kristni fyrir sua litid efni. Enn æstundan þessa kardinalis greinir su bok, er heitir Speculum Hystoriale, at hann hugdi byskupinn minna briostz ok ueykra, enn sidan reyndiz, ok at hans frammburdr fyrir herra pafanum myndi annarligrar uitzku ok ordfellis æenn æigi hans undiratodu, ok þegar nyteknar greinir ridi at honum med uuoru, myndi hans fauitzka fordiarfaz ok faalla til hinnar mestu hadungar fyrir sua dyrum herra. Enn þetta for allt a adra leid, enn hann hugdi, þuiat saa feck snjuirdu, er til hennar hafdi saad, þuiat flærdin kann þat opt uinna, at hon særir opt sinn upphafara. For ok sua i þessum stad, þuiat þenna dag uard ollum liost framarr enn fyrr, at uirduligr herra Thomas erchibyskup var nogligarr græddr eiginni uitru fyrir gudliga milldi, enn nyliga særdr af ser lægra manni, ok þott æigi se langt um gert, maa merkiligt synaz uitrum manni, huersu hann confunderadi þenna cardinalem. Enn þat er sua fallit, at (i) fyrstu hlyddi hann athugliga ollu hans eyrindi, enn sem þat uar vti, byriar hann i sinu annsuari þa grein fyrsta, sem honum gaf fyrsta. Enn huersu hann leysti i sundr i lidu allt þat flærdsemdar net, er cardinalis hafdi egnt a frelsi kirkiunnar, bar mikla dasemd i hiortum heyrandi manna. Þuiat fyrr nefnt Speculum segir, at af ser greindum decretis heilagra fedra leiddi hann skilrik uætti, huersu sa uani ok þessi annarr þueradiz mot kirkiunni, ok hueria meinsemd hann flutti guds folki, ef hann efldiz i kristninni, ok þui er klednadr kardinalis i brott, ok nu ollum biart, at hans umlidin ord uoru framar lygd enn log, framarr fottrod enn fridr lærdomsins. Ok þui fell, sem gud uilldi, at her af feck hinn heilagi Thomas hina mestu uirding lædi af herra pafanum ok ollum þeim, sem ofundar myrkrin hofdu æigi blindat. Enn þeir sem i diupit uoru dregnir, mattu æigi hit sanna sia. Enn æ uerdr liost i fylgiondum greinum, huersu pafans skynsemdar auga uar glaugt uordit i reitta syn eptir heilagri skyring ok logsamdri herra Thomas erchibyskups, þa er hann orskurdar ok afdæmir þat. (er) fordæmiligt er, enn leggr þat undir uægd, sem honum uirdiz kirkiunnar rettr þola mega, sem i þui lysiz sem eptir ferr.

### *Afdæmdir vanar Heinreks konungs.*

45. Þeir niu uanar, er fyrr lasuz in consistorio domini pape af hoflausri yfirgirnd Heinreks konungs, uoru mestir ok meinlegztir

Digitized by Google

heilagri kirkiu. Enn þeir sio, sem æigi æru greindir, syndaz med nockurum hætti þolligir. Enn af þeim .ix. sem hærra ganga, harmar sua herra pafinn, at hann maa æigi tarum hallda, at nockurn kristinn konung skylldi lysta at draga sua margfalliga undir sik heilagrar kirkiu reitt mot guds bodordum ok heilagra fedra setningum, ok þui setr hann sa endaligan orskurd, at þessir niu uanar æru boluadar sidleysur ok afdæmdar allri guds kristni. Sem þenna sentonciam hefir pafinn dicktad, snyz hann til Thomam erchibyskups ok talar sua: „Þessir uanar bera uitni, huerssu þer fellut hatt, brodir, þa er þer samþycktut ædr forud i nidrbrot uigslu yduarrar at hallda þa mot almenniliga frelsi kirkiunnar. Ok ef þer hefdit seinna upp risit ok æigi lausn af oss þegit, stædi ydart mæl med miklum voda, þuiat huski uigslunnar, er þer uunnut, bæri ydr brutt or þeiri sæmd ok ualldi, er þer tokut. Enn nu se gudi lof, at þat er (þer) misgerdut, leiddi hans miskunn ydr fyrir ægu, ok (þer) enndrbættud sua uel ydarn stett, at fyrir logliga stadfesti hafi þer nu þegar tekit motkaust ok meingerdir, fatækt ok utlegd, ok þui er ydr bædi neitandi saunn elska ok allr sa styrkr, sem hin romuerska modir kann ydr ueita ok maa ydr leggia. Ok med uorri blezan farit i guds signan til ydarra herbergia." Lykr sua þeiri dagþingan, at huerr tekr sina næd.

*Er Thomas resigneradi.*

46. A næsta morgin eptir, sem vanar Heinreks konungs voru dæmdir, ok herra pafinn med cardinalibus sitr i sinu herbergi, kemr Thomas erchibyskup at utan ok bidr orlofs. Sem þat er þegit, geingr hann inn ok knefellr fyrir herra pafanum med þuilikum ordum: „Þat krefr gud af kristnum manni, at hann segi sannleik bædi af hiarta ok munni, ok þessi skyllda stendr i huerium stad enn einkanliga fyrir ydarri æasianu, heilagr fadir. Þui iatta ek, at uesall glæpr færir þau þyngsl at heilagri guds kristni, sem hon þolir i Einglandi, þuiat æigi geck ek inn um rettar dyrr i saudahus heilagrar guds kristni vars lausnara Jesu Kristz, þuiat til þessa ualldz ok uirdingar kalladi mik æigi laugligr kosningr, helldr var ek med konungligri ogn ok uilia settr i þetta sæti. Þar med for þat, at ek iatti meirr þeim vanda moti minum uilia fyrir konungsins skylld enn skapara mins. Þui er æigi undarligt, at mer gangi margt gagnstadligt. Enn þott min inganga til guds embættis sæ mer hardla ottanlig, þordi ek æigi þui helldr at gefa erchistolinn i ualld Heinreks konungs, þott ek ueri þess fystr af brædrum minum. Enn nu med guds uilia er ek kominn i þann stad, at þessum uanda maa ek rett-

liga af mer uik(ia). Þui gef ek minn ærchistol upp i ydart ualld, heilagr fadir, at æigi verda ek syndugr ok uanfærr þeiri hiord til gratligrar hrapanar[1], sem ek ætti at stiorna til eilifs fagnadar.“ Sem hann hefir sua sagt, dregr hann af ser uigslugullit ok fær herra pafanum, bidiandi hann kiosa Kantuariensi kirkiu annan formann sterkara i gudligu stridi: „Þuiat ek næm alldri at kiosa ne bera byskupsins tign ok nafn med skylldugu embetti.“ Eptir sua talad geingr hann ut af herberginu. Enn herra pafinn sitr eptir med tarum, ok flestir er inni satu, þuiat sua hryggilig ræda af þuilikum manni framborin ok framflutt matti godum monnum hugkuemilig vera, þeir ok, sem voru heilogum Thomasi heimolligir, æru fallnir i mikit hugarangr, ef hann fær eingua uppreist, enn þeir staddir i (u)kunnu landi, ok þui æru þeir þurfandi gudligrar hugganar, ok hana fa þeir skiott, sem nu mun ek segia[2].

Herra Alexander pafi tekr nu til med cardinalibus af þessu efni ok æskilnadi millum konungs ok erchibyskups. Ok þegar æn duol bresta upp ymsar tillogr, þuiat nockurir segia, at þat muni konunginum uænaz til hugbotar, ef skipt er formanni[3] i Kancia, med þui at Thomas hefir uilianliga resignerat. Þat segia þeir ok honum sialfum fridvænna, at honum[4] se skiput onnur kirkia. Enn þeir er þetta til logdu, uissu med ser, huart þeim var nælęgri presentur konungs i Einglandi ædr saatt fridkaup heilagrar kristni. Hær i mot falla adrir cardinales, er sua segia: „Mun þat rett fyrir gudi, at Thomas erchibyskup af suiptiz sinni sæmd ok ualldi fyrir uilia Heinreks konungs, þar sem hann hefir æigi at eins fyrirlatid fostrland ok frelsi, helldr ok þolat haska lifs ok lima fyrir umsatir sinna uuina[5]? Edr huat munu þa heimligir hofdingiar segia bratt byskupunum, ef sua skal ganga, utan, þegar nockut riss uid, bioda þeim annathuart gefa upp sæmdina ædr knefalla? Ædr huerr formanna heilagrar kirkiu mun til uerda at ueita henni fullting[6] ædr forstodu, ef fyrir þa[7] somu uernd, sem þeir ueita henni, skulu þeir bædi pinaz af kirkiunni (ok) af konungs ualldi. Vgrædiligan skada ok nidrfall færr þa almennilig kristni, ef sua skal fara. Þui mun ollum godum monnum synaz eingi annar uegr logligr ædr lofsamligr i þessu mæli, enn Thomas sie aptr leiddr i alla sæmd ok uirding.“ Suo gangaz æ kardinales med greinum, þuiat uinir Heinreks konungs bidia berliga herra pafann, at hann uiki eptir konungsins uilia. Ok æigi þui sidr uerdr su lyckt æ, sem gud uilldi, at herra pafinn lætr Thomam

[1] hrafanar *Cd.* [2] segiaz *Cd.* [3] form'n *Cd.* [4] h' *Cd.* [5] uuinna *Cd.* [6] fyllting *Cd.* [7] þria *Cd.*

Digitized by Google

inn kalla ok segir honum sua: „Nu fyrsta birtiz oss af sialfs þins dygdaruerkum, huersu elskuligt uanndlæti þu hefir haft, ok enn hefir þu, fyrir kirkiunnar logum ok kirkiunni ok kler(k)dominum. Heyrdum ver ok, huerssu skæra iatning þu gerdir af þinum kosning. Her med gaf þu uiliandi þitt ualld i vora hond. Þui hofum uer stadfest i nafni guds ok heilagra postola Petri ok Pauli, at ærchistoll i Kancia med uskerd(r)i sæmd, ualldi ok uirding skipum ver aptr i ydra hond.“ Ok med þessum ordum færr herra pafinn signodum Thomasi aptr uigslugullit i tignarmark erchibyskupligs soma, enn taladi sua til hans: „Med þui at uit ærum brædr i utlegdar græin, sua skulum uer fylgiaz i lofi guds, medan ver lifum badir. Enn sakir þess at þer hafit leingi skemtiliga leidt ydra lifdaga, syniz oss heyriligt, at i ydarri þraut ok þolinmædi, ær þer berit fyrir[1] guds nafni, geriz þer fatækra manna fadir ok felagi, þui nefnum ver ydr stad i Pontis, at þer lifit þar einkanliga med þeim gramunkum, er þar þiona. Leggit af hinn meira kostnad, enn latid fylgia ydr fa heimolliga klerka ok sueina, ok bidit sua þann dag, er gud sendir oss til fridar ok naada.“

Suo lycktaz eyrindi heilags Thome aa pafagardi, at hann tekr postoliga blezan ok ridr til Pontis, æigi med meira fiolmenni enn pafinn hafdi til uikit. Enn adrir hans menn skipaz i þa stadi, sem hann sialfr gerir. En þot adrir dreifiz, maa þar nefna til meistara Herbert af Bosea, at hann skilz æigi uid Thomam erchibyskup, medan hann maa honum fylgia, þuiat midil þeira var einkanlig elska, sem fyrr uar lesit. Var þat ok uidrkuæmiligt, at hann fylgdi erchibyskupi iduliga, med þui at hann skylldi sidarr marga lutæ skrifa af hans þrautum ok dyrdligu lifi, þui sannligar sem honum uar kunnara, huersu giorz hafdi.

*Er vor herra vitradiz hinum heilaga Thomasi.*

47. Signadr Thomas erchibyskup, sem hann er kominn i Pontis, hugleidir med ser, huern bunat honum samir bezt at bera millum þuilikra hreinlifismanna, ok uirdiz honum heyriligt, at hann sammyndizt þeim i klædnadi, sem hann likizt i lifnadi. Var ok su goduild i hans briosti, at honum syndiz æ fegra at herda sitt lif fyrir gudliga tign i ollu þui, er hann matti. Hedan leidir þat, at hann sendir meistara Herbert med brefi sinu a fund Alexandri pafa, bidiandi at hann sendi honum þuilikan bunat, sem brædr bera i Pontis. Sem Herbert kemr i pafuagard ok tiar erchibyskups bref, tekr herra pafinn þat e(l)skuliga, ok lætr þegar gera med storu lerepti

[1] fyrit Cd.

Digitized by Google

einn gramunka bunat, þenna uigir hann sialfr ok talar sidan til meistara Herberz: „Seg sua Thomasi Kantuariensis erchibyskupi, at at hann uirdi þat med þessum fatæka bunadi, er honum sendiz, at þuilikan berum ver sialfir.“ Sem meistari Herbert kemr aptr i Pontis med klædnadinn, tekr heilagr Thomas hann med fagnadi, sua at fam dogum sidar leggr abotinn þann sama bunat yfir erchibyskup fraskilliga i einu herbergi, þeim einum neruerondum, sem erchibyskupi uoru heimolligir. Ok sem hann fer i kufiinn, ok hettan tiar sik aptr a herdarnar, talar meistari Herbert brosandi: „Ef þetta klædi er fagrliga formerat, kann ek æigi sia, ok þat uirdiz audsynt, at hettunni hefir herra pafinn æigi hagliga a komit[1], þuiat hon er miklu minni enn hæfir.“ Hinn sæli Thomas suarar honum brosandi: „Forsialiga er þat sua gert, at hettan minnki helldr enn ægsli minn uogst, at æigi megir þu sua nottera mik sem fyrir fam daugum, er þu kalladir mik skutbreidan, þuiat ef hettan veri breid ok stor, mundir þu kalla mik alutan.“ Ma af þuiliku marka, huersu signadr Thomas bar blezad briost ok gladt hiarta til sinna heimonligra manna. Sem hann hefir tekit gramunkaklædi, kemr hann i capitulum fyrir allan conuentum, bidiandi sua miukliga, sem tarin audsyna, at þeir minniz hans i bænum sinum. Tekr nu heilagr Thomas sem nyan lifnat, bækr at lesa ok bidiaz fyrir med naduligum kyrleik ok heitri astundan til himneskra luta. Her med hefir hann þa bindindi at hafa einga fædu utan eptir gramunka reglu, enn þat er þurt ok þeflaust. En þat hardlifi berr æigi hans nattura, þuiat hann hafdi alla[2] gotu sælliga fedz med uænum kosti, ok þui fellr hann i sua hardan krankdom, at hann legz i re(c)kiu. Ok er hans heimonligir menn uerda uisir af sialfum honum, huat uelldr siukdominum, bidia þeir hann ok rædleggia fyrir guds nafn, at hann næri[3] sina natturu med þeiri fædu, ær hans lifi gagnar. Ok þetta ræd tekr hann med godum uilia þott naudigr, ok endrbætiz i fulla heilsu eptir fa daga. Enn huersu hans mannkostir uoro hæfir ok almatkum gudi þægiligir, birtiz þessu næst fyrir þa himneska uitran, er hann þiggr i Pontis.

Sem hinn sæli Thomas hefir messu sungit a einn dag ok legz nidr fyrir alltari til bænar med gratligum anduorpum, þuiat hann hugdiz uera einn samt i kirkiunni, kemr yfir hann rodd sua hliodandi: „Thoma, Thoma, kirkia min mun dyrkaz i blodi þinu.“ Erchibyskupinn suarar: „Huerr ertu, drottinn?“ Roddin talar: „Ek er Jesus Kristr, brodir þinn.“ Sæll Thomas segir: „Verdi sua sæl,

[1] komint *Cd.* [2] ælla *Cd.* [3] ræri *Cd.*

drottinn minn, at kirkia þin dyrkiz i blodi minu." Guds son mælir þa enn: „Sannliga man kirkia min dyrkaz i blodi þinu. Enn þa er hon dyrkaz af þer, skalltu tignaz af mer." Af þessi uitran fylldiz hinn sæli Thomas med sua haleitum fagnadi, sem eingi ma ordum skyra, ok sua mikill hiti gudligrar astar geck þegar at hans hugskoti, at hann giratiz þetta fyrirheit umfram alla luti at gefa sitt lif fyrir guds nafni. Þessu samtida, sem sæll Thomas þiggr birtingina, uar abotinn stadarins innan kirkiu sua læyniliga, at erchibyskup uissi (æigi). Aboti sa profaz sua ualdr madr, at hann heyrdi alla þa ordrædu, sem fyrr uar skrifat, millum grædara uors ok erchibyskups, þui geingr hann fram af leyni ok uikr at erchibyskupi sua mælandi: „Þetta ma ydr, herra, ounirædiligr fagnadr uera, at þer hafit talad uit sialfan gud." Signadr Thomas suarar: „Huersu kom þat i þina skilning ok kynning?" Abotinn segir: „Suo sanna uissu hefir ek þar af, at ek heyrdi aull yckur ord." Erchibyskup talar: „Ef sua er, sem þu talar ok sannar, þa bidium uer ydr ok biodum, at þenna lut segir þu eingum manni, medan uer lifum i likam." Ok þat truiz abotinn uel fyllt hafa.

Enn nu næst[1] lystir at setia fram .ii. luti miok ulika: annarr er biartr, fagr ok fakunnligr, annarr suartr, liotr ok ulikr. Biartr hlutr er þat blezada lif, er Thomas leidir fram i Pontis, er nu giæddiz litlu med gudligri uitran, enn ufagr lutr þessum ulikr er þat hryggiliga lif, er Heinrekr konungr leidir fram i Einglandi, sem nu mun segiaz.

### *Af hardleik Heinreks konungs.*

48. Nv er þar at taka til saugu, sem fyrr uar fra uikit, at byskupar ok adrir sendibodar Heinreks konungs koma heim i land ok flytia honum, huersu þeira eyrindi ok utferd i curiam hefir sa alla uega framkuæmdarlaus uordit. Segia sua konunginum, at þeir þickiaz huarki hafa fundit aluoru med herra pafanum ne Fracka konungi. Werdr Heinrekr konungr uid þessa saugu ferliga reidr, sua at hefnd(a)rhugr æsir hann framm i brædi moti kirkiunni med þeim hætti, at hann gerir sina menn med brefum um allt erchibyskupsdæmi Thome, i huerium hann bydr sinum (monnum), at þeir taki allt þat godz undir sik med hardri hendi ok kasti sa konungs eign, er þeir prestar attu, er andaz i allri syslunni, sua kirkiur sem aull onnur þeira þing. Hann skipar ok med ualldi lærdum monnum i kirkiurnar ædr gerir af annat, huat er honum likar, enn þo gerir hann

[1] næstir *Cd.*

Digitized by Google

lit[1], at byskup skyli uisitera sysluna. Velr hann þar til Rodgeirr erchibyskup af Jork. Byriadi hann upp i fyrstu[2] þa uisiteran sem einn liodbyskup, enn er stundir lidu, efldiz sua metnadr med honum, at hann let bera kross fyrir ser um sysluna, sem hann ueri Kantuariensis erchibyskup. Mun þeirar uhæfu enn sidar getid uerda. Enn yfirualld ærchistols i Kancia ok allz þess godz, er þangat liggr undir, skipar Heinrekr konungr þeim manni, er hann uissi mestan uuin Thome erchibyskups, er heitir Ranulfh af Broch. Kynferdi þess mannz uoru kalladir Brochi, þat uar eitt hit hardasta folk i Einglandi, ok hofdu iafnan uaniz at uera aufundsamir ok onduerdir sætum Thome. Herra Ranulf skipar rædi stadarins ut af ser einum klerk ok frænda sinum, ær heitir Robert. Liggr sua erchistol(l)jinn undir hernadar hendi allan tima, medan heilagr Thomas er i utlegd. Mæ af þui mærka, huersu eignir kirkiunnar mundu fara bædi fastar ok lausar, at allt hennar frelsi uar komit sem i varga munn. Enn er þessi framferd Heinreks konungs frettiz sudr um sio, harmar þat margr madr, huersu afskapliga ferr moti allri skipan laganna, at Kantuariensis erchibyskup skal i utlegd vera, enn hans tignarsæti skal leggiaz undir þess[3] leikualld, er bædi uar ranglatr ok fullr med hatri. Einkanliga þyckir herra pafanum miok i moti, þuiat hann elskar Heinrek konung af þeiri uinattu, sem fyrr hafdi (hann) honum ted med ærlatri goduilld, þott nu kolni til nockut, ok þui skrifar (hann) til hans sua fallit bref.

### *Bref herra pafans.*

Alexander þionn þiona guds sendir kuediu ok postoliga blezan hinum kærazta syni sinum Heinreki, Einglandz konungi, Andigauie hertuga ok iarlli Nordmannie ok Equitannie. Fadir er skylldugr at gefa heil ræd syni sinum med aullu þui, sem hann ueit honum hialpsamligt. Nu med þui at uer tokum at giof gudligrar handar postoliga tign ok þo miok umakligr, þa megum ver æigi baki snua uid uorum sonum, ær til uor kalla i sinar naudzyniar fyrir þat faderni, sem ver ærum þeim skylldbundnir til fulltings ok fridanar. Þar er[4] folnar fegrd heilagrar kristni ædr fleekaz hennar birti, megum ver æigi fyrir sal uora med ollu yfir þegia. Nu uikr þar til einkanliga uoru mæli, sem er uppreist ok sæmd ydarra landa Thomas erchibyskup af Cancia, ær þer hafit utlægt fra riki ok uinattu, þa mætti þat meirr enn fullgert uera, ok þott hann hafi i nockuru nidrat ydra tign, mætti saudd uerda ydr reidi, þuiat nog er skriptad.

[1] litt *Cd.* [2] fyrsta *Cd.* [3] þat *Cd.* [4] ok *tilf. Cd.*

Enn ef hann finnz rettliga uirdr med ollu meinlauss, hugleidit þat med ydr, huerssu saa konungr styrir rettliga sitt riki, er fyrir utan sauk landflæmir sua lofligan formaann fraa kirkiu sinni, enn skipar hennar rikdom ok rettarbætr i ualld ok yfirgang uraduandra leikmanna, her med setr hann sik sem erfingia lærdra manna ok audgar sinn gard med annars godz. Dæmit þann rettliga, er sua gerir, at hann betri sik, þuiat saa konungr er rangliga styrir siaalfan sik, er maurgum manni unytsamligr. Nu bidium ver ydra tign, at uor(n) virduligan brodr ok uin Thomam erchibyskup, er sakir sinnar uizku maa kallaz skugsio ydars rikis, taki þer aptr i land ok ydra uinattu med sinum fullum heidr i alla stadi, at þar af uerdi hann ydarr godr uin ok felagi, ok af godum betri ok af betra beztr, þuiat sua kann uerda eptir fæd ok fiaaruist, at sidan uerdr heitari astud manna i millum. Nu gefi saa ydr god raad, er helldr i sinni hendi lif ok hiortu konunganna ok einn er efling allra godra luta. Valete.

*Er Thomas erchibyskup ok Heinrekr konungr senda til pafans.*

49. Samtida þessu herra pafans brefi, sem nu var lesit, skrifa fleiri godir menn af Franz til konungs i Einglandi med fridsamri u(m)leitan, segia þat uænaz til farsælldar, ef konungrinn uilldi sækia pafans fund, segia þa likaz, at allir tregar myndi ur leggiaz maalum byskups, ef þuilikir geingi millum fyrir ualld ok goduilia. Ok sua kemr þeim fortolum, at konungrinn hlydir aa nockut litt ok gerir sina sendiboda med brefum til herra pafans. Þar er sua skrifat millum annara luta, at eptir bæn ok tillogu godra manna uill konungrinn finna herra pafann til uidtaals med þui skilordi, at Thomas erchibyskup sie huergi nerri. Ok sem þessi konungsins bref fara sudr um sio, flygr bratt fyrir Thomam i Pontis, huer kostabod konungrinn hefir gert Alexandro pafa, ok þui bregdr (hann) uid med ollum skunda ok skrifar til herra pafans bædi miukliga ok þo einardliga, bidr hann hallda eynga stefnu uid konung af Einglandi ser fraueranda, segir konunginn sua myrkan maann ok klokan i maalsemdum, at uuonum manni uid hans lund se æigi med ollu auduellt at sia uid han(s) utuegum. Þetta bref heilags Thome kemr fyrr i curiam enn sendimenn Heinreks konungs, ok þui er pafinn forhugsadr, huersu hann uill suara kostabodum konungsins. Enn þann tima sem sendibodarner koma i pafagard, faa þeir fremri uissu, enn flutz hafdi til Einglandz, huerssu herra pafinn hafdi fyrirdæmt uæna Heinreks konungs enn fylgt maalum erchibyskups. Her med faa þeir minni blidu herra pafans, enn þa uardi, ok af þessu ollu saman

uerdr sua fyrir flutning kardinalium uina Heinreks konungs, at þeir hafa fullt at bera sinum herra, suo ok þat herra pafans bref, sem þeir taka ut ok bera heim til Einglandz, þyngir helldr enn lettir alla þa frett, er þeir hofdu at[1] flytia konunginum. Þat bref uppbrotid talar sua eptir kuediusending: „Þer skrifudut[2] sua til uar, at þær mundut fyrir godra manna tillogur unna oss uidrmælis, ef brodir uarr Thomas erchibyskup ueri huergi nærri. Enn þessi uegr syniz oss huarki laugligr ne godmannligr, ok of miok af leidiz þa hit romuerska uallid sinni skylldu, ef uer skulum synaz med nockurum hætti þeim samlagaz, er byskupinn fordaz, ædr huerr skal þa suara fyrir kirkiuna i Cancia, ef herra Thomam skal utlægia fra þeiri dagþingan, er hennar rettr ok nyt emdir skulu tracteraz. Gud firri oss þui, at afkyniaz sua[3] uorri romuerskri kristni at ueita ydr þat ædr nockurum ueralldar hofdingia, at setia þeim fiarruist ok forlitning, sem fyrir rett guds ok stadfesti laganna er adr utlægdr ok fyrirlitinn af odrum.“ Sua skrifar herra pafinn. Enn þessu brefi ok ollu samt, er nu hæfir Heinrekr konungr spurt af pafagardi, fylliz hann med sua daudligri reidi, at hann legz til umhugsanar med uandra manna radi, huat hann megi þess gera, at herra pauanum mætti harmr ok motgerd i þyckia.

### *Er Heinrekr konungr snyst i mot pafanum.*

50. Sem Heinrekr konungr hefir stadfest i sinu hiarta, at hann skal nidaz a þeiri tru, er hann tok i fontinum, ok efla þat strid moti herra pafanum, sem honum sialfum horfdi til sarrar pinu, þat er sua liosara, at hann skrifar bref til Fridreks Alimannie keisara, er stendr med uillupafa moti rettbornum ok sannkristnum Alexandro. Þau bref æru sua daudliga samsett, at Heinrekr konungr afeignar ser alla hlydni vid Romakirkiu ok Alexandrum pafa, enn bydr sik fram i suardaga til fylgis med Fridreki keisara ok þeim, er hann uill hæfia ok hallda moti Alexandro pafua. Þessi bref skipar hann tueim til medferdar ok framburdar, er heita Jon decan af Exenford ok Rikardr af Yualcestr. Þessum fær konungr sua mikit umbod, at þeir skulu sueria upp i hans sal sua frekan eid, sem Fridrekr keisari uill stafa þeim til sambandz uid sik ok sina fylg(i)ara. Ok huat þarf þat leingia, enn þessir fara ok framkoma, fylla med suardogum ok fastmælum þat uillunnar bod med ollum greinum, sem adr uar tiad. Ok sem þeir koma aptr i Eingland, samsuarnir uillumonnum upp a konunginn, nægiz honum þetta ægi,

[1] af *Cd.* [2] skripudut *Cd.* [3] bædi *tilf. Cd.*

helldr lætr hann almugann i ollu Einglandi uinna þenna eid at af segiaz hlydni Alexandri pafa med sua miklu megni, at huerr madr .xij. uetrum ellri uann þessi særi. Þat fylgir, at hann stefnir þing i landinu, fyrirbiodandi um allt rikit, at Roma skattr lukiz i þenna punkt, ok at eingi se sua diarfr, at hann appelleri til herra pafans, ædr uirdi nockurs, huart hann talar blidt ædr stridt. Verdr ok nockur at þui kunnr, at hann ueiti uinattu ædr fylgi herra pafanum ok Thomasi erchibyskupi, skal hans godz allt upptækt ok falla i konungs gard. Ok til þess at fyrr nefndar skipanir halldiz almenniliga, skylldar hann til Rikard af Luci ok Rikard erchidiakn af Peituborg med ollum hofdingium i landinu at uirda þer sem logteknar ok flytia innan um rikit. Enn er þessar skipanir suo hardar ok ukristiligar med særum þeim, sem fyrir runnu, spyriaz i Franz, harma godir menn allir, huersu Heinrekr konungr geingr afskeidis. Enn þo liggr þat þyngst herra pafanum, þuiat hann uilldi honum bezt, ok þui fær hann ægi bundiz at skrifa enn til hans, huat sem þat uinnr. Med þeim brefum gerir hann .ij. uirduliga menn Geirard subdiakn ok meistara Viuianum[1]. Þeir koma fram fyrir Heinrek konung, tiandi honum halfnaudgum herra pafans bref, huert uppbrotid ok yfirlesit heldr þuilikan skilning, sem þessu næst mun greint uerda.

### *Bref pafans til Heinreks konungs.*

51. Alexander byskup þionn þiona guds sendir Heinreki Einglandz konungi skyllduga kuediu. Sua mikla frægd sem ver heyrdum af ydr flutta margan dag, hormum vær ok hardla miok undrum þa eymdar tima, er yfir ydr lida, hui sua mikil uitra, prydd med natturuligri skyn ok tignarhæd, maa sua ræsandi fara, þaar sem þer uitid, at huerr madr er þui meirr skylldbundinn gudi, sem hann þiggr meira laan i þessum heimi. Miskunnsamr gud hof ydra uirding sua hatt medal manna, at hann setti ydr mattugan konung ok audgadan allri þessa heims dyrd umfram flesta. Huat æru þer honum skylldugir fyrir þetta allt, utan standa med honum ok efla hans uilia i ollum lutum. Huerr mundi nu trua þui, sem flyzt af ydr, at þer hafit þeim samsuæriz, er fyrr synduz ydr rænglatir ok guds logum gagnstadligir, enn fyrirlitid þann, sem þa syndiz ydr laugligr. Heyrt hafi þer sannleikinn sua segianda postolunum: Saa sæmir mik, ær ydr uirdir, ok saa hafnar mik, ær ydr fyrirlitr. Nu þott ydr hugareiting þickiz oss mein gera med þuilikri forlitning, er hitt miklu særara, at þer hafnit þann, er ydr skapadi ok skipadi suo uoldugan mann. Ok nu sakir þess at þer snariz sua hart moti heilagri Roma

[1] Vuanum *Cd.*

kirkiu bædi med eidum ok aflogligum setningum, þa tekr hon aptr i sinn fadm þat legataualld, er fyrr ueitti hun ydr til forsio yfir Einglandi, þuiat bætr samir nu, at þat uikiz, sem fyrr uar, til kirkiunnar i Kancia ok elskuligs brodur uors Thomam erchibyskups, at bædi af uorri rauksemd ok sinni megi hann hirta ædr med ollu pina kirkiunnar uuini, ok upp segium uer leingr at byrgia hans munn, helldr bodi hann hedan ifra guds rættleti eptir skyll(d)u sins embættis. Nu þott þær hefdit gefit oss efni at tala nockut stridara til yduar, ef oss likadi, þa uikium ver helldr adra leid, enn at sinni faudurliga aminnandi fyrir þessi uor bref, ok bidium af guds allu ok hins heilaga Petri ok Pauli sialfum ydr til syndalausnar, at þer takit herra Thomam erchibyskup heim til ydar med saunri blidu, ok hans uskerdri sæmd med konungligri astud. Gerit sua fyrir guds sakir ok heilagrar kristni, fyrir tignar sakir siaalfs yduars ok soma rikis yduars, þa mun gvd stydia med fridi ydart uald ok gera þann enda stundligs rikis, er upp byriaz med sælu hins eilifaa rikis. Heyrit uora sendiboda til godra luta, ef þer uilit oss nockura hlydni ueita. Valete.

*Konungr blidkaz ecki.*

52. Þetta bref herra pafans, sem nu var lesit, flytz Heinreki konungi fyrir sunnan sio i Nordmandi, heyrir hann þat at kalla med eyrum likamans, ok þo er hann hardla fiarri sakir uhlydni ok hardleika hiartans, sua at uaclla gefr hann sik lidugaan at hafa nockut samtaal med sendibodum, þott þeir umleiti med goduilld ok fridsemi at bræda þann hardydgisiokul, sem hann berr i sinu brioski til Thomam erchibyskups. Þuiat æigi seinna enn siduenior koma til greina, geingr upp i hauada fyrir konunginum, segiz þat fyrir eingis manz ord gera skulu, at leggia konungstignina, ædr afneita ser þa landzuaana, sem at krununni luta ok hans forelldri hafdi halldit med sæmd huerr eptir annan. Lærdir menn, ær uid uoru þeira tal, æru konunginum heimonligir, ok þui mæla þeir allt eptir konungsins uilld, segia æcki utan uirdingar hot ok gudligum soma huergi i mot, er konungrinn uill hafa, ok þui megi þat i fridargrein lofliga til lata. Segia sua skipat af fedrunum, at guds rettr ok heilagrar kirkiu skal hefia konungliga tign enn huergi minnka. Konungsualldit skal ok frida kirkiunnar sæmd enn æigi þyngia. Heilog kirkia sæmir konunginn med smurning ok uigslugerd, ok þar fyrir skylldaz hann at uernda sina modr. Skylldaz ok heilog modir at uegsaama sinn son audligan. Nu sakir þess at sendibodar herra pafans skilia konung-

Digitized by Google

inn miok hardan ok uuikisanligan til fridar, lata þeir fara til nockur hofsamlig ord, huersu leingi konunginum muni duga at hallda þuiliku þralyndi moti kirkiunni. Þui dueliaz þeir litla hrid, hafa sik aptr i ueg ok heim i kuriam. Segia þeir herra pafanum, at æigi ser friduænligt. Heinrekr konungr uirdir æigi sua mikils þat herra pauans bref, er nu kom honum næst, at hann uili sialfr moti skrifa, vtan helldr kastar þui fram umerkiliga, at byskupinn af Lyxion skrifi þat, er honum likar, halldinni konungs stadfesti i alla stadi. Byskupinn samsetr þat sama bref med ueinurd ok eptirmæli uid konunginn. Þat byriar sua:

*Byskupsins bref.*

Virduligum herra sinum Alexandro pafa sendir Q. byskup af Lyxion. Heinrekr konungr tok sæmiliga ydra sendiboda, ok mundi þo enn framarr gerz hafa, ef ydr þotti allt einn ueg. Vm frid ok sætt uid Thomam erchibyskup ok hans heimkuomu tok hann uel eptir ydarri bæn ok tilmæli, hafdi þar uid lærdra manna rad ok uina[1] sinna, ok sagdi, at ærchibyskup mætti sua fara heim sem heiman fyrir honum ok hans monnum, ok taka sinn byskupsstol uskerdan ok hallda sidan med farsælld ok fridi framarr enn fyrr gudi til dyrdar ok ser til soma, at halldinni konungs tign at fornu ok nyiu um alla luti. Enn sendibodar ydrir uilldu þui ongu iatta fyrir ydra hond, er þeim þotti guds retti nockut hættligt. Nu bidium uer sem framfallinn ydr til fota, at þer þyrmit med þolinmædi, þott aminningar ydrar se seinna innleiddar til fridar ok framkuæ(m)dar, enn[2] þer uilldit. Latid æigi utal manna fa hrygd ok hrapan fyrir eins manz sauk ok þuerud, þuiat optliga uinnr meira til samþyckis linleikr ok hogbær huilld enn stridleikr ok stormæli. Valete.

*Thomas skrifar bref til Heinreks konungs.*

53. Nv ær at renna augum til hins heilaga Thomam erchibyskups, þar sem hann sitr i Pontis, huersu hann hefir aptr þegit med pafans bulla þat legatauald med uskoddum heidr, er fyrr uar greint. Hann fregnar alla þa framferd, sem Heinrekr konungr kyss ser til handa innan landz ok utan. Spurt hefir hann ok, huerssu fodrliga herra pafinn leitar honum lækningar ok færr æigi til grodrar hans meinum uikit. Þui syniz honum heyriligt sinu embetti at þegia æigi leingr, helldr gefa konunginum sinum andligum syni nockur aminningarord, ok þui skrifar hann suo fallit bref[3] til Einglandz.

[1] uinna *Cd.* [2] er *Cd.* [3] brefit *Cd.*



Digitized by Google

*Bref.*

Herra sinum ok kærum uin Heinreki Einglandz konungi sendir Thomas lagr þionn Kantarabyrgis kristni ok postoligs sætis legatus ok fordum ydarr minzti þionustusueinn Q. guds ok sina. Langt er sidan mik lysti at tala med ydr nockut miok fyrir mina skulld ok sua fyrir ydra. Þui fyrir mina, at mer sienum mycktiz yduart hiarta ok minntiz þeirar þionustu, er ek ueitti ydr fordum at guds uitand eptir minni kunnastu. Ok ef þer uilldit sua uikia, mundi ydr hugnæmt, huar ek sit fatækr med utlendzkum lyd, þott uær hafim lifs næring af guds forsio ok godra maan(n)a ueizlu. Ok huersu samir þuilik fiarlægd, mætti ydr uitra uel skilia, af (þui at) gud gerdi med ockr, at þer erut herra minn ok konungr minn ok andligr son minn. Fyrir herradom skylldaz ek ydr til heilrædis sem minum lauardi, fyrir konungdom til rettrar uirdingar, ok sem byskup til aminningar, fyrir faderni andligt til auitanar ok raadningar, þuiat fadir aa fyrst at[1] hirta son sinn med blidmælum, þa med stridmælum, sidarzt med raadningum. Konungi ueri hugsanda, huerssu hann skylldaz af guds alfu at semia sik ok adra at sinum dæmum, styrkia goda menn, enn hegna ranglata. Suo hetu þer gudi i uigslu yduarri, þa er þer tokut bædi smurning ok tuieggiat suerd. Krismat hofut synir ydra dyrd, krismat briost merkir ydra uizku, krismadir armleg(g)ir þyda konungligan styrk til logligrar uerndar fyrir kristni guds. Þessarra þriggia giafa, dyrdar, uizku, styrktar, mistu þeir konungar, er fordum geingu aa guds rett, sem var Saul, Pharao ok Nabagodonosor, ok adrir fleiri. Enn þeir konungar, er eptir logbrot biuggu sik undir idran, þagu þegar aptr fyrir guds miskunn þessa þria luti, ok framarr enn fyrr, sem Dauid ok Ezechias. Jesus Kristr smidadi sina heilaga kristni ok leysti hana til sin med suo miklu uerdi, sem er sialfs hans blod. Þessa sina brudi skipadi hann i tuo flocka lærdoms ok leikmanna med þeim hætti, at lærdomrinn skal dema leikualldit, enn æigi leikualldit lærdominn. Þui er liost, minn herra, at byskupinn aa ydart ualld yfær at bioda, eingan megi þer bannfæra ædr leysa, eingan uigia klerkanna ne yfir þa dæma, eigi skipa kirkiur ædr tiundir taka, ædr ban(n)a byskupum at uanda um illgerdir sinna undirmaanna, ædr adra hluti draga undir uueniur Heinreks konungs modrfodur yduars, þuiat æigi finnz ritad at uorr herra kalliz sidueniа helldr sialfr sannleikrinn. Hlyd nu, herra konungr, ok heyr heilagt raad trulynds þions þins, aminning byskups þins ok hirting

[1] aa *Cd.*

fodr þins. Vaaraz samlag ædr samneyti þrætumanna ok bannsettra, þuiat nærr er kunnigt allri heimsins bygd, huersu uel ok uirduliga þer hofut ydart riki til guds ok romuerskrar kristni med fylgd ok flutningi, sua ok huersu pafinn hefir ydr elskat umframm adra hofdingia. Nu ef upphafit ær lofsamligt, berit hugsaan fyrir, at endinn uerdi æigi forlitligr. Nu ef þer uilit ydra andarheilsu, gerit nu sua godan lut, rænit æigi heilaga kristni sinni sæmd, minniz helldr, huern eidstaf þer laugdut aa alltarid, er þer uigduz til konungs af Theoballdo erchibyskupi, huat þær sorut um lagahalld heilagrar kristni, ædr huerr styrktarmadr þer skylldut uera kirkiunni i Kanncia, er ydr gaf ualld ok uigslu. Gerit nu suo uel, minn godi herra, gialldit aptr heilagri kirkiu æignir sinar uskerdar, kastala, þorp[1] ok bæi, er þer hafit skipt ok skutlat higat ok þagat eptir uilia ydrum enn eingum rettindum. Suo ok ef ydr syniz, latid oss i fridi ok frelsi heim fara (til) stols uors ok þar sitia med naadum. Ok ef þetta ueittiz, uilium ver ydr þiona med allri uorri kunnastu at haulldnum ok heilum guds retti i alla stadi. Enn ef þessu uerdr neitad, maa ydr i hug koma, huern enda þat mun hafa. Gefi uarr herra ydr uel at skipa ser til dyrdar enn ydr til saalubotar. Valete.

### *Vtlægdir frændr Thome.*

54. Nv sem þetta bref hins heilaga Thomas erchibyskups kemr fyrir Heinrek konung, tekr hann æigi sua fodurlig raad ok aaminningar, sem honum uar nu ueniuligt, þuiat hans hiarta angraz af þeiri sturlan, sem syndagialldit kann at uinna þeim, sem guds otta hefir fra ser uisat. Hann reidiz brefinu bædi fyrir einardlig ord, ok sua þat er kuediusending uottar, at ærchibyskup hefir aptr þegit legataualldit. Eigi likar honum ok uel þat, er hann spyrr, at flestir hofdingiar i Franz sinna meirr ærchibyskupi enn honum i þeira skiptum. Þui legz hann i raadagerd med nyiu grimdarkyni, huat hann megi til þess taka, at Thomasi erchibyskupi se mest i moti umfram adra luti. Enn þat uerdr fundit med þess tillogu, er fridinn hatar iafnan, at allir frendr ok felagar Thome erchibyskups skulu hans giallda, ok su skal allra þeira utlægdar sok af Einglandi, er þeir uoru honum skylldir. Suo haarda stridu setr konungrinn her aa oheyrdri grimd, at huer madr uigdr ok uuigdr, karll ok kona, ungr ok gamall, rikr ok fatækr, er faanz i nockurri frendsæmi vid heilagan Thomam, er nu keyrdr i utlegd. Ok sua umaannliga er at unnit, at sængarkonan ok briostbarnit i uoggu liggianda ferr somu leid.

[1] þorf *Cd.*

Her med fer þat til auka, at allir þeir, sem skilningaralldr hofdu, kugaz til at uinna eid yfir gudsspiallabok, at þeir skulu allir fara til fundar erchibyskups ok grata fyrir honum sina uesolld. Var þat fundit fyrir tuifallda sok, þa adra, at særa þui margfalligar byskupsins hiarta ofan aa utlegdina, enn fyrir þa adra, at hann beygdiz fliotara at miskunna þessum olmusum ok knefalla konunginum. Enn er ættleggr heilags Thome utlægdiz af Anglia, kastar Heinrekr konungr sinni eign aa allt þat godz i fostu ok lausu, er þeir attu, sem nu landflæmir hann. Her med æru guds eignir þui forligarr ok fastara undan dregnar[1] kirkiunni, sem erchibyskupinn hafdi bodit i sinu brefi, at þær skylldi med guds logum aptr leggiaz.

Þat saluga folk, sem utlegdiz, sækir flest sudr um sio, ok margir af þeim allt fram i Pontis aa fund erchibyskups. Enn þat maa godr madr hugleida, huersu þat blezada briost mundi samharma þeira sorg, einkannliga fyrir þat er hann syndiz uerda sem þeira utlegdar sok þo uuiliandi[2], ok æigi þui helldr uiknar hann i þessum afundar stormi, helldr stendr hann æ þui sterkligar, sem hann er fallzins framar knuinn. Treystir hann nu blæzadr aa uini sina, at gera nockurt raad fyrir þeim fatæka fiolda. Ok suo geingr nu med honum milldi guds, at ollum þessum þiggr hann einhueriar hialpir i ymissa stadi. Þeir uoru adrir af hans frændum, at helldr uilldi leita ser utuega enn kæra sik fyrir honum, ok þott þeir ynni sina naudungareida þar um, var þeim þat lofligt af laugunum, finz ok sua skrifat, at til uarygdar let herra pafinn leysaa marga af þeim særum.

Enn er þetta eymdaruerk Heinreks konungs spyrdz sudr[3] um sio, harma godir menn, huersu han(s) ofund studerar æ framleidis at angra meinlausan erchibyskupinn ok nu adr utlægan. Sannliga maa segia, at nu er umuolltin su uidfrægd Heinreks konungs, er herra Thomas ueik til næst i sinu brefi. Fyrr uar tidrætt um hans goduilld, frammistodu ok fylgi med Romueria kristni ok rettkiornum Alexandro pafa, enn nu risa malsemdir af hans ohlydni ok eidum med sambandi þrætumanna, þar med af hatri ok hermdum, er hann efldi moti erchibyskupinum. Þuiat æigi syniz uitrum monnum sækiligt, þott herra Thomas bydi fyrir þa sok sitt ualld af hondum fyrir herra pafanum, er hann hafdi leidz til uleyfdrar samþycktar med konunginum. Ei uirdiz ok saknæmt, þott herra pauinn skipadi honum aptr sinn heidr ok heila sæmd, ok heyrdi þa kardinales matuliga þar um, er meirr elskudu framlog Heinreks konungs enn heilagrar kirkiu log. Nu skilia uisir menn, sem verkin uotta, at slikar greinir risa af

[1] dregnir *Cd.* [2] ouuiliandi *Cd.* [3] sydr *Cd.*

Digitized by Google

grunni med konungsins hiarta, ok þui er audsynt, sem sogunni lidr, at hann ferr æ hardnandi meirr ok meirr moti kirkiunni, þott adrir hofdingiar, er motgang ueittu kristninni, sie nu komnir i nockurn myckt aranda, sem fremstan maa til nefna Fridrek keisara. Nu er undir lok lidinn fiordi hans uillupafui, er þeir kolludu Calixtum. Geriz nu sua med milldi guds ok godra manna fortolum, at keisarinn leggr af illzku þeiri at taka þa fleiri ok snyrr nu til fridar uid Alexandrum paua. Vard su þeira sætt, sem segir in Cronicis, at keisarinn krossadiz til Jorsalalandz med allt sitt herfolk, þuiat þa uar nyliga uunnit Jorsalariki undir Saladin konung af Babilon fyrir bauluadan agang ok ufrid heidinna þioda, sem fylliliga stendr i þess hattar letrum. Her med snyz Gricklandz konungr ok Sikileyiar konungr til sættar vid herra pafann litlu sidarr. Ok þaa er þuilikir lutir heyraz, uerdr ollum þui liosara, huer hardydgismadr Heinrekr konungr i Einglandi hefir uerit, at þa er adrir siaz um ok bætaz, uerdr hann af hordum hardari ok af uondum uerri.

*Pafi for heim i Rom, enn Thomas var eptir.*

55. Nv fagnar heilog Romueria kristni, er herra pafinn ok keisarinn æru sattir, ok þui flygr su frægd innan um Franz[1], at æptir lofligum sid romuerskra byskupa, ætlar herra Alexander pafi at uenda heim i Rom til sins aunduegis. Ok er þat fregn hinn[2] signadi Thomas erchibyskup, ferdaz hann fliotliga til Sainz ok fylgir herra pauanum ok snyrr aptr i Pontiniacum. Vard þessi skilnadr þeira sidaztr i þessu lifi, þuiat þeir saz alldri sidan likamliga. Enn þat er æigi gleymanda, huerssu þeir skilduz merkiliga, þuiat med nockurum hætti setti pafinn sik sialfan eptir hia erchibyskupinum, þott hann sneri heim til Roms, þa er hann saamlagadi sina rauksemd byskupsins ualldi, at hann mætti auroggr uega guds uuini med suerdi hins heilaga Petri sua frialsliga, sem hann hefdi bæggia þeira uaalld i hendi. Þuiat herra pafinn hafdi nu feingit fulla raun, huert ofrefli Thomas erchibyskup tok ser i faang, þuiat hann sialfr hafdi gert marga ordsending ok aaminning til Einglandz bædi lærdum ok leikmonnum, sem hann sat i Saainz, ok stod sem adr, utan helldr þyngir, þuiat lærdomrinn likiz nu konungsmonnum at draga undir sik kirkiunnar godz i Cancia. Maa þar einkanliga nefna til Jocelin byskup af Sarisber ok Jon hans decan af Oxenford, þeir badir samt hallda undir sik eina kirkiueign hardla goda, er lytr undir stolinn i Kancia. Herra pauinn hafdi gert þeim badum aminning þar um sua frama

[1] fram *Cd.* [2] hins *Cd.*

at leggia embættid, ef þeir hefdi ædr helldi eignina. Enn þeir stodu sem adr hafandi bædi samt iord ok embætti. Her med fregn heilagr Thomas sua mikit hatr Einglismanna upp sa utlegd frenda sinna, at iafnuel skulu uskylldir menn hans giallda, ef þeir hafa honum heimolligir uerit, er hann sat i Cancia, þott þeir halldi landzuist at kalla. Maa her nefna til herra Uilhialm, er uar kapalin erchibyskups. Hann ær nu gripinn af konungsmonnum allt til dyflizu, ok sitr þar i fanghelsi, sem er erchibyskupsdæmi Jocelin af Sarisber, ok þo finnr hann i sinni þraunging huarki manndom ne formæli byskupsins. Syniz ærchibyskupi oll saamt þessi maal sua margfalliga siuk, at æigi se leingr þolanda pinvlaust, ok þui skrifar hann sitt bref huarum þeira, ok þat bref er byskupinum til heyrir, byriaz sua.

*Bref.*

Thomas med guds miskunn ærchibyskup af Cantarabyrgi ok pauans legatus sendir Q. Jocelin byskupi. Þat ueit uorr herra, huerssu ver þickiumz ydr elskat hafa ok yduarn soma aukit med einkanligri astud. Enn her i mot taukum ver af ydr motgang ok marga ohlydni, sua at ver megum æigi hormungarlaust herma. Ok ær oss þat fremra, ær þer fyrirlitid herra pauann ok fremit byskups embetti med ohlydni vid hann, ok þar fyrir fellr uirding undir haska uigslunnar, þuiat uitra þin uill æigi uid kennaz, huerssu slikt er afskapligt ok hinum lægrum haskasamligt til eptirdæmiz. Vndrum ver ok, ær þer uitid Uilhialm kapalin uorn i yduarri byskupssyslu halldinn i bondum ok dyflizu, enn synit honum eingua menzku. Her fyrir biodum uer ydru broderni undir krapti heilagrar lydni ok banz uidlogu med postoligu valldi, at þer leggit nidr saunghliod i huerri kirkiu allz ydars byskupsdæmis, ok þegit sua um allan þann tima, sem sira Vilhialmr sitr herfanginn, ok þetta æfelli skal æigi fyrr leysaz, enn herra pafanum ok oss veitiz loglig yfirbot.

Sua ændiz bref til byskupsins, enn þat æ decan, sem her fylgir.

*Bref Thome.*

Thomas med guds miskunn Kantarabyrgis erchibyskup sendir Joni decan þa kuediu at snaraz fra illu ok gera gott. Ranglæti þitt ok raadleysi haufum ver þolat, sem fremz er þreytanda eptir logunum eins manz at bida. Enn nu er reynt, at uorar bidstundir auka þina meinsemd, ok uart heilsuraad uikr þu siolfum þer til afellis med forlitning vid herra pafann ok oss. Nu æro þinar sakir sua berar, at þær skyllda login ok uort byskupligt embætti fram i moti þer,

Digitized by Google

ok þui setium ver þik Jon med þessu voru brefi i sterkazta forbod fraskildan guds likam ok heilagri kirkiu, þar til sem þu betrar þinn lifsueg ok bætir logliga þat sem brotid er. Biodum uer þer undir hæstu banz pinu ok uidlaugu, at þu samnæter huarki konunginn næ adra menn þinu forbodi.

Sua lukaz þessi bref, ok er liost af þui, sem eptir ferr, at huargi þessarra sneriz til bata. Maa þat ok sannliga segia af þeiri aulld, sem nu var i Einglandi, at illuiliudum manni var lett at lifa ok leika i hærri stett ok lægri, þuiat eingi faanz saa, er mot stædi. Hofdingi landzins uar ollum þeim samuinnandi, er login smaadi, ok þat skilr Thomas erchibyskup, at þar af eflaz allar uhæfur, þuiat siukt hofut angrar alla limu. Her af leidir, at saa blezadr fadir uill enn i annat sinn uitia herra konungsins med sinu brefi, ær suo byriar.

*Bref Thome til Heinreks konungs.*

Thomas med guds miskunn Kantarabyrgis erchibyskup ok postoligs sætis legatus sendir Heinreki Einglandz konungi astsamliga kuediu til umbotar. Bidandi hofum ver bædit, ef þer uilldit uikia ydru raadi aa rettan veg. Enn hui þat duelz enn i dag, ottumz uer at þat ualldi, sem ritningin segir: Ef syndugr madr fær sik i diup lastanna gleymir hann siolfum ser, ok huerssu naudugliga hann er staddr. Vær bidum ok þess sendimanz, er oss flytti sua fallin ord: Konungrinn i Einglandi sonr þinn uar daudr, enn nu lifir hann, tyndr uar hann, enn nu fundinn. Ok þott of miok dueliz siaa sendibodi, leggium ver æigi af dagliga ydr leidreittu bidia fyrir ægliti guds. Nu sua sem ueralldar riki er þer af gudi leid, sua ærum ver settir meistari af guds halfu yfir andligri forsio, ok þui dregr oss skyllda þer at senda aminningarord ok hirtingar. Uilldi gud, at yrdi leidriettingar, þuiat æigi þorum ver þegia, sem þik tekr henda, þuiat heilog bok segir sæmu aabyrgd hirtinngarmannz þegianda ok laustinn uinnaanda, eigi at eins er sekr, saa sem gerir, helldr ok saa er samþyckir, enn saa er samþyckr, er aasaakan lytr at ok þegir hann þo, ok saa styrkir logbrot, er æigi stendr mot. Riufaz þa rettindin, er uanrækt kallar sik miskunn. Þat er guds rettr ok laug, at byskupar ok prestar dæmi sina undirmenn[1]. Þat ær hattr gods hofdinngia at reisa kirkiur ok fyrndar endrbæta, sæma lærda menn ok stydia til rettra luta eptir dæmum hins goda Constantini keisara. Hann syndi[2] rett lærdra mann(a), þa er hann sagdi sua: Þer byskupar æigit af ongum veralldar manni at dæmaz, helldr at

[1] enn dæmiz *tilf. Cd.* [2] syndiz *Cd.*

bida guds. Huerr mundi þann kalla med heilli samuitzku, er brytr fodr sinn undir bardaga, ædr þræll herra sinn? Saumu leid er saa auruita, er þeim uill mygia med ofsa ok meingerdum, er a stiornar-ualld yfir honum, bædi at leysaa ok binda. Nu ef þu uill godr konungr uera ok rettkristinn, þa skil þik son kirkiunnar enn æigi fodr, ok þer samir at heyra kennimenn, ænn æigi læra, fylgia þeim i stiorn, enn æigi fyrir ganga. Maater er sett ualldi þinu at domi guds ok manna. Gior sua uel, gack æigi um endimarkit, suo mikit sem skaparinn hefir þer ueitt. Lat þer þaurf uinna laanit, suo at þu fordiz raanit. Hugleid helldr, huerr þu uært, er þu komt i uer-alldar lios, ok nu i adra grein, huilikan gud hefir þik gert, hafit ok tignat, sæmt ok audgat, sua at allir fyrir þer knefalla, ok sua segia: heill herra, her er saa, sem gud hefir ualit. Huersu mattu ombuna þuilikar giafir? Þat leggr þu her i mot, sem angrligt er at greina, lætr menn þina heria upp a guds eign ok kennimanna. Enn hueria rænir þu ædr hatar[1], vtan þa sem lausnarinn taalar af: Qui nos odit, me odit. Ver kunnum nu segia þer, þott þu fyrirlætir allt þitt riki, kuanfang ok fee med annarri fullsælu ok geingir i hreinlifnat, feingir þu uarla gudi ombunat sitt laan. Leitadu dæmi rittninga ok siaa, huat þer hæfir. Saul konungr uar ualdr af gudi, ok er hann ofbelldiz med ohlydni, fyrirforz hann ok aull hans ætt. Ozias frægr Juda konungr af morgum sigri, er gud gaf honum, hofz i kenni-manna þionustu forn at færa, þui uar hann likþra lostinn ok or kirkiu rekinn, ok do i þui. Hygg at, huersu Aachaz konungr fell daudr nidr fyrir þa sauk, ær hann sina hond lagdi ifir ork ina helgu[2]. Þuilikt uerdskylldar saa ueralldar konungr, er kirkiuna uill hafa undir sinni hendi, þuiat aurkin merkir heilaga kristni. Nu lat þer, herra, annars uiti at uarnadi, eigna þer æigi annars ualld, ok ræn æigi lauard þinn. Tuenn æru uolld heilagrar kristni, byskupa ok konunga, ok er byskupanna byrdr þui þyngri, at þeir æiga suorum at hallda fyrir konunganna framferd, ok þui er rettligt, at[3] saa sie leidtogi, er aabyrgiaz skal þann, sem hann leidir. Lat þer i hug koma, at byskuparnir hafa freistad at bannfæra konungana. Jnno-cencius pafui bannsetti Archadium keisara fyrir sok þeirar samþycktar, er hann lagdi til utlegdar Johannis crisostomi. Heilagr Ambrosius stormællti Theodosium keisara, ok skipadiz uel uid. Dauid konungr gaf ok þat dæmi at ohlydnaz æigi, helldr lægiaz med idran fyrir heilagri auitan Naathan spamaanz, ok þa gud idran hans fliott ok miskunsamliga fyrir sitt afbrot[4] bædi hordoms ok manndraps. Nu

[1] hatur *Cd.* [2] helgin *Cd.* [3] a *Cd.* [4] ambrott *Cd.*

Digitized by Google

minn kærazti konungr ok elskuligzti son, gior at dæmum hin[s bezta konungs] Dauid ok snu til idranar, kallandi med hans raudd: Miskunna mer, gud, eptir miklu miskunn þinni. Enn su veri nu mest glædi minu hiarta, at ek uissi ydr i ueg ualdra manna, þuiat þa veri taar min þegin, er ek legg ut fyrir ydr dagliga. Neyd mik æigi at segia med spamanninum: Exsurge, domine, iudica causam tuam. Tak nu sua til dæmis med otta skapara þin~, at bogi sie bendr ok aur se dregin, enn þu settr at skotspeni. Læg þik undan, at æigi falli þer banzaurin. Gleym æigi, at kemr þær rikari, saa er af konungunum kann at taka eptir sinni uilld bædi lif ok riki. Geym at þinu radi, at þa ser þu æigi uanbuinn, þuiat nu er þinn timi. Matt þu ok æigi þui uernda þik, at þinn formadr þegdi yfir þinum (misfellum), þuiat bædi hæfir þer ueiz eptir skylldu loglig aminning ok hialpsamlig aminning. Gefi gud þer andar heilsu med godum uilia, ok i þeim ordum setium uær enda uaru scripto.

*Er hinn heilagi Thomas for or Pontis.*

56. Heyrdum ver bref hins heilaga Thomas erchibyskups, er hann skrifadi annat sinn til Heinreks konungs med hofsamligri hirting ok tarligri godfyst ok sætri aminning. Enn huat leggr konungrinn her i mot, utan þat sem hann hefir nægzt, þat er ofund ok illzka med þeiri umleitan, at enn megi hann erchibyskupinum i nockuru þyngia. Ok þar fysir aa lita, huat þessi guds madr hafdi þreyta. Fyrst uar hann ofsottr allt til utlegdar i eiginni personu, ok æru þar til dæmi, þuiat slikt hafa optliga þolt godir menn fyrir guds nafni. Þui næst uoru landflemdir allir hans frendr med suordum eidum, ok þat hyggium ver þarnaz flest oll dæmi ofsoknar, at einn madr uyrdi sua sem pislarefni allrar sinnar ættar. Nu i þridiu grein skal hann aptr uenda til ærchibyskups hann sialfan[1] ofsækia, þuiat ofsæla syniz nu konunginum, at hann se leingr i Pontis, þuiat þat birtiz uel, at hann uill banna honum allar hialpir, þa er hann reiknar huern millum sinna uuina, er honum gerir gott. Suo lægz hann nu til bragda, at hann bydr aa sinn fund abotum nockurum af gramunka lifnadi, ok gerir þa sem sina sendiboda, þuiat nu stendr yfir saa ærgangr, er þeir skylldaz at sækia generale capitulum. Þat er med þeiri undirstodu, at sidabækr þeira bioda eptir pafans settning, at æ innan þriggia aara skulu þeir hallda einn almenniligan fund af ollum klaustrum sama lifnadar fyrir hedan hafit. Skulu þa .ij. ok .ij. sækia af huerium lifnadi med þau uandamaal, er falla kunnu. Sitr upp i þui capitulo æztr domari

[1] siolfan *Cd.*

Clareuallensis aboti, er þaa saemd hefir tekit sem at erfdum eptir heilagan Bernardum, er grunduallaði þann lifnad ok med sinum heilagleik sem annarr reglufadir gramunka, þuiat ofuan sa Benedictus reglu, er þeir hallda, hafua þeir ok setningar miok smabrotnar Bernardi abota. Hedan af skipadi herra pauinn, at Clareuallis skal uera modurhus yfir ollum klaustrum sama lifnadar i Nordrhalfunni. Til þessa þings skrifar Heinrekr konungr sem kærandi fyrir domara, huersu þat saamir, at hreinlifra manna hus i Pontis skal hafa sik sem einn herkastala ok hallda hans motstodumaann til asoknar ok onada ollu konungsrikinu i Einglandi, segir ok suer um, ef þeir efla leingr hans uuin, at hann skal med einhueriu kyni mæta þeim.

Sem þessa uerdr uarr hinn signadi Thomas, hefir hann tal med kumpanum sinum, segiz a eingan hatt uilia, at brædrunum megi af honum mein leida, ok þui tekr hann þat raad at gera sina sendimenn til Fracka konungs, at honum geri kunnickt, hui hann færr æigi leingr verit i Pontis. Ok er sendimenn koma fyrir Hlaudui konung med brefum signads Thome, tekr hann giarna ok yfir less, enn birtir sidan þeim, sem nærr uoru, huat Heinrekr konungr hefir nu enn frammfarit. Sidan talar hann til þess, ær fremztr uar i sendibodinu: „Heilsa, sagdi hann, uin minn ok herra þinn Thomam erchibyskup, ok seg honum sua, at huersu sem heimrinn hafnar honum med sinum elskorum, skulum uer æigi þui helldr fyrirlita hann, helldr hallda med honum moti Heinreki konungi, huer hardindi sem hann færir at honum. Þui geri sa godi herra oss kunnigt, huern stad hann kyss i uoru riki, ok skal hann þann ser ok sinum monnum forbuinn finna, sua morgum sem hann uill.“ Enn er erchibyskups madr heyrir sua mikinn frialsleik, þackar hann herra konunginum margfalliga, tekr orlof aptr i ueg, finnr sinn herra ok segir, huar komit er.

Heilagr Thomas þackar gudi ok kyss at fara til Saainz sakir mikillar argæzku ok hæuerskra manna. Ok fliotliga byz hann brott af Pontis eptir .ij. aar lidin hans þarueru. Fylgir honum margt folk ut af stadnum, er þar fremztr abotinn med sinum brædrum. Sem þeir rida fram i ueginn badir samt erchibyskupinn ok abotinn, kemz herra Thomas miok uit ok fellir tar. Herra abotinn spyrr, huat þui uelldr. Ok med þui at heimonleikr uar midil þeira, segir heilagr Thomas honum sua: „Minær lifdagar munu bratt lida, þuiat minn drottinn uirdiz mer at birta sa þessarri nott, huilikum dauda minir dagar munu lukaz, þuiat manndrapara suerd mun mer at bana uerda.“ Abotinn spyrr einkanliga, huat fyrir hann hafdi borit. Heilagr Thomas suarar: „Þott þu ser oss heimonligr, segium uer

Digitized by Google

þer æigi fyrr syn þessa, enn þu iattar oss a þin sannyndi at segia hana eingum manni, medan ver lifum i likam.“ Abotinn iattar þui med allri godfyst. Herra Thomas segir: „Suo syndiz mer, sem ek ueri staddr i kirkiu nockurri ukunnri. Þar uar herra Alexander paui med kardinalibus ok Heinrekr konungr af Einglandi. Kuomu ok hardar greinir ok margar med ockr konunginum um lagahalldit ok ockarn aaskilnat. Fylgdi herra pauinn minu mali, enn kardinales Heinreki konungi. Ok rett i ockarri deilu hlaupa framm a mik at uuorum fiorir herklæddir riddarar, gripa mik þegar af þeim stad ok fanga grimliga, sua at þeir bera uopn a mik, ok einn af þeim sneid sua mikit af minu hofdi, sem krismat er, ok þar fyrir þraungdi mik sua, at ek þottiz lifit lata. Enn þat uil ek, at þu uitir, herra aboti, at æigi hryggium(z) ek af þessi uitran, helldr geri ek þar fyrir hinum hæsta gudi miklar þackir, nema helldr harma ek þat, at þeir, sem mer fylgia, munu mer afslegnum dr(e)ifaz ok uillirada fara, sem þeir saudir er ser eiga eynga(n) hirdi.“ Þa somu syn sagdi erchibyskup sidarr abotanum af Lucenti med sama skilordi, at leynt veri. Ok þui gerdi hann sua blæzadr, at kristnin hefdi fullt skilriki fyrir .ij. uotta, þann tima er hon atti at birtaz. Ok sakir þess at herra erchibyskup hefir þau ord gert konungi Hlaudui, at hann kyss at vera i Sainz, uikr hann þangat i ueg. Skiliaz þeir aboti af Pontis med miklum kærleik. Enn er guds madr kemr til Sennon, geingr herra Hugi ærchibyskup ut i mot honum med hatidligri processione. War þar i ollum lutum fagnadarsaamliga fyrir honum buit. Þar med ferr su blida Fracka konungs, at a huern tima sem hann kemr i stadinn ok hefir uitiad kirkiuna, geingr hann aan duol til Thomam erchibyskups trakterandi margt med honum af landz stiorn ok rikis naudzynium, þuiat hann skildi þar fyrir uera uizku ok ualinn goduilia.

### *Er pafinn skrifar til Einglandz.*

57. Nv ær þar til at uikia, sem Heinrekr konungr fregn, huersu Thomas erchibyskup er sæmiliga settr bædi med kost ok kiærleik herra konungsins i Franz, liggr honum æigi hægt med ollu, ok þo ferr hann nu æigi at gert. Frettir ok herra Alexander pafi i Rom, hverssu erchibyskupinn var hotum hrærdr ut af Pontis, af þeim stad er hann hafdi skipat honum i utlegdar tima. Harmar herra pafuinn, at Heinrekr konungr ær sua langhalldr ok hatrsamr, sem birtiz, at hann uilldi sua alla gera lata til erchibyskupsins, sem hann geck fyrir. Nu minniz herra pauinn sik prouat hafua, at med sinum brefum ok heilrædum færr hann Heinrek konung æigi linat, ok þui·

Digitized by Google

leitar hann þess uegar, ef nockurr af hans heimonligum monnum innan landz feingi uikit honum, ok þar[1] treystir sa herra pauinn til þessar trunadar, sem er Gillibert Lunduna byskup, er sumum syndiz æigi hlutuandari enn til medalags. Hann skrifar honum bref i Eingland, er sua byriaz.

*Bref.*

Alexander byskup þionn þiona guds sendir uirduligum brodr sinum Gillibert Lunduna byskupi kuediu ok postoliga blezan. Þa er Heinrekr konungr bad oss, at ver skipadim ydr byskupsstol i Lundunum, bædi til rikisstiornar sakir uizku ydarrar ok æigi sidr andligrar hialpar, ueittum ver þat uinsamliga, þuiat ver uæntum þadan sauoxt meira. Vær truum ydr uita, huersu konungr i Einglandi skiptir skapæ, sua nu i mot kristninni sem fyrr stod hann med henni, vill æigi, at uor se uitiad ædr maalum til vor uikit, sambinz þrætumonnum ok bannfærdum. Her med fer þat, huersu hann gerir til uors elskuliga brodr Thomas erchibyskups moti dæmum annarra hofdingia, vtlægdi hann fyrst sialfan med ofsokn ok afarkostum, enn þar eptir allt hans kynferdi, sem ver megum æigi uharmaandi boda. Nu i þridia stad syndiz honum oþolligt, at erchibyskupinn ueri kyrr i Pontis med fatækum gramunkum eptir uorri skipan. Nu heimtum ver af ydr fyrirheitna dygd, bidium ok biodum, at þer hafit med ydr Roger byskup Herefordensem ok tiaait konunginum, at hann bætri sik ok bæti þat, sem brotid er, elski skapara sinn ok uegsami modur sina Roma kirkiu. Sie sidan styrkr ok stadfastr i vingan ok uirding heilags Petri ok uorri, frialsi stofnugerdir til vor ok brodr vors Thomam erchibyskups, ok kalli hann heim til stols sins med skylldugri uirding, fremi miskunnaruerk ok þyngi æigi kirkiur ædr kennimenn huarki fyrir sik ne adra, stydi þa helldr med konungligri giezku, at sa hæsti konungr, er riki gefr ollum konungum, uardueiti sua hans iardligt riki, at þar fyrir anduirdi hann ser himnariki. Tiaid fyrir honum faudrliga, at hann ottiz guds reidi enn elski sina hialp. Biodum ver ydr at heimta saman Romaskatt um allt Eingland, þuiat æigi uilium uer ætla Heinreki konungi, at hann talmi þat, ok sendit oss sem fliotaz. Þat latid ok fylgia, at þer megit laana oss nockut fe, enn takit sidarr þar i mot af gozi hins heilaga Petri. Valete.

Suo stendr bref herra pauans til fridar ok formælis heilagri kirkiu fyrir Heinreki konungi. Enn huat Lunduna byskup for fram,

[1] sa *tilf. Cd.*

Digitized by Google

mun æigi finnaz skrifat, enn þat maa heyraz i brefi til herra pauans, huersu byskupliga ok storum einardliga hann segiz hafa stadit fyrir konunginum med auitanarordum. Enn þat mun sagan uotta helldr upp hedan, at meirr se bref þetta sett med ordaskreytingum enn fullum sannyndum. Þat byriar sua.

*Er Lunduna byskup skrifar.*

58. Herra sinum ok postoligum fedr herra Alexandro paua sendir kuediu Gillibert Lunduna byskup med skylldri þionkan einkanligrar hlydni. Yduart bod, heilagr fadir, tokum uer Roger byskup med skylldri uirding, flytiandi framm fyrir konunginn ydr hialpsamlig ord. Her med logdum ver miuka bæn med aaeggian til batnadar, ok þar næst aauitan sua strida, sem framaz byriadi einualldzkonung at aasaka. Enn hann tok blidliga ok med mikilli þaukk ydra aminning, suarandi stilliliga serhuerri sok. Sagdiz i fyrstu sinni uingan (æigi) fra ydr uikit hafa, ok æigi helldr hugsat sua mikla uhæfu, helldr kuez hann uirda ok ydr unna sem sinum herra ok andaligum fedr. Romaborgar kristni uill hann uirda ok uegsama sem sina modr ok ydrum bodum litillatliga hlydnaz i ollum lutum at halldinni tign ok soma sins rikis. Enn þar kom hann hogliga vid, huerssu þer tokut malum þeim, sem honum þotti varda, ok þar hneit uid, sem hann þottiz uirdr litils, þuert fra þui sem hann hugdi til ydar, ok þo let hann þegar fylgia i odru ordi, at þer mundi(t) sidarr betr gera, þuiat hann skildi med sinni uitzku, at fadir aa heimillt at gera uid son sinn, huart er honum likar blidt ædr stridt. Eingum manni kuedz hann bannat hafa yduar at uitia, enn hafa uill hann soma sins rikis, at eingi klerkr fari ur hans konungsdæmi, nema hann syni adr sin eyrindi med brefum, at þau se krununni huergi i mot, ok sua giorfu bidr hann fara huern undir yduarn herradom, er uill. Enn ef her finz nockut ofgert i, ok uill hann bæta eptir lærdra manna domi i sinu riki. Til samneytis med þrætumonnum suaradi hann sua, sagdi sik æigi uita enn i dag, at keisarinn Fridrekr hafi bannferdr uerit, enn ef þat ær til, uill hann bæta þat sem fyrri grein undir domi sinna[1] lærdra manna. Enn þat er til heyrir herra Thomasi erchibyskupi fodr uorum lagdi hann undir þuilikt anndsuar, sagdiz hann alldri ut hafa kuatt ur sinu riki, ok sua sem hann for or landi med sinu sialfrædi, sua fari hann aptr ok heim komi med fullum fridi, ok þo med þeiri yfirbot, at hann lati halldaz allar konungligar sidueniur i landi, sem hann

[1] sinni *Cd.*

Digitized by Google

hefir suarit. Her med færr þat, ef nokkr kirkia ædr kennimadr finz af honum mishalldinn, leggr hann i dom sem fyrr ok uill giarna bæta. Þuilik suor feingum ver, ok uilldum framarr hafa komit undir ydarn dom þessu aullu samt. Sem her er komit brefi byskupsins, snyrr hann ser i þat rum at gefa raad herra pafanum: Hugsit heilagr fadir, segir hann, huersu maalit skal endaz med þuilikt bod ok andsuor. Konungrinn syniz i godum uegh, er hann bydr ærchibyskupinum heim i land med frid ok frelsi, sem fyrr var tiaad. Þui bidium ver sem framfallnir, at þer temprid ydra reidi fra forbodi ok banz aafelli, þott þer seid uppkueyktir med elldi heilags anda ok uandlæti laganna. Virdit med ydr heilrædi[1] spamanzins, Calamum quassatum non conteres, et linum fumigans non extingues. Hugsit, herra, huart meirr stendr til grodrar mikit sar i likam ædr limr afhaugginn med ollu. Nu sem þer erut æztr læknir i kristninni, leggit hug aa helldr at græda saarit, ef nockut ær, enn af snida kristninni þann gaufgazta lim, ær seint ædr alldri mun aat heilu græddr uerda. Konungr er mykiandi med hoglyndi, sem þær uitid, ok sigrandi med þolinmædi, þuiat konunglig ogn kann ath uega nogu snarpt ok hefna sin, ef hann þickiz hardliga bæiddr. Huart myndi þer kiorit hafa af þui, sem ek set framm, hafa þolat med hugarkrapti, ædr þarnaz hlydni aaf ollu Einglandi, ok se þo ærchibyskupinn i utlegd sem adr? Nu þott ek ædr nockurir fleiri see audmiukir ydarri hlydni, æru æigi þui sidr margir bunir at beygia halsinn fyrir skurgodinu Baal. Nu hormum uer gratandi þat saalution, ær ver fyrir siaam, ef þer farit hart framm. Nu ef uer hormum med skylldu kristninnar angr ok ufor, geingr enn herra bodord aa ydra tign, aat þer leitid henni lækning(a)r ok eilifs fridar. Romaskattr ær til reidu af ollu Einglandi ok flytz til yduar sem fyrst maa, enn þott frestiz um nockura daaga, mun æigi sekt aa falla. Enn um fiaarlaan, heilagr fadir, ær æigi at tala, þuiat rekstr ok utgerdir konungsmanna hafa sopat aull vor lausafee. Valete in Kristo.

Sem þetta bref Lunduna byskups kemr i Rom ok heyriz af herra pafanum, syniz sem hann hneigiz nockut til fridsemdar aa konunginn af þess hattar fortolum, ok skrifar aptr i Eingland med bænarordum, at konung(r)inn aminniz sem optaz af sinum kærum uinum at mykiaz alvarliga til herra Thomam erchibyskups ok kalla hann heim fyrir utan alla þyngan, at heilog kristni mætti fagnat faa med samþyckt ok uinattu beggia sinna hofdinngia. Enn huat sem

[1] heilræidi *Cd.*

Digitized by Google

Lunduna byskup fegrar sedr herra pauinn skrifar, stendr allt a somu leid ok adr.

*Af vitran.*

59. Varr herra Jesus Kristus Mariu son bydr sua berliga sinum monnum, at elska vuini sina ok bidia fyrir þeim af hiarta. Ok nu lystir oss at leida saamt .ij. vini guds, huersu þetta bodord hafa tiguliga fyllt med likum hætti ok undirstodu, annar i forna logmali, enn annar a miskunnartima. Dyrdarsamligr madr Samuel grett margan dag misfelli Saul konungs, er hans blodi eptir leitadi. Annar er signadr Thomas erchibyskup, harmandi med tarum sid ok sarla misfarar Heinreks konungs, ok huern enda hans þralyndi myndi faa, ok af optsamligri hugsan þar um synir drottinn honum med tueim draumum naliga bædi þessa heims gautur ok annars lifs, huerssu konunginum mundi ganga.

Suo bar fyrir hann eina nott, at hann þottiz staddr a fialli nockuru miok hafu, ok a þui laglendi, sem liggr undir nidri, ser hann Heinrek konung med sua einkannligum hætti, at utalligr fuglafioldi flyckiz at honum alla uega ok uill þraungua honum at foradi einu. Her med ueitir fuglunum sina lidueizlu saa madr, er einkanliga uar kiæraztr konunginum, ok hann uirdi mest næst sialfum ser. Guds madr Thomas skilr i drauminum, at konungrinn aufigaz æigi i moti sua miklum fiolda, þuiat hann huatar undan at uodanum. Ok þui þickiz hann honum sampinaz ok þar a minnaz, huersu uinatta þeira uar elskulig, sem hann var konungsins kanceler, þui gerir hann rædinn sik i at hialpa honum. Er þa likt, sem i augabragdi see hann kominn[1] a laglendit, ok þickiz hafa i hendi eina suipu ok sla fuglana brutt fiogurra uegna fra konunginum, sua at hann færr frelsi. Enn þann rika mann, er honum gerdi ofrafl, þickiz Thomas taka med storum auitanarordum. Sua lykz þessi draumr.

Enn i annan tima geck sua til, at herra erchibyskup liggr i sæng sinni uakandi um nott, hugsandi þa enn til Heinreks konungs ok hans afkuæmis, þuiat þann tima atti hann tuo sonu Heinrik ok Galfridum. Sæll Thomas berr angrliga hugsan fyrir fostra sinum Heinreki unga ok ollum þeim fedgum, huilikir upphelldismenn þeir mundi uerda, ædr huerssu langlifir, ædr huern hatt þeir myndi enda sina daga. Eptir þuilikar hugsanir sofnar hann, ok þui næst heyrir hann i loptid vpp sua fallinn versa:

Mors tulit una ambos, mors altera sed mala patrem.

[1] komit *Cd.*

Ok þegar uaknar hann af þunganum ok harmar sarliga þann skilning, sem hann tekr af uersa þeim, er nu uar lesinn. Enn huersu skyraz þessir badir draumar ꜳ sinni tid, mun i ennda saugunnar sagt verda med. uilia uars herra.

Skal nu hedan uenda framm til Roms ok siꜳ, huat pauinn spyrr enn i nyiungum nordan af Einglandi. Þat flytz honum nu þadan, sem fyrr var getid i sogunni, at Rodgeirr erchibyskup lætr bera cross fyrir ser um syslu Kantuariensis kirkiu, sem hann se uordinn primas yfir ollu Einglandi. Syniz herra p fuanum þessi ofdirfd ꜳ eingan ueg þolig, þui skrifar hann bref til Einglandz med storum ꜳuitu(m) ok hotanarordum. Er Rodgeirr ꜳnefndr i þessi oftekiu, þuiat honum sendiz brefit, enn adrir byskupar æru settir undir sueigingarord, at slikar muni þeira tillaugr æ til motgangs ok minkanar vid Thomam erchibyskup. Lætr ok herra pauinn þat lysaz i sinum ordum, at þeir allir samt verdskyllda ser strida radning, ef erchibyskupinn uill ꜳ þꜳ leggia. Enn er Rodgeirr hefir þetta bref herra pafans yfirlesit, kallar hann saman byskupa til umrꜳda, þuiat þeir allir saman æru nu i kurhugum[1], huart herra Thomas kastar eingu klatri ꜳ þa, ef þeir hallda kyrru fyrir. Þui uerdr þat rꜳd med þeim, at þeir skulu fyrr at bragdi uerda med appelleran vndan erchibyskupi til pauans, ok þa appellacionem semr Lunduna byskup med snild ok slættmæli ok þui samblandi at ꜳsaka ærchibyskupinn med minkanargreinum ok meinyrdum, sem lysaz i sua follnu brefui.

*Bref byskupa til Thomam.*

60. Virduligum herra sinum Thomasi erchibyskupi senda Q. byskupar i Einglandi med miukri lydni ok skylldugri þionustu. Þat ufridar efni, er byriadiz med yduarri bruttferd, hugdum uer, at ydr uitra myndi lægt hafa. Enn þar bleckiumz ver, þa ær ver hugdum[2], at þer sektid ꜳnaud ok fꜳtækt ok erfuidi til þess eina, at mykia konungs reidi ok bæta yduart umlidit lif med bænum ok bokalesningum, ænn æigi til þess at briota kappi uid konunginn, sem nu profaz, ok reisaz ꜳ hans riki med hotum ok hardindum. Nu er fridar uan i fiarska, enn oruenting innan hus. Huat hugsi þer, huern enda hafa skal? Sparit helldr gudi nockut, ænn ætlid ydr allan dom, fordiz at auka þyngsl[3] yfir þunga[4]. Hugsit, huern ꜳuoxt gerir huart, þolinmædi ædr metnadar akefd. Hægir hogueri, enn hotan hrærir. Bætri er ordstirr af yfirbot, enn umlæstr af ifirgirnd. Minniligt mætti ydr uera, huilikr þu uart i fyrstu, huerssu þu komt

[1] kurhaugum *Cd.* [2] hugdudum *Cd.* [3] ꜳ *tilf. Cd.* [4] þynga *Cd.*

Digitized by Google

i konungs gard lagr kottkarllz son, fatækr ok litils uirdr, ok þessu næst sæmdi ydr at hugleida, huerr þik hof i sua mikla sæmd af lagum, at þin uinatta þotti mest uerd i ollu landi, þegar konunginn leid, ok at ydrar sæmdir mætti æigi sa hioli leika, skipadi hann ydr med konungligu ualldi at kristninni styniandi i hæsta tignarsæti i ollu Einglandi. Ok huat leggi þer her i mot? Huerr mun romr sa falla, ef konungrinn tekr auxi fyrir astud, hamar fyrir heidr, mein fyrir margfalldan soma? Vægit uirding yduarri ok lægit ydra usannsyni, ok þott þer uilit oss æigi heyra, uirdit þo naudzyn herra pauans ok kristninnar, þuiat æigi mun Heinrekr konungr einn vpp standa, ef hann er grimmliga knuinn. Til syniz nockurum sa fridar uegr, at skipa hoguerdarmann til sætis i Kanciam, enn þat uill konungrinn æigi enn. Ok ær þat sæti hættligt huerium, er tæki. Nu uill konungrinn sættaz at holldnum sid ok soma, er hofdu fyrri konungar, bædi uid kirkiur ok lærda menn, ef nockut finnz brottligt med honum. Huerium decretum megi þer þann pina, er byz undir sættina? Ein er allra uor bæn, sem tarin uotta, at þer hialpid hiord ydra, enn hrindit æigi framm i daudligt forad. Miok mislikar oss ollum, huerssu þer hafit stridt Jocelin byskupi brodr uorum ok Joni hans decan. Er þat nyrr hattr framferda at stormæla fyrst, enn leida sidan at sokum. Ok til þess at uorar sæmdir ok embætti se undan ydru sua foradzligu ualldi, setium uer oss ok uora luti undir hond Roma kirkiu ok herra pafans. Nefnum ver ydr dag, in ascensione domini se þer·þar kominn. Ok iafnframm bidium ver, at þer uikit til fridar ok frialsit oss af re(k)stri. Ok þa bidium uær ydr uel lifa, ef þer gerit konungsins uilia ok uorn.

Þetta byskupanna bref flytz herra Thomasi, þar sem hann sitr i Franz, ok sem hann hefir þat greint ok articulerat, snyrr hann til þess uegar at gefa þeim likt moti liku, sua at hann syni þeim sina sannyrdi, ænn einga þeira appelleran vill (hann) hallda, helldr med ollu cassera. Ok þui skrifar hann aftr i gegn til serhuerra luta suarandi, er þeir framm settu. Þat bref hefr sua.

*Bref Thomas erchibyskups til byskupa.*

61. Thomas med guds miskunn lagr þionn Kanterabyrgis kristni sendir uirduligum bredrum sinum ollum Einglandz byskupum þa kuediu, at gera þat, sem enn gera þeir æigi. Bref ydart kom til vor, er meira berr auitanar enn hugganar, meira til aleitni enn styrkingar mot astinni, er æigi leitar sinn auinning helldr gudliga tign. Drottinn Jesus Kristr do fyrir oss hlydinn fodr allt til krossins,



Digitized by Google

synandi oss sua geranda fra hans sauk, ef naudzyn kallar. Huerssu maa yduarr stettr siaa i mot sua mikilli elsku, ef þer ottiz midr gud enn maann, framarr elskandi ydarn likam enn skaparann, framarr bunir til hlydni ueralldar konungi enn ydrum erchibyskupi. Ef keisari ædr konungr bydr ydr reitt, megi þer gera, enn ef þat er rangt, æigi þer mot risa. Ver hofum hlytt ok þagat, ef nockur ydar uilldi minnaz uigslu sinnar ok uernda frelsi kristninnar, enn nu er liost af brefum ydrum, sem harmar hugskot uart, at meirr standæ þer bunir til hneykingar enn henni til uppreistar. Enn þott þer kiosit ydr sua afskapliga idn at stridaa kristninni, hefir hon sua godan grunnduoll, at æigi maa hun falla fyrir ydr, þuiat þat er henni natturligt med skipan guds, at ef hon lytr aa kne i falli sinna formaann(a), efliz hon mest ok endrbætiz, þuiat þeir dyrkaz af gudi, er fyrir henni þreyta. Nu er yduart traust æigi at sækia, helldr þess er sua mællti fyrir spamanninn: Exsurge, domine, et iudica causam tuam. Nu ef þer angrit kristnina, huat þurfum uer undra, þott þer auitid oss. Saaklaus ær kirkian, æigi siaam ver ok uora sok. Tokum ver nockurs yduars godz, fat ædr fior, uxa ædr asna? Ef þat finz med oss, skulum ver ferfaallt aptr bæta. Enn ef þat eydiz, huerssu skulum ver þaa giallda, er þer latid oss mæta einn ollum þunga[1], motgang ok meingerdum, skapraunum ok skada. Nu ef þer mettid striuka þann blindleik af augum ydr, sem leingi hefir hardla miok meinat, hæfdi ydr at uirda, huern enda þessi maal skulu hafa. Enn su ælitning uerdr æigi rett, ef manna munr ædr rikdomr hefir hasæti med ydr, þuiat þat fysta sem þer at uikut um vora bruttferd, syniz oss aan riettuirding þydt ok upptekit, þuiat i sannleik eignaz þat efni tuenna undirstodu, at firra þa glæp, sem gera uilldu, ok at kynna kirkiunnar sauk, at æigi syndimz ver einn i þui maali, er guds rettr ok hennar uar ofsottr. Þer uilldut, at ek minntiz, huersu lægr kotkarllz son ek kom aa konungs gard, ok ek iattar þui, at min kynferd ær æigi af konunga ætt sem nockurra af ydr, enn þo er min kynslod i sannleik sua sæmilig i Lundunum, at kotkarlla nofn uoru fiarri minum ættmonnum. Þui suorum ver odru þar til, at oss syniz kiorligra at uerda somi litillar ættar enn uansami storrar. Þui suorum ver þridia, at þott uer sem lægri at burdum enn einnhuerr yduar, hefir guds miskunn sua skipat, at ver ærum ollum ydr ædri uordinn. Minnaz maa þess, at af hiardarsueini vard heilagr Dauid konungr Israel, ok af fiskimanni hofz hinn sæli Petrvs i hofdingsskap ok hærradom allrar kristni. Enn þat er þer sogdut mik faatækan

[1] þynga *Cd.*

koma til konungs, er ok æigi miok satt, þuiat i nog for ek fekatliga sem ek var erchidiakn, þa er ek tok aa hueriu aari þriu hundrat marka brent. Vrettsyni eigni þer mer til Heinreks konungs, tiaandi huersu hatt hann hefir oss hafit. Enn hui hann gerdi sua, suari honum eigin samuizka. Þer sogdut oss kiorinn til byskups fyrir konungs ualld at styniandi guds kristni, þat er at skiliaa aan yduarri samþyckt. Enn i þessum ordum fellr aa ydr ritningin, at huerr saa sem lygr, drepr sina saal. Lygd er ollum fyrirbodin, enn einkanliga ydr byskupunum, þuiat sialfir uiti þer, at minn kosningr gerdiz med ydrv iatyrdi. Enn þott aufund hafi bitid þar um nockurs yduars hiarta ok hafi mællt moti tungunni, suari hann þui sialfr þar ok æigi at segia, at þar styndi aull kristni, þott einn ædr tueir ꜵfundsamr leyndiz med guds folki. Veiti gud þeim likn, ær sua gerdi, ok giarna fyrirlatum ver. Enn þat er þer sogdut oss faa herra konunginum hamar ok auxi fyrir sæmd ok goduilia, er þat med ongum hætti sua skilianda, sem þer settud oss til lytis undir usannsyni, helldr maa rett ok lauglig hirting merkiaz fyrir hamar ok oxi, er vort embetti skylldaz honum at ueita fyrir afbrot laaganna, þott i aadra grein seem ver honum skulldbunnir til myctar ok goduilia fyrir þat hasæti, er hann helldr yfir guds folki. Enn þau hot, sem þer drogut um nꜵdzyn herra pauans ædr fiolmenni Heinreks konungs moti honum ok kristninni, sama ydr hardla litt, þuiat getur þuilikar stædi afskapliga einum lydmanni, enn ydr halfu uerr, er bædi kalliz kennimenn ok uinir konungs. Hugsit um, hrædzlu fullir, huart gullkerit i Babilon samþyckir æigi hiortum ydrum, er fagrt var utan, en fullt med olyfian. Þær segiz grata ufarir krist(n)innar, enn þui iafnfram dragiz þer i fridargrein, at annar kioriz i uort rum til Kanciam. Nu hafid raad mitt, gratid æigi kristnina, helldr sialfa ydr, þuiat ver uæntum i gudi, at heilog kristni fordiz fyrir uorar gerdir nidrfall ok so(r)garefni. Siait helldr um siaalfa ydr, huilikt upphelldi þer ueitid henni, ædr forgaungu yduarri hiord. Hafit fyrst sialfir þat raad, er (þer) kendut oss. Hrindit æigi saudum guds aa uillistiga fyrir þaa ueralldare(l)sku ok hegomadyrd, er opinberliga birtiz med ydr vera. Þer segit konung sættaz uilia med þeim skilmaala, at hann halldi ollum sinum soma. Enn þat hefir þann skilning, at ser greint logmal kirkiunnar ok curie samsetiz undir sidueniur, ok tapi sua kirkian æfinliga sinni frumtign ok frelsi. Þat syniz oss æigi uel standa i ydru brefi, at uer hafim stormælt fyrst Jocelin byskup ok Jon decaan, enn synt saakir þeira, þar sem þer uitid, at ꜵgliosar illzkur aasaka þa badaa med berri ohlydni bædi uit herra pauann ok oss.



Digitized by Google

Mun æi þat til, at þrent bann se fællit yfir þa bada, þott byskupinn se enn æigi bannsunginn. Verkit sialft bannferir mann i skipudu logmali heilagrar Romæ kirkiu, ok þat heitir pafa bann. Þat er annat, ef liosar sækir bera mann undir bannsetning sins byskups, ok sæ kallaz sunginn i bann. Þat er hit þridia, ef madr samneytir bannsettum med ohlydni ok fyrirlitning uid kirkiuna. Þessar greinir tiæm ver ydr æigi sem lærandi helldr synandi, huersu þessar greinir allar hladaz at Joni decan, ok þui mun ydr synaz ofmællt, at ver leitadim saka eptir afellit. Enn þat er oss æigi liosara, huar þer byskuparnir uilit suara þeim letrvm midil landa, at ydr skal mislika, þott opinberr glæpamadr se logliga pindr med stormælum. Enn þat er þer kaulludut appellera oss til herra pafans, virdum uer sua mikils, sem þer hafit med ollu þagat, þuiat kirkiunnar log lofa þeim einum appellera undan sinum formanni til ædra doms, sem þat gerir med skrifadri skynsemd ok naudsyn, enn æigi med æakasti ofundar ædr drambsamri hafnan vid sinn formann. Þurfi þer ok æigi þat starf fyrir ydr at leggia, at rekaz til Roms, þuiat þat herra pafans ualld, er hann eptir lagdi hia oss, skal ydr nægiaz, ef þer betriz æigi. Einkannliga mæ þik þar til nefna, Gillibert Lunduna byskup, ok brodr þinn erchibyskup af Jork. Þit gafut þat ræd, at fyrir konungliga ogn skylldi uorir umbodsmenn æigi sua diarfir, at þeir sendi oss ædr uorum naudzynium nockurn minnzta fiærlut. Var þat enn dicktat þuert moti logum, at þa fridheilaga eign, er ver hlifdum med appellacione, skylldum uer þarnaz i eyrendum kirkiunnar. Þui rangligarr greip konungs gardr ok þu, Lunduna byskup Gillibert, þat sama godz oss frauerandum, ok sua mikit, sem þu hefir undir þik dregit, krefium ver af þer undir banz uidlaugu. Mun ydr nu þickia sannaz þat, er þer skrifudut, at ver leggim þyngsl yfir þunga, þegar ver þegium æigi yfir þeim usoma ok hardbrysti, er þer ok uorir uuinir ueitid oss ok kirkiunni, þuiat utlegd uorri ok uorra frenda ok fiær upptoku, skapraun ok skada sampiniz þer þui sidr, at þer gangit i gripdeild ok hernat upp æ kirkiuna med hennar nidrbrotzmonnum. Ok mæ synaz undarligt, at þuilik framferd aflar ydr æigi kinnroda, ok kinnrodi ufremdar, ufremd idranar, enn idran umbotar, sua at fyrir retta yfirbot standi þer upp hedan gyrdir gudligu suerdi ok stridit[1] fyrir heilagri kristni, þuiat formanni er þat botlaus uanuirda at uarpa sinum folkuopnum ser æ bak ok uerda uondr flottamadr, enn uuinir leidi hans brudi hertekna med sinum sonum sua sem til utlegdar. Nu ef þer lydit ok hafit vort ræd til heilags umskiptis

[1] stridir *Cd.*

Digitized by Google

ok betranar, munu þer uel fara, enn ef þer halldit uppteknu, dæmi gud midil uar ok ydar. Valete.

*Af sendibodum pafans.*

62. Nv sem bref heilags Thomas erchibyskups kemr framm i Eingland fyrir byskupana, tiaa þeir konunginum, huern skilning þat hefir at hallda, ok einkanliga syniz þeim ollum saamt þungliga horfa þat, er sua stendr millum luta, at erchibyskup kasserar þeira appelleran ok þickiz hafa yfir þeim pauans valld, enn þat syniz þeim hættligt, sidan þeir uilia standa þar sem fyrr. Þui risa upp at nyiu miklar raadagerdir millum konungs ok byskupanna, huat upp skal taka, ok uerdr þat stodugt, sem um eina stund matti æigi miok likligt þickia, at herra konungrinn skrifi til Roms. Enn adr nockut greiniz, huat hann uill skrifa, maa uitr madr eptir leita, hui konungr þessi hafdi annan slag fra herra pafanum enn aannan til. Enn þat er synt, at umbrot ok obbelldi bar hann til huarstueggia, þuiat fyrirfarandi lutir ok fylgiandi uotta, at æigi uar hann idrandi madr, þa er hann sor sik undan honum, hugdiz hann at uinna i einum ryck bada saamt herra pauann ok herra Thomam erchibyskup. Þui bada, at herra pauinn skylldi ottaz ublidu sua riks hofdingia at beygia þar fyrir erchibyskupinn ser at knefalla. Enn er þat geckz æigi, syniz hann aptr uenda, þuiat hann skilr uel, at ærchibyskupinn færr hann æigi undirbrotid, utan þeir hafi einn ok sama domara, þuiat þat uar uonleysa[1], at ærchibyskup uilldi dæmaz af þrætumanni, þott Heinrekr konungr gæfi honum sin særi. Her fyrir semr Heinrekr konungr sitt bref til herra pauans med vndirhyggiu, at hann megi faa fullnat sinna maala allra. Enn þat ær sua reist med myckt ok bænarordum, at herra pauinn muni senda tuo legatos at profa aull þau maal, er snaraz i millum hans ok erchibyskups, ok þar med urskurda allri appelleran fraskildri. Annat bref ritar konungrinn til curiam heimolligum tueim uinum sinum af cardinalibus, er heita Uilhialmr ok Otta. Su er bæn konungs til þeira, ef herra pauinn uikz undir at gera legatos, at þeir biodiz til rekstrar ok mædu þar um, ok faai valld sem sterkaz at dæma yfir Thomam erchibyskup. Þessi raad byriaz aa allan hatt sem konungrinn bæ(i)ddi, þuiat herra pauinn er fridgiarn ok fysti miok, at unadir ok deilur mætti lægiaz. Þui skipar hann .ij. legatos til Einglandz. Tekz honum þat sua einkaanliga, at þeir somu verda skipadir, sem Heinrekr konungr hafdi kiorit. Ok ær þat æigi þydanda til lytis herra pauanum, sem vel

[1] uonleysta *Cd.*

lysiz ok profaz litlu sidar, helldr sua sem sæll Gregorius segir af formonnunum, at sa hugr sem dreifiz i margar ok ymissar fiolskylldr, leidiz fliott ok stundum bleckiz, ef fyrstu tilteyging verdr æigi fra uikit. Þat maa annat her til hallda, at æigi veri herra pauanum liosar allar lymskur sinna undirmanna.

Þessir taka nu oflugt ualld til profs ok urskurdar yfir ollum maalagreinum Heinreks konungs ok Thomas erchibyskups, raada sidan i ueg nordr um fiall. Ok er þeir koma i Franz, flytr sira Vilhialmr æigi diupara enn sua, at hann hrosar sinum heidr ok hæliz fast um, at nu hefir hann feingit valld yfir Thomam erchibyskup. Enn er Hloduir konungr fregn af ferdum þeira, huerssu uuænlig uar til godra luta, bregdr hann uit med ollum skunda, ok skrifar til herra pauans tiaandi bædi miukliga ok þo einardliga, huert missyni haandladi hug herra pauans, þa er hann gerdi ut slika sendiboda, sem raadnaztir mattu finnaz at fylgia ollum uilia Heinreks konungs, segir, at angr ok utlegd erchibyskups mun eingan leitta faa fyrir þess hattar utueg, helldr nyiar meingerdir ok undirbrot. Fær þetta lætr sua mikit aflat i frelsi kirkiunnar eptir skynsemdarordum Fracka konungs, at sira Uilhialmr ok þeir kumpanar uellta or ualldi, fyrr enn uardi, þuiat herra pauinn sendir bref a bak þeim, flettandi þa brutt af ollu doms atkuædi. Enn i leyfui leggr hann þeim um at leitaz, ef nockur fridr maa formeraz med þeira tillogum ok annarra lærdra manna. Enn er Uilhialmi kemr þetta aptrkast, bregdr honum helldr i brun, ok þo helldr hann fram ferdinni, þar til er hann finnr Heinrek konung fyrir sunnan sio. Mundi fagnafundr þeira hafa uordit helldr meiri, ef æigi hefdi vaalld tapaz med sua bradum atburd, þuiat æigi uar þar þuilikt, sem harmadi huarr annan. Nemr þar stad i raadagerdum, at sira Uilhialmr skal profa maalsnilld ok miukyrdi sina ok rida upp i Franz, bidiandi Thomam erchibyskup koma til samtals i þann stad, sem honum nefniz. Þetta sama ferr framm, at sendibodar kalla samt lærda menn ok iafnuel byskupa nockura. Þar kemr ok hinn heilagi Thomas med þeim tilbunadi heilagrar stadfesti, sem drottinn syndi honum a næstu nott fyrir þenna fund. Hann sagdi um morgininn sinum heimolligum monnum, at honum þotti nockur madr byrla ser eitr i einu gullkeri hardla uænu, ok þenna draum kallar hann ræsaz a þeim degi, þa er Uilhialmr cardinalis skeinkir honum skreyttar maalsemdir, þær sem erchibyskupinn skilr eitrligar fyrir innan ok kirkiunni meinsamligar, þott þær syndiz glæstar fyrir utan. Þui uikr herra Thomas a eingan ueg fyrir hans ordum ædr umleitan, ok skiliaz uid sua buit. Wikia þa enn sendi-

Digitized by Google

bodar aptr til konungs ok segia honum, huersu erchibyskup uar uuikianligr, þiggia sidan giafir uegligar ok uenda eptir þat aptr i Rom. Aufludu þeir fiaar enn frid aungan, ok sannliga hefdi þeim uerit betri heimaaseta.

*Hier bannar konungr at bidia fyrir Thomasi.*

63. Eptir þenna fund, er signadr Thomas hellt med sendibodum herra pauans, ridr hann aptr til Saainz. Maa nu uel segia, at honum flytiaz dagliga nyiar uhæfur nordan af Einglandi, er hann skilr leida af konungsins uuanum. Þui riss hann upp þessu næst framarr enn fyrr, gyrdandi sik sterkliga gudligu hefndarsuerdi þeim til hirtingar, sem nu geraz nidingar, þuiat hann ueit þann formann i guds banni, er latr legz nidr af hegning rettrar hirtingar ok refsingar. Nu sakir þess at hann ser ecki stoda godar aminningar, byriar hann sua i fystu sina framferd, at hann bannsetr odduita illzkunnar Gillibert Lunduna byskup ok Jocelin af Saarisber. Lysir hann ok af nyiu banni Jons decans, ok þar med bannsetr hann Rikard af Uincestr, er uar faurunautr Jons at uinna eidana fordum vpp aa saal Heinreks konungs. Hann bannsetr ok Rikard af Luci ok annan Jocelin af Ballolio. Þar med bannsetr hann uuin fridarins Ranulf af Broch, er med aannarri guds reidi hafdi þau boluanarverk, at sakir hatr(s) uid Thomam erchibyskup hellt hann nockura klerka sem herfangna, er honum voru heimonligir, sem hann saat heima i Kancia, ok her med helldr saa daudason siaalfan erchistolinn, sem fyrr uar sagt. Hann bannsetr ok þann mann, er heitir Hugi de Sancto Claro, ok annan, er heitir Thomas Bernardz son, þeir voru ransmenn kirkiueignar i Cancia. Her med bannferir hann marga af konungsins haull bædi raadgiafa, hirdmenn ok herbergissueina. Hann stefnir ok nockura klerka af konungs gardi i nefndan dag aa sinn fund. Enn sakir þess at þeir fyrirnemaz at koma, bannsetr hann þa somu leid ok adra. Ok sua er nu skipat kapella Heinreks konungs, at tapad hefir hon nu sinu hreinferdi, þuiat uarla finnz saa madr, at æigi se annathuart bannsettr ædr bannsettum samnetiadr. Enn huat taka þeir upp, er i þuilikan uanda uoru komnir? Þat sem hormuligt er at segia, at þeir bakuerpa alla idran ok yfirbot, helldr þickiz konungrinn ok hans hirdfolk hæfna sin aa Thomasi erchibyskupi med þeim udæmum, er hueriu manz eyra maa afskapligt heyraz. Þar sem kristnin uænz at bidia fyrir uillumonnum heidnum ok gydingum, þa geingr nu þat bod i hueria kirkiu um allt Einglandz riki, at eingin dirfiz lærdr ædr leikr hatt edr lagt at bidia fyrir Thomasi erchibyskupi.

Digitized by Google

Virdi saa sem uill, huat þessi guds madr hefir þolt umfram flest dæmi, er[1] fyrr uar hann utlægdr i likam[2] ok þar med ofsottr i limunum ollum sinum frændum, enn nu þolir hann ofsokn uondra manna upp a salina, sem ferligt er frasagnar ok uheyrt i pislarsogum heilagra. Her med hugsa guds uuinir ok erchibyskupsins, at þeir skulu hann fyrsmaa i ollum lutum ok eingrar lausnar af honum beidaz, helldr at skrifa til herra pafans, at hann sendi þeim lausn ok likn, at unytri allri framferd ok afelli erchibyskups.

Ok er þessi bref flytiaz brutt af Einglandi ok þadan upp i Franz, færr Lofuiss Fracka konungr sanna uissu, huat nu er dicktad til forlitningar erchibyskupinum. Fylliz saa blæzadr herra med vars drottins uandlæti ok skrifar sem hardaz til herra pafans, at hann standi sterkliga i herbudum himnakonungs, at æigi ofriz umilldir sua miok, at þeir syniz uega sigr a Thomasi erchibyskupi, bidr hann hallda sina valldzhand med heilagri stadfesti, sua at hann leysi eingan, þann er heilagr Thomas hafdi bundit. Ok sua fallin ord setr hann medal annarra: „Saa er angrar Thomam erchibyskup, sagdi hann, ædr minkar i nockuru hans uald, hann snertr meinliga vart augasialldr." Enn sua ymislig letr beggia konunganna med ser greindri bæn ok atstodu, sem nu koma fyrir herra pauann i sama punckt, var æigi fyrir sakleysi, þott hann mæddiz nockut i, sidan her for iafnfram flutningr ok atektir þeira, er hans raduneyti skylldu uera, þuiat i huerri tilraun standa sumir kardinales med Heinreki konungi, huat þeir mega. Enn þo hallaz herra pauinn sua undan enn um sinn, at hann leysir eyngan bannsettan, utan skrifar helldr til Fracka konungs bædi med bæn ok bodi, at hann til profui, huat er hann kann, at fridr mætti formeraz midil Heinreks konungs ok erchibyskups. Skrifar hann ok til margra hofdingia i Franz ok æigi sidr fram i Eingland, at þeir sæmi suo sinar tillogr med kristiligum goduilia, at heilog kirkia ok hennar klerkar mætti nadir faa. Hann ritar ok til Heinreks konungs sua fallit bref, sem her stendr eptir minni kuediusending.

*Bref pafans.*

Yduarri uitru ær uel kunnigt, huersu fodrliga uer hofum optliga yduar uitiad med aminning ok bænarordum fyrir oss ok adra, at þer skylldut virduligan brodr uorn Thomam erchibyskup taka i sætt med ydr ok giallda honum ok hans monnum kirkiur sinar med eignum ok ollum hlutum, er þeir letu aan logum. Er nu þessi

[1] enn *Cd.* [2] lakam *Cd.*

framferd sua uheyrilig kunnig vordin nær allri kristni, ok þo faam ver sa eingan ueg ydr myckt æigi med blidu ne stridu. Aflar oss þat mikillar hormungar, þuiat uon yduarrar leidreittu tapaz naliga fyrir oss, þar sem ver uilldim ydr elska sem hinn kiærazta uarn son, þui framar angrar oss saa haski, er þer eigut fyrir hondum. Nu krefr oss heilog ritning at aasaka ydr, þott ver elskim ydr, þa er hon segir sua formanninum: Kalla þu med stadfesti, þeyt raudd þina sem mothorn segiandi folkinu glæpi sina. Ok enn segir drottinn: Nema þu tiaair ranglatum rangleti sitt, mun ek hans blod ok lif af þinni hendi ut heimta. Nu bætir þu þui sidr þin ranglæti umlidin, at þu[1] eykr æ framleidiz ok finnr þa ofsokn med oheyrdu grimdarkyni, sem eingi framdi fyrir[2] þer, at ver hafim lesit, ok þa er þer þickiz byrgia hialparueg fyrir odrum, streingir þu aptr lifs inngongu fyrir þer sialfum. Nu bidium ver þann gud, er lif ok sæmd konunganna hefir i sinni hendi, at hann myki yduarn hug ser at þiona. Latid ydr æigi læging i þikkia at luta[3] þeim, er ydr skapadi ok giæddi godum lutum. Vilit þer oss ok æigi heyra, stendr yduart mal med miklum haska. Valete.

Enn huat Heinrekr skipaz til betra fyrir þetta herra pauans bref, virdi saa med ser, er less ædr heyrir þat næsta capitulum, sem her fylgir.

### *Af Thomasi erchibyskupi ok Heinreki konungi.*

64. Nv sem Fracka konungr hefir yfir lesit herra pauans bref til fridargerdar midil konungs ok erchibyskups, uill hann giarna hlydinn uera sem kirkiunnar son. Ok þui hefir hann sik frammi med þeim hætti, at hann kallar til sin konung af Einglandi, talandi med honum af þeim malagreinum, sem lesiz hafa i saugunni. Enn þat geymir uakrliga Lofuis konungr, aat a huerri stefnu ær hann helldr uid Heinrek konung[4], lætr hann iafnframm vera Thomam erchibyskup. Optliga bidr saa blezadr konungr, at huartueggi þeira sættiz heilliga, einkanliga tiaar hann Heinreki konungi, at hann hafi þann gud fyrir sinum augum, er honum leidi alla lysting þessa lifs, segir hann skylldugan at ombuna gudi med odrum hætti sinar ueizlur, enn strida upp a kirkiuna i Einglandi ok hennar klerka, ædr hataz vid Thomam erchibyskup. Enn þott hann tali sua, er þui likt sem hann uerpi ollum sinum ordum i uind, þuiat hardydgi Heinreks konungs er miklu meirr sollin til erchibyskupsins, enn hann faai nockura myckt fyrir slikar fortolur.

[1] þau *Cd.* [2] fra *Cd.* [3] lyta *Cd.* [4] k'gr *Cd.*

Digitized by Google

Nu geingr sua til aa nockurum fundi, sem þeir hallda, at Heinreki konungi flytz af hliodi, at Thomas erchibyskup med ollum sinum greinum muni gefaz i hans ualld, þui tekr konungrinn honum þegar helldr blidara enn eptir uaana. Ok þat sama syniz guds manni at gera þann sama dag, at rett sem konungarnir sitia badir saamt med morgu stormenni huarstueggia rikis Franz ok Einglandz, riss upp ath uuoru signadr Thomas ok geingr litillatliga fyrir Heinrek konung med þess hattar ordum: „Herra konungr, sagdi hann, allar þær greinir, er oss komu til aaskilnadar fra fyrsta tima ok her til, gæfum ver i guds ualld, at þer skipit eptir yduarri uilld, heilli sæmd ok halldinni vars herra.“ Vid þessi ord hin sidurstu styggiz hardla miok Heinrekr konungr, kastandi þegar meinmælum aa berar brynn erchibyskupinum, segir hann allt af bernsku verit hafa bædi digran ok drambuisan ok uminnigan allz þess godz, ær honum var uel til gert. Enn er Thomas erchibyskup hefir þolt þuilik ord, ær bædi voru hord ok hadulig, uikr Heinrekr konungr ser i sætinu at Fracka konungi ok segir sua: „Herra minn, sagdi hann, ek kann ydr segia med sannu, at huat er odru uiss uerdr mællt ædr gert, enn þessum Thomasi likar, segir hann sæ þat uera moti gudi, ok uer hafim þar fyrirgert ollu uoru godzi, ef uer ærum honum æigi eptirlaatir um alla luti. Enn til þess at þer ok allir godir menn uitid, at ek uil huarki leyniliga ne opinberliga standa i mot sannyndum guds ædr skylldri sæmd, þa er þat mitt bod til fridar ok nada, sem nu megi þer heyra. Ek segir sua, at margir hafa uerit fyrir mer konungar i Einglandi, sumir rikari enn ek, enn sumir æigi rikari. Margir hafa ok uerit erchibyskupar Kantarabyrgis fyrir Thomasi miklir menn ok heilagir. Nv huat er einnhuerr erchibyskupinn hans forfadir gerdi nockurn minnzta lut konunginum minum forfaudr, geri hann þat sama uit mik, ok munum uid uel semia.“ Þessi ord Heinreks konungs synaz ollum med bradu tilliti hardla rettuis utan einum Thomasi erchibyskupi. Ok margir tala med hareysti, at herra konungrinn lægir sik i nog. Enn Thomas erchibyskup suarar eingu til. Enn konungr af Franz talar sua til hans: „Vili þer, herra erchibyskup, uera meiri heilogum monnum, ædr Petro postola betri. Nu siai þer sialfir, at fridr er fyrir dyrum, ok þer megit faa hann, ef þer uilit.“ Thomas erchibyskup suarar þaa: „Satt er þat, herra konungr, at Kantuariensis erchibyskupar voru meiri ok helgari enn ek. Enn þott sierhuerr þeira aa sinum tima hreinsadi saur ok syndir folksins med rettuisi ok kæmi þui morgu af kristni guds, er langr uuani hafdi halldit, feingu þeir æigi ollu radit eptir guds logum, ædr huerr mundi nu þenna freistanarelld

Digitized by Google

moti oss ok uorum uinum upptendra, ef þeir hefdi med rotum uppsnidit þat, er guds rettindum var i mot. Enn þott einnhuerr þeira hafi annathuart miok slior ædr of forr uerit, ær oss þar af æingi dæmi dragandi, helldr skylldumz ver fyrir gudi at gera suo, sem uer uilium suara. Enn at tala til hins heilaga Petrvm, er hann æigi fyrir þat lofandi, er hann neitadi Kristi, helldr sæmum ver hann ok sælan segium, er hann stod med kristiligri einurd a sidurstum timum allt til krossins. Ok med þui at hann uilldi æigi þat samþyckia vit Neronem keisara, sem hann sa horfa til saluhaska, leyfdi hann oss formonnum þat dæmi, at kaupa æigi stundligan frid med uanuirdu laganna ædr þaugn kirkiunnar rettinda. Nu ef ek keypti sua dyrt daudligs manz uinattu, at ek gerdi þa burdi sem þrælborna, er uorr herra frialsadi med sinu blodi, firdiz ek hardla miok eptir dæmi hins heilaga Petri. Fiarri se þat minu lifi ok langt af.“ Enn sua sem þessi ord heyraz af erchibyskupi, likiz þessi fundr þeim, er hann atti fyrr i Nordantun, þuiat nu amælir honum huer tunga, segia hans ofstærd ok ifirgirnd þui uallda, er menn mega æigi frid fa. Ok einn iall af Einglandi skytr a eyrindi, hann segir sua: „Med þui, sagdi hann, at erchibyskup þessi kyss þann hlut ser til handa at nidra rikismonnum ok uanuirda huers manz tillogur, þui geri sua vit hann Franz sem fyrr Eingland, fari sa radlauss, sem reika uill, ok eingi fylgi honum.“ Sua segir iallinn, ok mun gud þui mot standa, at sua uerdi. Ok þott Lofuis Fracka konungr uerdi nu leiddr um sinni nogu miok med falsyrdum ok undirhyggiu Heinreks konungs, mun drottinn sua geyma hans, at freistni uondra manna firri æigi Thomam erchibyskup þeiri hialp ok fridi, sem hann hafdi þegit i Fracklandi.

### *Af skilnadi konunga.*

65. Þenna fund, sem nu var lesinn, helldu konungar sidaz at sinni midil sin i Franz. Er nu skipat, at af þeim fundi skal Heinrekr konungr venda heim aftr i riki sitt. Er honum fyrirbuin nattueizla i þeim stad eptir skilnad konunganna, enn Fracka konungr hefir skipad sina reid i annan stad, er heitir Mons Mirabilis, ok þo uikr sua ueginum, adr hann kuislaz til þessarra beggia stada, at badir konungarnir æro i saumu reid. Gera þeir sua sem skilnad sinn, adr þeir stigi a hesta, badir nu likir med stygdar yfirbragdi til Thomam erchibyskups, þuiat huargi þeira heilsar hann. Rida þeir a ueginn fyrir, þuiat guds madr verdr[1] seinna buinn. Enn þo

[1] verda *Cd.*

er hann rædinn, huersu styggiliga sem Fracka konungr lætr, at honum skal hann fylgia til gistingar. Enn huart Heinrekr konungr læs nockut annat fyrr æ ueginum, greinir æigi bok, enn þat ær skrifat, at hann setr Thomasi erchibyskupi gilldau umlestr med graleitu gąbbi, ok i millum annarra brigsla hæliz hann mikit um, segiz hafa hefnt sin æ þeim suikara. Ferr hann ok eptir sinni uilld noga fylgendr i malinu. Þuilikar æru ordrædur konungsmanna, sem Thomas erchibyskup kemr framm i ueginn. Heyrir hann nu giorla, huersu þytr, ok þegir þo med ollu, þar til hann suarar einum þeira bædi lagt ok linliga. Sæ madr heitir Jon Pictauensis byskup, enskr at kyni, ok hafdi fordum verit godr felagi Thomass erchibyskups. Hann er nu sua hardsnuinn i sinum tillaugum, ath aull kristni i Einglandi myndi falla, ef þessi ofstærismadr Thomas skal henni leingi stiorna. Her til suarar guds madr: „Sia uid, brodir, sagdi hann, at heilug kristni fai fyrir ydr æigi nidrfall, þuiat guds miskun mvn sua til hialpa, at fyrir minar syndir fæi hon æigi nidrhrapan.“

Skilia sidan konungarnir aluarliga. Ridr sæll Thomas þar eptir, sem Fracka konungr ferr fyrir. Koma þeir sua fram i þann stad, sem fyrr var nefndr. Er nu skipan æ komin, þuiat sin herbergi hafua huarir konungr ok erchibyskup, enn þo ueittuz signadum Thomasi allir hlutir[1] nogliga af konungs gardi. Brugdit er ok þeiri skipan, sem Lofuis konungr hafdi halldit um hrid at finna erchibyskupinn, ok þar er audfundit, at fæd er inngeingin med honum. Þar fyrir uglediaz hardla miok fylgdarmenn hins signada Thome, ok þyckiaz æigi sia sin ræd, ef þeir flotna upp af Franz[2] fyrir ublidu konungsins. Enn heilagr Thomas helldr sik med ollu(m) rettum, ok æigi bregdr hann sinni bæztu glædi. Af fyrr nefndum stad ridr Fracka konungr i þann stad, er Celtres heitir, þagat ridr ok herra erchibyskup. Enn er hann nalgaz kastalann, rennr ut margt folk sakir foruitnis æ ueginn moti honum, ok þeim, er ut fara, mæ uel heyra þat, er sannleikrinn segir, at gud fadir birtir þat optliga smasuæinum, er leyniz fyrir spekingum. Þessir gledia guds mann, þa er þeir segia sua: „Siæ, felagi, þar ridr hann erchibyskupinn, sa (er) fyrra dags æ konungsstefnunni hiellt ubeygdri sinni stadfesti ok æigi lægdi guds rett fyrir hot ædr r(e)idi konungs af Einglandi.“ Sua æro konungr ok erchibyskup samtida i Celtris, ok þadan rida þeir badir samt til Sainz. Duelz konungr þar um rid, ok stændr fæd hin sama. Enn þo hefir herra erchibyskup allan kost a sua uænan, sem þa er blidaz uar.

[1] hlytir *Cd.* [2] framz *Cd.*

Digitized by Google

Lidr nu sua þar til sem einn dag sitr erchibyskup med sinum heimolligum monnum i lucktu herbergi. Ferr þa enn til ordrædu, hvat fyrir mun liggia, ef reidir undir fotum. Erchibyskup þegir hia um stund, enn talar sidan: „Ei stendr oss kristnum monnum, segir hann, at kuida nockuru, ver eigum þann fodr a himnum, ær alla forsio þerr fyrir uorum naudzynium, sem sialfr uottar hann i sinum ordum: Leitid fyrst himinrikis, segir hann, ok æhyggiz um ecki sidan. Mun ok þessu næst sua uerda, sem þer mundit kiosa, segir erchibyskup, ok þui berit ydr uel.“ Ok hardla nærri þessum ordum klappar einn af konungsueinum, ok þegar inngeinginn segir hann sua: „Herra konungr af Franz kallar ydr.“ „Til þess, segir einn af kumpanum erchibyskups, at reka oss alla i brutt af rikinu.“ Heilagr Thomas suarar: „Huarki berr þik til spadoms uauxtr ne kynferdi, ok þui lat liggia þær gøtur, sem þu uillt giarna at eydiz.“ Sidan stendr hann upp ok fylgir pilltinum framm i herbergi Fracka konungs. Sem hann geingr inn ok nidr setz, ser hann þegar, at konungrinn er haundladr med harmi nockurum, þuiat hann sitr med hneigdri æsionu þegiandi, ok eingin var þar gladr inni. Sem sua hefir lidit um eina stund, eflaz nu sumir erchibyskups menn i þeiri hugsan, at konunginum muni fyrir þickia at kuedia þa brutt af rikinu, enn þat muni þo fyrir uist upp spretta. Sua ferr æigi til, (sem) þeir hugdu, helldr framarr uel enn nockur(n) mundi uara, þuiat Fracka konungr stendr upp af sætinu, ok fellr allr til iardar fyrir erchibyskupinn med sua tarligri godfyst ok idran, at hann matti uarla tala. Herra erchibyskup uilldi giarna lyppta hann upp ok leitta hans harm. Enn þess er eingi kostr, fyrr enn konungrinn hefir gert suo miuka iatning, sem honum þickir þurfa, fyrir þa[1] usannsyni, er hann hefir i fallit. Þar af segir hann sua blezadr med gratligri roddu: „Sæti fadir minn, sagdi hann, þer einir skilldut rett, enn ver allir uorum blectir ok blindir, er þat ræd gafum ydr med uilia ok yfirgirnd daudligs manz, at gefa guds sæmd ok kirkiunnar reitt undir leikligt ualld. Miok idrar mik ok angrar, miskunna mer, kærazti fadir, ok leysit mik af þeima glæp. Heit ek þui til yfirbotar, at fra þeima degi skal ek i eingri raun fraskila verda i þui ollu, sem ek mæ ydr styrkia.“ Enn uirdi þat uitr madr, med huiliku hiarta erchibyskupinn sua fallinn mundi upp sitia bædi med fagnadi andar ok likams, sidan hann heyrdi sua halæita[2] mykt af slikum manni. Will nu konungr upp risa med fylgi erchibyskups, skilia þeir sua med miskunn heilags anda, at signadr Thomas ok hans

[1] þ't *Cd.* [2] helæita *Cd.*

Digitized by Google

menn geingu enn gladari brutt enn þeir kuomu. Er nu æigi langt, adr ꜹdsyniz umuending Fracka konungs, þuiat hans signud elska ok heimonleikr kemr aptr i ollum greinum til Thomam erchibyskups. Færr nu guds madr af þessarri sinni stadfestu, ær nu hafdi hann næst framit, sem nyia frægd um allan Franz.

*Af fvndi Thomas erchibyskups ok konunga.*

66. Nu ær þar til at taka, sem konungr i Einglandi spyrr, huersu Fracka konungr hefir herra Thomam aptr tekit i alla aulnerd ok blidu, sem þa er bazt var. Grefz hann innan med sinni grimd ok gerir sendiboda med brefum til konungs i Franz. Þar er sua skrifæt, at hann segiz hardla miok undra, hui Lofuis konung lysti sua gera, at hallda þann mann i uirktum, sem ollum monnum gerir vnadir: „Þer sialfir, segir hann, uorut nærr, sæd ok heyrdut, huerssu ek lægdi mina tign, bodinn til allrar reittuisi, þer heyrdut ok æigi sidr, huers ofbelldi þat uann, er fridrinn feckz æigi, ok þo elski þer þann ok halldit med sæmd i ydru riki. Nu med þui at hann fyrirsmædi bædi ydra tillogu ok allra annarra, stendr ydr þat æ eyngan ueg at stydia hann ædr hallda mer til uanuirdu ædr kinnroda." Enn er Fracka konungr hefir þessi bref yfirlesit, segir hann sua sendimonnum: „Farit heim aptr til konungs yduars, berandi honum þessi ord: Ef hann kallar þat fylgia krunu sinni at hallda sidueniur allar i Einglandi, þott monnum syniz þer berliga moti kirkiunni, [fylgi vorri[1] krunu med erfdum miklu lofsamligar at hialpa nꜹdstaddum ok einkanliga guds kennimonnum, er vtlægiaz moti ollum rettinndum. Nu skal Thomas erchibyskup ryma þui sidr ut af Franz, at fyrir huert bref, er Heinrekr konungr sendir, skal uaxa uirding hans." Þuilik eyrendi faa sendimenn, ok batnar æigi briost Heinreks konungs, sem þeir flytia[2] honum hinu sidurztu ord, er nu voru lesin, ok at uikia sæmdum Thome ærchibyskups.

Suo ok i annan stad sem guds madr fregn þuilikan kærleik til sin af Fracka konungi, gerir (hann) gudi margfalldar þackir, ok her fyrir treystiz hann at bidia konunginn, at hann med sinu stormenni, bædi byskupum ok leikualldi, skrifi til herra pauans, huersu fundr þeira Heinreks konungs vard hinn sidarzti, ædr huat olli, ær þeir sættuzt æigi. Ok þetta veitir giarna konungrinn bædi fyrir sik ok adra, at hann skrifar til Roms, huerssu for, ædr huern haska heilog kristni þolir i Einglandi, ef sua skal leingi standa, ædr huerssu uorum herra mun lika su hin langa utlegdar pina, er meinlꜹss erchi-

[1] [fyrri voru *Cd.* [2] fyltia *Cd.*

Digitized by Google

byskupinn þolir. Ok at þessum brefum lesnum i Rom, angraz at nyiu herra pauinn, at Heinrekr konungr skal eingan enda gera sinna uanndkuæda, ok til þess at æigi syniz hann med ollu hiaa ser leida, enn uilldi giarna med godu uinna, gerir hann tuo sendiboda til Einglandz, at þeir tiæi Heinreki konungi, huat honum hæfir til lifs ok urgongu sinna uanndræda, at æigi ofþreyti hann miskunn guds ok þolinmædi heilagrar Roma kirkiu. Enn af ferdum þessarra sendiboda siaam ver æigi naudzyn at gera leingra, enn þeir fundu Einglandz konung ok uinna eingan lut minnzta med sinum fortalum, þuiat uerndir uoru nogar ok afsakanir i ollum lutum bædi af konungi ok hans monnum. Suo uenda þeir aptr i Franz ok finna Lofuis konung ok Thomam erchibyskup, greinandi huarumtueggia motbaarur ok kloksamligar sakuerndir Heinreks konungs. Þadan fara þeir aptr i Rom, ok ær uti þeira ferd[1].

Enn þessu næst ær þat segianda af Heinreki konungi, at hann gerir sina pilagrims(ferd) til Dionisium i Franz, þar sem heitir Mons Martirum, ok saa guds kappi let sitt lofsamligt lif. Herra Thomas ærchibyskup lætr æigi sem hann heyræ, æt Heinrekr konungr se þar i landi. Enn Lofuis konungr setr sua rad med sinni blezadri godgirnd, at þeir finnaz konungarnir. Sua hefir hann ok ord sent herra Thomasi, at hann skal þar koma. Hefir nu Fracka konungr sik fram med byskupum ok audrum godgiornum monnum, at Heinrekr konungr uægi fyrir guds skylld ok lægi þau uanndkuædi, sem monnum hafa leingi meinat i missætti þeira erchibyskups. Enn þar i mot æru þegar nyiar sakagiptir, at Thomas erchibyskup hafi i eingu anzat honum, sidan hann kom i Franz, ok einga uirding honum ueitt. Fracka konungr bidr hann kierliga fyrir dyrd ok uinattu þeira heilagra manna guds, er nu hafdi hann heim sott, at hann skyli mykiaz ok taka Thomam erchibyskup heim i land med heilli sætt ok hiartaligan kiærleik uorum herra til lofs ok heilagri kristni til fagnadar. Her kæmr mali, at Heinrekr konungr syniz uerda leiddr med fortaulum sa hialpsamligan fridarueg, segir þann sinn godan uilia, at Thomas erchibyskup uendi heim i land ok takæ alla sina sæmd. Ok sem þat er iattad, tala nockurir med fagnadi, at konungrinn skuli minnaz til ærchibyskups med fridarkoss, at þui elskuligar megi fra beraz, huerssu þeira sætt hafi gerzt. Enn þar suarar sua til Heinrekr konungr: „Vel maa ek kyssa Thomam erchibyskup, sagdi hann, enn med þui at ek sor þat einn tima i brædi minni, þa ær mer mislikadi til hans, at ueita honum eingan koss um alldr,

[1] fadir *Cd.*

þa ser ek æigi naudzynligt at riufa min særi þar um." Thomas erchibyskup skilr þessi ord, ok kennir þegar af kunnri lund, at æigi er briostid biart, þott ordin fari sliett, ok þui suarar hann opinberliga, at þetta helldr hann eingan sættarfund, utan fridarkoss fari til eptir suo stora misþyckt, sem uida um laund var nu kunnig. Huat leingra, enn Heinrekr konungr segir naudzyn krefia, at menn taki nad eptir langa mædu, segir dag lidinn ok[1] langt i myrkri at rida til herbergis. Sua lyktaz þessi fundr, at Heinrekr konungr ridr i ueg ok ueitir Thomasi erchibyskupi enn klausur nockurar æigi fagrar, segiz hafa uerit þyngadr fyrir hans skylld um allan þann dag, ok þat fleira sem hann lætr riuka. Sie sua uendir hann heim i riki sitt, enn heilagr Thomas aptr i Saainz. Stendr nu sua um stund, at margir godir menn harma, ær æ skal nockut moti risa faulsudum fridi millum þessarra hofdingia.

*Af vigslu Heinreks vnga til konungs.*

67. Lasum ver i fyrsta kapitulo, huersu Heinrekr konungr for undan at gefa signudum Thome fridarkoss. Skildi þat ok rettliga guds madr, ad þui uolli su særa samuizka, er hann bar i briosti, sem enn profaz, þuiat Heinrekr konungr hefir fullan vilia sem fyrr at auka meingerdir erchibyskups, ef hann maa. Enn huat mun hann nu til fa? Utlægdr ær nu adr erchibyskupinn ok allir hans frendr, godzin upptekin, uhlydni hladin med sua uheyrdum illuilia, ad hann skal þarnaz bæna midil kristinna manna, ok þo þrotnar æigi uondr raadgiafi at fera hedan (meira) fram[2]. Heinrekr konungr hefir þat med hondum at lata uigia til krunu Heinrek son sinn, ok þui sua bratt, at heilagr Thomas skyli missa þeirar sæmdar, er honum einum til heyrdi eptir æfinligri frumtign Kantuariensis kirkiu, at smyria ok kruna konung i Einglandi. Enn til þess at æigi syniz konungrinn gera þessa smæn erchibyskupi med einuilld sinni, smidar hann þau raad at leida herra pauann i sáamþycki ædr enn framarr i fullkomliga skipan, at sia uigsla fremiz fyrir utan alla rauksemd Thome erchibyskups. Med sua uheyriligri bæn gerir konungrinn sina sendiboda til Roms med brefum, er þar einkanliga ok eiginliga nefndr Rodgeirr erchibyskup af Jork, at hann kruni herra konunginn med herra pafans skipan ok orlofi. Enn med þui at herra pauinn Alexander hæfir þar yfir sanna uissu, at þessi uigslugerd ær eiginlig Thomasi ærchibyskupi, skilr hann ok æigi sidr, huadan þessa umleitan leidir, þui skrifar hann aptr i gegn til Heinreks konungs

[1] at *Cd.* [2] þat *tilf. Cd.*

med hofsamligum greinum, at þa bæn, ær uigslugerdinni heyrir, stendr honum æigi at ueita, nema Thomas erchibyskup leggi til blida samþyckt fyrir sik ok erchistolinn i Kancia. Ok med þui at herra pavinn grunar fyrir þat hatr ok uhlydni, sem Thomasi erchibyskupi ueitiz i Einglandi, at byskuparnir muni dirfaz æigi þui sidr med eptirlæti vit konunginn at gera uigslu þessa, þa gerir hann onnur bref til Thomam erchibyskups, at honum uerdi allt þetta efni kunnigt uel, þar med lætr hann fylgia þat opit bref, at fyrirbydr undir þanz pinu, at nockur byskup i Einglandi dirfiz a þa uigslugerd utan uilld Thomas erchibyskup(s). Koma þessi bref huartueggi framm, sem skipat var, ok æigi þui sidr heldr Heinrekr konungr uppteknum hætti kallandi saman byskupa med sanefndum degi, at þeir kome til Lunduna i festo Johannis baptiste at sæma uigslu Heinreks unga sonar hans.

Enn er signudum Thomasi flytiaz herra pafans bref, ok þar med nockura frett nordan af Einglandi, at æigi muni fiarri fara þui, sem pauinn gat, ok framgirnd ok uhlydni byskupanna, þa gerir hann sina sendiboda til Einglandz, at byskupum beriz bodskapr herra pauans, at þeir halldi sinar hendr af sagdri uigslugerd. Enn þar er annat fyrri, þuiat byskupar uilia æigi sia brefit, helldr fara þeir framm sem til uspilltra mæla. Geriz su boluut uigsla af Rodgeiri ærchibyskupi i Petrs kirkiu vit Uestmystr i Lundunum. Stodu þar nærri tueir byskupar bannsettir Gillibert ok Jocelin ok margir adrir bædi klerkar ok kennimenn. Eftir Heinrekr konungr gamli ueizlu mikla i uigslugerd sonar sins, ok þionar sialfr þeim nyia konungi, ok æigi uill hann nu samdægris lata kalla sik konungsnafni. Maa þat likligt þyckia, at samsæti þetta uer(i) þui likt, er fordum hellt Herodes tetrarcha, þa er hofut Johannis baptiste var uppdiskat. Enn þo berr þat umframm i þeim stad, at her satu fleiri opinberliga bannsettir. Enn suo mikit forz ok frammgirnd sem Heinrekr konungr gamli lagdi til at kruna son sinn ser lifanda, maa uera, at hann idriz þess innan sidarri tima. Eigi maa ok synaz undarligt, þo med leyndum guds domi vyrdi þat land ok folk vndir miklu afelli uheyrdrar glæpsku eptir litinn tima lidinn, er sua uafdiz afskapliga huerr med odrum at fyrirlita sialfan gud ok hans umbodamenn, einkanliga sialfan herra pafuann ok sinn eiginligan erchibyskup sua heilagan.

### *Af bodskap ok forbodi pafans.*

68. Nv sem heilagr Thomas erchibyskup spyrr þessi hormungartidindi, huersu Heinrekr konungr hefir nv enn ofgeystr farit i uigslugerd sonar sins, þickir honum æigi liett sa bioda um hans vannstilli.



Digitized by Google

Virdiz ok sua erchibyskupinum, sem her see sæ lutr uunninn, at med ollum sinum greinum megi sæ einga lund opindr uera, ef Roma kirkia ok login skulu nockurn rett hafa. Þui skrifar hann til herra pafans greinandi i fyrstu, huerssu þeir Heinrekr konungr funduz in Monte Martirum[1], ok huad þa geck til, er þeir sættuz æigi. Her næst skrifar hann, i huersu hafa þionustu Heinrekr konungr hefir leitt bannsetta byskupa i Einglandi med allri þeiri ohlydni vid Roma kirkiu ok forsman Kantuariensis kirkiu, sem herra pafanum er kunnig. Her med bidr hann, at postoligr herra risi upp til hegndar fyrir sua udæmiligt verk, ok þott her til hafi þolat verit, segir erchibyskupinn berum ordum, at hedan upp er æigi þolanda. Miok iafnfram skrifaar Lofuis Fracka konungr til herra pafans af sama efni æi med lægra krapti elskunnar til guds ok kirkiunnar, þuiat hann herdir berliga herra pafuann til rettrar framferdar, bidr hann þar til uirda sina þionustu ok þeira uinattu, at uuinir Thome erchibyskups taki sin giolld, sem login dickta þeim, ær uhæfur hlada sæn aflati ifir haufutglæpi. Enn þann tima sem herra pafinn ser þuilikt bref, piniz hans hugædi, þuiat langar bidstundir til bata gera uondum monnum mikinn uoda, þui tekr hann um sidir ser i hond hefndarsuerd hins heilaga Petri, skrifandi til erchibyskups Rotomagensem, er Rotherodus heitir, ok til Bernardum Niuernensem byskups, at undir krapti heilagrar hlydni fari þeir badir sem fyrst sæ fund Heinreks konungs i Einglandi, berandi honum einardlliga med ognarordum þann bodskap, at ef hann semr æigi falslausan frid med Thomasi erchibyskupi undir retta yfirbot ok aptrskipan allra luta, skal hit sterkazta forbod falla ifir allt hans riki, sua fyrir sunnan sio sem i Einglandi, enn hann sialfr med fullu bannsetiaz. Aunnur bref gerir hann til Thomam erchibyskups med þeim formala, at þau somu bref skal hann uppi lata þeim tima, er honum likar. Enn sæ herra pafans bodskapr er sua fallinn, ad Rodgeirr er af flettr ollu embetti, ok enn fleiri byskupar, ær uid voru uigsluna. Enn her umframm geingr þat bref, er enn bodar Gillibert ok Jocelin at nyiu sem fyrr bannsetta. Þenna bodskap allan saman berr ut af curia uirduligr madr byskup af Sainz, þuiat hans eyrindi var þat i Rom at flytia frialsi kirkiunnar bædi af halfu Fracka konungs ok erchibyskups. Enn þann tima sem greindir byskupar Rothomagensis ok Niuernensis heyra pafans bodskap med sua sterkum ordum sæ sialfa hlydni Roma kirkiu, bregda þeir uid badir sem rauskir menn, sækia Heinrek konung fyrir sunnan sio berandi honum heilliga ok storum einardliga, huat er þeim var

[1] martirio *Cd.*

bodit, segia honum i opin augu, at afleiding(a)r ok ordaglæsur hans eptir uana stoda honum nu æigi, skyra honum þar med, huert æfelli yfir gnæfir ollu hans riki sua fyrir sunnan sio sem i Einglandi, at þegia skulu allar kirkiur ok eingin þionusta fremiaz utan skirn ok skript daudstauddum monnum, þeim er leita med idran ok yfirbot annmarka. Her med tiaa þeir konunginum, at nefndr ær dagr af herra pafanum, nærr þessi strida ok stormæli skulu avll publiceraz, ef æigi sættiz hann fyrri med heilum hug ok aluarligum fridi til Thomam erchibyskups. Votta þat ok liosliga, at hiaa þeim liggr bodskaprinn, ok þeir skulu frambera fyrir huers manz þock þat, sem þeim er skipat. Heinrekr konungr ser nu, at sundin miofaz helldr til utsiglingar, ok þui uikr hann sem honum syniz til þeirar mycktar, at sættarfundr er settr i Franz upp aa[1] festum Marie Magdalene. Sækir þangat allmikit folk. Einkannliga kemr þar Lofuis Frakka konungr med sua blezadri astundan sem fyrr, at hann kallar þaa menn i sina fylgd, sem hann uissi godgiarnazta at sætta sundrþycki. Aa þat mot sækir ok signadr Thomas erkibyskup. Enn huort er þui olli meir fiolmenni edr forspaa okominna hluta, skipaz þessi sættarfundr i aungri borg edr kirkiu helldr undir berum himne aa einni fagri iord, er landzmenn kalla Suikara Eing.

### *Af sætt erchibyskups ok konungs.*

69. Sem sættarfundr er skipadr, hafa herra pafans sendibodar sik frammi mille annara godra manna. Er nu eigi langt, þuiat Heinrekr konungr gerir sik sua miukann, at þeir er fridinn leita, kiosa upp aa hueria grein. Hann iatar med ordum ok handleggr erchibyskupinum, at þær aanefndar iardir, sem hann hefir lengi halldit undan erchistolinum i Kancia, skal hann med fullu skilriki aptr leggia. Hier med gerizt bref aa þeim sama fundi, at Heinrekr konungr skrifar heim i Eingland ollum ualldzmonnum ok alþydu, birtandi fullkomna sætt i ollum hlutum, huort er til heyrir fastri eign edr lausum penningum. Ok suo er nu gert um alla hluti, sem þeim syndizt aurugt i falslausann frid, er aa medal gengu, þo at maunnum segdi nockut misiafnt hugr um, huersu ganga mundi, ok toku þeir þann efa fyrir liosa skynsemd, at huat madr iatar fyrir þraunguing eina samt, gengr honum eigi nær hiarta til godra lykta. Enn huat er nu grunar huern þar um, gera menn þackir þo gudi fyrir ok kalla dagsuerkit hardla nytsamligt. Ok þann tima sem fundrinn leysizt ok menn buaz til burtreidar, uikr T(h)omas erchi-

[1] *Her begynder en anden Haand i Codex.*



Digitized by Google

byskup at Heinreki konungi ok leidir hann sa einmæli. Giorir konungrinn sig hardla miukan at uikiaz eptir, sem erchibyskupinum likar. Heilagr Thomas byriar þa sua fallinn ord: „Minn herra konungr, sagdi hann, eg bid, at yduart ualld styggiz eigi uid, þo at Rodgeir erchibyskup ok enn nockurir fleiri adrir fai laugliga hirting fyrir þa tekiu, sem þeir hafa framit i uigslugerd sonar yduars.“ Þessu iatar konungrinn blidlega, at þat maa geraz utan hans forþyckiu. Sæll Thomas þackar honum þessi ord med frabæru litilæti. Konungrinn spyr þa: „Huersu ætli þier nu at rida, herra?“ sagdi hann. Erchibyskup suarar: „Ek hefi hugsat at uikia upp i Franz til uina minna, adr ek snyr heimleidis.“ Konungrinn talar: „Þat mætti nu synaz uel fallit, at þier ridit med oss ok synit sua nyian frid ok felagskap eptir langa misþykt.“ Erchibyskup suarar: „Oss ma þat riettliga uirda til ohæuersku, ef uær faurum sua af Franz med fliotu uidbragdi, at uer þauckum eigi hofdingium þessa landz þa goduilld ok uelgerdir, er þeir hafa oss tied i uorri naudzun. Enn þegar uer uerdum lidugir hier af, skulum uær giarna til yduar koma.“ Konungrinn talar þa: „Þessu munu þier rada, enn þo syniz oss uel fallit, at fyrir godra manna augsyn, er heyrdu uara fridargerd, taki þier ydr til fyl(g)dar einn af uorum heimolligum maunnum iafnfram þui brefi, er uær skrifodum til Einglanz, at þessir tueir uottar gangi med ockare sætt, ok synit, huar sem þier komit.“ Þessu iatar giarna erchibyskupinn. Tekr konungrinn þar til einn dekan af Sarisber at fylgia sælum Thomasi. Ok uæri þessi hans gerd loflig, ef hun gengi af hiarta med saunno hiarta ok goduilia, enn eigi til þess at hneckia med undirhyggiu herra pafans bodskap ok hneigiaz sua undan þui aafelli, er hann uar makligr at faa. Hier med leggr konungrinn erchibyskupi þat blidubragd nu at sinne, sem godir menn glaudduz af, at hann sialfr stendr nær, sem herra byskup heilagr Thomas stigr aa hest, ok ber stiguel at hans fæti. Skilia sidan med blidum kærleik.

Vendir Heinrekr til Nordmandi, enn erchibyskup upp i Franz, ok þar duelz hann um hrid, þuiat uitrir menn leggia þat til med honum, at hann siaiz uel fyrir vm heimferd sina i Eingland, leggi enn helldr Heinreki konungi til nockura raun i fyrstu, er dagar lida, huersu fastordr hann er i fridinum, hier med at erchibyskup geri sina sendiboda til Einglanz med sættarbref þeira Heinreks konungs, at þeir heyri ok honum aptr flyti, huersu sættinn romaz i landinu. Þetta sama rad hefir guds madr, at hann sendir til Einglanz med sættarbref ok þar med stormælabref byskupanna, sem fyrr uar tiad. Enn adra sendiboda gerir hann til Heinreks konungs, at hann megi

Digitized by Google

þadan marka, huersu konungr helldr sættina. Þessir sendimenn eru sæmiligar personur, heiter annar meistari Jon, er næstr uard byskup i Kancia eptir Thomam, annar sendibodi er Herbert af Boseam. Þessum bydr erchibyskupinn med stauddu, huart konungrinn uill hallda ord sin um aptrlag eigna þeira, er iatadar uoru i þeira sætt. Ok ef þeim profaz konungr uel staudugr, skulu þeir fara fyrir erchibyskupinn til Einglanz med eyrendum hans, enn elligar skulu þeir aptr uenda sama ueg. Fara þeir ok finna Heinrek konung i Nordmandi, ok heilsa hann af erchibyskup(s) halfu spyriandi litlu sidar med rauksamligri einord, huart eignir þær eru lausar, er hann iatadi a sættarfundinum. Enn konungr bregdr a lund sina, suarar um fatt ok hefz undan. Sendibodar eru diarfir ok knyia fast a o(r)skurdi. Konungr ris þa uid ok suarar sua: „Meistari Jon, segir hann, fyrr skulu þier syna mier ok minu riki meire goduilld enn fyrr, adr enn ek ueiti ydr nockud.“ Þeir kumpanar sia fyrir þessi konungs annsua(u)r, at gert er eyrendi þeira, hafa sig aptr i uegh a fund erchibyskups. Enn er þeir flytia honum, huersu for, geymir guds uin orda sinna, þott honum mislike miok.

### *Af erchibyskupi ok konungi.*

70. Nockurum tima sidar enn Thomas erchibyskup hefir fundit brest i sættargerd þeira Heinreks konungs um eignir þær, er greindar uoru, fellr þat efni til, at stefna er laugd i nefndum stad i millum konungs ok erchibyskups ok Th(e)oballdum iarls af þeim stad, er Blesis heitir, þuiat greinir nockurar gengu millum þeira til askilnadar. Þui ridr Heinrekr konungr upp i Franz ok duelur i Turon nockura daga, þuiat stefnutiminn er eigi kominn. Enn er heilagr Thomas fregnar til fara konungsins, ridr hann i Turon, þuiat honum er forkunnr at freista enn, huersu at[1] fari med þeim. Enn er konungr heyrir nalægd erchibyskups, synir hann i audru lagi suo mikid tillæti, at hann gerir fyrst sina menn heimolliga langt a uegin fyrir hann, enn ridr sidan sialfr moti honum. Enn i adra grein fylgir þat, at herra Thomas þickiz hafa sied stundum blidara Heinrek konung, enn nu er i þeira fundi, ok suo stendr þat til kuellz. Enn arla um morgininn eptir sem konungr er klæddr, lætr hann syngia sier salumessu, ok þui hana helldr enn dags officium, at hann uill eigi hætta til at taka pacem af erchibyskupinum, ef hann stædi at messunne. Eptir embættit flytir konungr helldr, hefr sig þegar a hesti fram til fundarins. Thomas erchibyskup uerdr seinna buinn enn sækir

[1] et *Cd.*

eptir rauskliga, þuiat hann hugsar, at ecki skulu þeir konungr sua buit skilia. Enn er þeir finnaz, fara i ord nockur ok saunsaugur med þeim. Segir konungr, at erchibyskup minniz (eigi) þeira sæmda, er hann segizt honum ueitt hafa, enn herra Thomas gefr honum aptr i gegn, at konungrinn er med ollu gleymandi þa dygdarþionustu, er hann segiz honum ueitt hafa fyrr meirr med allri sinni kunnattu. Enn er þeir koma til stefnunnar, hallda þeir konungr ok iarl aa malum sinum. Er þar godr tillaugumadr Thomas erchibyskup, ok adrir med honum, sua at þeir sættaz þegar samdægris. Ok sem þat er ute, hefr Thomas erchibyskup frami sitt efni næsta med kiæru aa konunginn, hui hann uenr sik suo lausmalann um þat, er hann heitr gudi ok godum maunnum. Vinnaz þeir Theuballdus iarl sua i neyti, at hann gengr nu milli konungs ok erchibyskups. Verdr þa enn sua dregit i sidurztu, at herra konungr iatar at gefa aptr iardirnar, enn bidr byskup fara heim til stols sins med þeim hætti, at hann syne sik nytsamligan ollu lanzfolki. Skilia þeir uid sua buit.

Enn fam daugum sidar finnaz þeir i audrum stad skamt fra Blesis, er heitir Mons Caluus[1]. Sa fundr er sua laginn, at erchibyskup fysir eptir at leita, ef hann kynni fa med guds uilia þann kærleik af konunginum, sem fordum uar millum þeira. Syniz ok konungrinn aluarliga gladr i þann punkt. Ok þa tala þeir marga hluti med sier heimolliga, ok i milli annara hluta segir konungrinn sua: „Huat mun þui uallda, herra erchibyskup, segir hann, er ydr syniz at skipaz aunduerdr mot uorum uilia? Þuiat ef þier uilldit oss eptirlatir uera, mundi (ver) enn sem fyrr alla uora goda hluti ydru ualldi upp gefa.“ Enn til þessara orda getr eigi bok, at erchibyskup gefi andsuor. Enn meistari, sa er þetta komponeradi med latinu, segir sæmiliga hugkuæmt hafa uordit til dæmis, huersu Sathan likti sik aurlatan aa fiallinu fordum, ef uor herra uilldi luta honum. Sua ok sem grædari uor þoldi freistanar anda þa umleitan sidarzta upp aa sinn manndom, sua uard þessi ordræda Heinreks konungs aa sidazta fundi þeira erchibyskups, þuiat ei sauzt þeir sidan i þessi uerolldu. Vendir konungr i Normandi ok eflir þar stora setu. Maa þat sua upp taka fyrir honum med annari undirhyggio, at honum uæri byr at badu, huersu til tækiz um erchibyskups heimkuomu, þuiat eigi uar hann likligr at lægia radleysi sinna undirmanna, sidan hann uilldi huergi nær koma, enn kunni þui klokligar at afsaka sik, sem hann syniz firr manna augum uera.

[1] caluius *Cd.*

*Er sancte Thomas bad Fracka konung vm stein.*

71. Sem guds madr heilagr Thomas erchibyskup hefr dualiz i Franz at profa trygdir Heinreks konungs, aurt um þria manadi fra þeira sættargerd, ok inn gengr all(r)a heilagra messa i upphafi Nouembris, hafdi hann uerit full sex ar i utlegd, byriar þa aull sar sa þeim blezada degi, þuiat fyrr i hans flottagrein uar sua lesit, at hann liet sa næstu nott eptir allra heilagra messu ut af Einglandi. I þenna sama tima byz hann nu aptr til sins fostrlanz. Uar bunadrinn fliotr, þuiat eigi uar rikdom at flytia. Enn þat er greinanda, (at) uar einn madr Symon at nafni enskr at kyni, hann elskar sælann Thomam ok bydr sig i hans fauruneyti fram til Einglanz sa kynnisleit at finna frændr sina, ok þat ueitir honum erchibyskupinn. Lyptir nu guds madr burt af Sainz þackandi stadarfolkinu einkar fagrliga, hueria hæuersku þeir hofdu honum tied i sinne þaruist, vikr sidan til sinna uina gefandi ollum blida gud(s) kuediu fyrir uel gert ser ok sinum fatækum maunnum. Sidazt finnr hann Fracka konung, þuiat hans ueizlor ok uelgiordir uaro sua þackandi, sem madr girniz at fa æskiligan enda i godum hlutu(m). Ok fyrr enn greiniz ord þessi þeira konungs ok erchibyskups, hæfir oss at uikia til frasagnar hieþan i fra um litla stund.

Þat greina laugteknar bækr, at herra Karulus mikli keisari, er riettliga ma kallaz forpris allra Fracka konunga, for ut yfir haf til Jorsala at frialsa landit af heidinna manna ualldi, sem drottinn hefir bodat ok birt Constantino Miklagardz konungi. Ok sem hann er staddr i Jorsalariki, bar til þann hlut, er menn kalla tidendi, at sa natturusteinn, er karbunkulus heitir, fanz af ueidimaunnum. Sa steinn hefir þat kyn, at hann uegs framm i enni undir horni þess dyrs, er unicornis heitir. Ok þann tima sem dyrit fellir hornit eptir þess skipan, sem ollu styrir, finz sa enn agæti steinn af þeim maunnum hellz, er fioll rannzsaka fiarri manna bygdum. Enn þeim steine hefir gud lagt suo mikils hattar lof, at hann ma kallaz sem herra yfir aullum natturusteinum, ok ber þat hæst i þui mali, at honum fylgir sua mikil birte, at hann lysir i myrkri, ok þui er hann dyrr, at þeim ma þickia ulikligt, er fiarri fædaz, sem nu bar hier raun sa. Karulus keisari fregnar þat, at steinninn uar litlu fundinn, ok þui falar hann steininn, enn kaupir sidan med sua miklu uerdi, at hann reiddi fyrir, sem segiz, sua mikit brent silfr sem attatigir punda, ok sua kostadan flutti hann þenna karbunkulum heim i Franz, ok liet setia i skærazsta fingrgull. Var steinninn sua uidr med þeim

umgang, er gullit gerdi, at naliga klæddi haundina. Þat uar efinliga siþan uigslugull Fracka konunga, ok þotti ollum þeim enn mesti mæta gripr ok sæmdar næst sialfri kruninni, bædi fyrir dyrleik ok einkanliga fyrir þat, huer aflat hafdi. Nu er sua undirbuid, at þeir Lofuis konungr ok Thomas erchibyskup mega tala sinn kiærleik, þuiat konungrinn gerir sik sua blidan moti þacklætisordum erchibyskups, at hann spyr innuirduliga, huart saa er nockur hlutr, at hann uili þiggia i þeira skilnadi, segir at honum skal ueitaz, huat er hann uill. Heilagr Thomas horfir þa uid ok segiz giarna uilia fingrgull et goda. Konungrinn suarar sem med nockuri ahyggiu: „Herra erchibyskup, sagdi hann, uel er ydr kunni(g)t, huersu þat gull er til komit, ok med huerri uirkt uarir forfedr ok foruerendr hafa þat halldit, þuiat þat er altekit i þessu landi, at sa Fracka konungr, sem gullzsins missir, afkyniaz sua miok sinu forelldri, at hann ber eigi um alldr uhalla sina kruno. Þui haurmum uær þat, er uær neinum eigi at ueita ydr þessa bæn, þuiat eingi uor hofdingianna hefir til þess hugarkrapt at uera audrum lægri.“ Erchibyskup suarar: „Þetta skal ok eigi meir sækia at sinni, enn fa mun ek steininn, þott sidar sie.“ Þessari ordrædu þeira uar nær staudd drottningin Fracka konungs, er Aldæla het, þeira son uar Filippus, er sidar mun getid uerda, þuiat af Karbunculo er nu her ecki meira edr lengra, þuiat þessi forspaa erchibyskups bidr sidari hluta. Tekr hann nu orlof af Fracka konungi med signudum þeira kiærleik, sem tarinn notta.

Vendir sidan erchibyskup til siofar ok þeirar uikr, er Uitsand heitir, þuiat þaþan ætlar hann i haf, þegar til fellr. Ok meþan hann sitr þar til byriar i endalykt Nouembris manadar, skal segia nockud af Englandi, huersu þat byz i moti honum, edr huersu brefum herra pafans ok Heinreks konungs uerdr tekit, sem þau kuomu fram.

### *Er þeir byria vpp steyt moti sancte Thomasi.*

72. Sendibodar Thomas byskups sem þeir kuomu til Englanz med bodskapinn, fara þeir sua med huerri grein, sem hann hafdi rad fyrir gert. Enn su uar hans forsaugn, þat er til heyrir Rodgeiri erchibyskupi af Jork, at honum skal beraz bodskapr herra pafans a þeiri hatid, sem hann er heima at stolinum ok stendr sialfr i messusaung. Enn af sættarbrefi konungs ok erchibyskups er þat greinanda, at þat uerdr tiad iustisum ok ualldzmaunnum, enn einkannliga þeim, er hallda erchistolinn i Kancia, at þeir ryme uaulldin, þott sidarla sie, enn þessi megi stiorna, sem erchibyskupinn hefir til skipad at bua fyrir sinni heimkuomu. Ma þat synaz uel

trulegt, at þeim er bodskapinn baru háfi hann fengit sitt umbod at ueita stadnum forsio, þuiat þeira áptrhuarf er eigi greint at fund erchibyskups. Enn þat er liost, at sættarbref þetta heimkom(it) i landit fær þungan rom af ranglatum, þuiat þeir fyssaz þann frid, er syndugir eignaz, enn hata þa fridsemi, sem af gudi leidir. Ok med þui at þeir skilia glaugt, med hueriu hiarta konungr hefir sæz, gioraz þeir uisir um, at eigi mun halsinn borga, þott enn ræni þeir kirkiuna. Þui(at) sua er skrifad, at mikit sa fiorda manadi, þat er frá sættargerdinni fram til Marteinsmessu, toku þeir sem ádr innrentu kirkiunnar, ok þui stodu kornhlaudur tomar, er guds madr kom heim. Enn þessum tidendum af heimkuomu erchibyskups urdu allir godir menn ok einkanliga fatækir sua fullir af fagnadi, sem blezan sialfs drottins uæri komin yfir þa, sem sidar mun greinaz. Þann fyrirbunad hefir ok annann erchibyskupinn sinnar,tilkuomu, sem byriar haleitan hirde sinnar hiardar, at hann sendir meistara Jon heim til Kanciam med þui brefi til brodur Thomam, er þar stod æzstr madr i kor, at hann leysi folkit af guds alfu ok erchibyskupsins, þat sem samneytiz prætumaunnum æþr bannsettum.

Nu er at segia fra Rodgeiri erchibyskupi, huersu hann flettiz or fagnadi, sem rad uaro til sett, at sendibodit kemr i Jork eina hatid um pistil i hámessu, sem erchibyskup sitr skryddr i sæti sinu, tekr hann med bodskap, enn sendibodi fer til hestz. Erchibyskupinn er sua bradlatr, at hann les þegar brefit, enn flettir af ser skrudanum þui næst, segir sidan ollu folki hatt ok uægdarlaust, huert afelli komit er, at þeir skulu allir uera sem bannsettir, er nær uaro uigslo unga konungs. Hier eptir kallar hann til sin Gillibert ok Jocelin, synandi þeim, huersu uid þa er gert. Enn af þessu efni laugligrar hirtingar uid byskupana, efldiz sua mikill ofridr, at klerkar þeira, frændr ok uinir med fornum fiandmaunnum Thome erchibyskups gera sem herhlaup i landinu at mæta erchibyskupi, ef hann ber at, þuiat þeir hafa heyrt, at hann kom i Flandr fyrir nockuru, ok sitr þar til byriar. Er fyrir þessu lidi daudasonrinn Ranulf af Brok med fullu bannzsettr, ok med honum þrir adrir, Reinalldr, Guzalin ok Geruasius. Þessir fara med uæpntu lidi at uakta þær hafnir, sem þeim þickir uon erchibyskups, ok einkanliga þa uik, er Dorobernia heitir, er beinaz horfir moti Flandr. Hier med fylgir sa ofsi ok uppgangr, at þeir kuga lærda menn til þeira særa at fylgia ser, uid huera sem þeir eiga skipta. Ok þo leidiz hier inn ordzkuidrinn, at huer sa ser uin med ouinum.

Sem þetta heyrir iarlinn af þeim stad, er Bononia heitir, huersu

ofridliga horfir, minniz hann godrar uinattu, er leingi hafdi stadit med þeim erchibyskupi, ok lætr koma einn lærdan mann i skip til Flandrs, er Milon heitir, med þeim trunadi, at hann skal sækia a fund erchibyskups ok flytia honum, huer uodi yfir liggr, ef hann fer til lanz sins. Þat far sem Milon klerkr er i, tekr annat lægi i Flandr uid Sand, ok þar gengr hann af skipi med aullum skunda ok sækir a fæti fund erchibyskups. Sem hann spyr, huar hann sitr, ok riett sem hann kemr uid Sand, mætir hann skiott erchibyskupinum fram uid sioenn, þuiat hann hafdi spacerat at sia til uedrsfallz, sem siglingamaunnum er kiært. Herra Thomas, sem þeir mætaz, kennir þegar klerkinn[1] ok spyr brosandi, huert hann uill fara, er hann gengr sua uarmt. Klerkrinn suarar litilatliga: „Annat er mitt erendi til yduar, herra, enn leita fars, þuiat minn herra Bononiensis iarl yduar uin sendi mik at birta ydr, huer haski yduar bidr, ef þier komit til Einglanz i þenna punkt. Þuiat grimmir illir ydrir ouinir hafa samhleype gert i mot ydr at geyma hafnir med uæpntu lidi ok forsat. Signadi Thomas suarar honum: „Tru mer, son minn, at af þeim ueg, sem nu er ek kominn ok byriadr er, uikium uær eigi, huer ogn edr otti, styrkr edr sturlan ris i moti. Ok þott ek uissa, at lif mitt lægi i skauti, skal ek fram hallda, þuiat nogu leingi hefir þat folk radlaust farit i minni frauero, sem ek iatadiz undir i minni uigslu at ueita nockura uakra umhyggiu. Nu gefi þeim guds son ok sannr gud sina myskunn, þott ek geta edr fai eigi ueitt þeim þa leidsaugn, sem ek uæra skyllduer." Sem hann blezadr hefr sua talat, sia þeir, at skip rennr a lægid, þat er nykomit af Englandi. Ok þegar sem skiparar hafa lægt ok umbuiz, eru þeir spurdir af fylgd erchibyskups, huersu fridligt sie i Englandi eþr folki blitt um heimkuomu erchibyskups. Þeir segia flestir, at þat er hardla kiært, at hann uitie sins stols ok fostrlandz, utan einn af kumpanum lystr annann undir, ok segir sua: „Þier salugir menn, huat uili þer, salugir menn, utan sækia yduarn dauda. Ek kann segia ydr, at lægid i Dorobernia bydr ydur þa forsat, at ydrum formanni er til reidu baund edr bane, ef hann hefir sik ouarann[2]." Menn ottazt nockut af ordi þessu, ok bidia guds mann helldur bida enn fara sua bratt undir forz ok illuilia sinna ouina. Enn þar er sua fast fyrir, at huergi uiknar til, þuiat erchibyskup suarar: „Ek sier nu England, segir hann, ok ef gud styrkir minn uilia, skal ek bratt minum fæti a þat stiga. Enn hugsi þier, minir menn, huat ek segi ydr. Verdi sua at ek komumz eigi med lifi til kirkiu minnar i Kanciam, þa

[1] klerkrinn *Cd.* [2] uarrann *Cd.*

byd ek ydr upp sa hlydni, at þier flytid mik þangad til graptar, ef ydr er eigi forliga bannat. Ok þott ek hafi nu lengr fra uerit henni flæmdr, stendr þat, at son huiliz i fadmi mædr sinnar.“ Lykr sua tali þessu, at maurgum byskupsins astuinum bitr þaa þegar i brun[1].

*Er sancte Thomas kom til Einglandz ok heim i Cancia.*

73. Kalendis dagh Decembris þridia dagh i fyrstu uiku aduentunnar, þat er einni nott eptir messu, lætr i haf ut af Flandr til Englandz gaufugligr guds madr ok sterkr stolpe kristninnar blezadr Thomas erchibyskup. Falla honum sua uedr med guds uilia, at eigi tekr hann Dorobernensem, sem uondir menn hugdu, helldr fær hann þa saumo haufn, sem hann liet fyrr ut af Englandi, ok Sanduik heitir. Enn er skipid nalgaz haufnina, lætr erchibyskup setia upp sa skipinu þann sama kross, er Kantuariensis byskupar [ok Englandz[2] primates uaro uanir at lata fyrir ser bera. Sem krossinn kenniz, þickiaz þeir uita, huer fylgir, ok er eigi langt, adr fatækir koma samt sua margir, sem þa uar fremz matuligt. Ok margir adrir godir menn renna til hafnarinnar, stydia skipid i lendingunne, falla fram ok fagna sinum fedr med tarum ok þess hattar ordum: „Blezadr ser þu kominn, fadir fatækra ok faudrlausra.“ Enn heilagr Thomas tekr þeim suo miukt sem sinum astuinum, sua at blezan er þeim med ollu buin. Enn er riddarar heyra, at herra Thomas hefir tekid land i Sanduik, skunda þeir þangad med uæpntu lidi. Ok er þat ser dekan, er fordum skipadi Heinrekr konungr til fylgdar sælum Thomasi, rennr hann moti þeim ok bidr þaa uara sik, segir, at konunginum þicki þat moti ser gert, ef erchibyskupinum er misbodit. Er nu þuiligt fyrir hans ord, sem uighugr lægiz med þeim, enn þo uilia þeir lagt edr eigi heilsa erchibyskupinum, sem þeir koma fyrir hann, vtan kiæra þegar med haurdum anda, hui hann hefir at bannsetra byskupana, enn suma sinum sæmdum af fletta, ok hræra suo alla iord med ofridi sinna framferda, herda hugi manna ok þo aungum til bata i sinni tilkuomu: „Maa þat ok uita, huerso ferliga þu stygguir gamla konung i þuilikum osoma, er þu eflir upp sa hans astuini an aullum tiluerka.“ Enn er erchibyskup ser, huersu riddarar fara med mikilli brædi, suarar hann med allri hoguæri ok segir: „Eigi mun þetta gamla konungi mislika uid mik, þuiat hirting byskupanna er ger med hans godri samþykt.“ Enn er riddarar heyra þessi ord, linaz þeir nockut, ok leggia nu til bænar, at hann muni leysa stormæli byskupanna. Erchibyskup segir, at þat maa uel

[1] brunn *Cd.* [2] [j Englandi *Cd.*

Digitized by Google

bida, þar til er hann kemr i Kanciam. Ok sem riddarar sia ecki af erchibyskupi fra samtali hans, ok uerda bratt uisir, at þar er einn madr lærdr i fylgd erchibyskups allt af Sainz, er fyr uar nefndr ok Symon heitir, þenna krefia þeir þegar, sem hann er kominn i land konunganna, at hann suere þeim þann trunadareid ad fylgia þeira malum, huat sem til fellr. Enn her riss i mot heilagr Thomas med allri rauksemd, segir at þessi ok engi lærdra manna skal þeim nockurn eid uinna, „ef ek er hia.“ Sem þessi uegr er luktr fyrir konungs maunnum, likar þeim þui uerr, ok snua til hesta sinna. Enn erchibyskup duelz i þeim stad um nottina ok bidr skiota, enn ridr næsta dag eptir sex milur til Kantuariam. Er þat mikillar frasagnar uert, hueria sæmd hann fieck aa þeim ueg, lika til dæmis at taka ok grædara uarom ueittiz fordum, er hann reid sidazt til Jorsala, þuiat klerkar ganga skryddir ut af kirkiunum med faugrum saung aa ueginn uida mot honum med krossum ok heilogum domum ok sinu soknarfolki, fagnandi sinum fedr ok blezan beidandi. Enn fatækra manna fioldi uar saa, er uarla matti telia i motraas ok þionustu, þuiat margir af þeim uerpa sinum klædum nidr aa ueginn fyrir hann, enn huarirtueggiu rikir ok fatækir kalla sem einni rauddu: „Blezadr er sa, er kemr i nafni drottins.“ Nu fyrir þa þraung ok þionkan, sem folkit ueitir erchibyskupinum, uinz honum uarla dagr fram til stadarins, þo at uegrin uæri skamr. Enn er hann kemr til Kantuariam, hefir su blezut kirkia aunguann heidr meira, enn hon ueitir sinum herra ok erchibyskupi aa þann sama dag med kluckum ok klerkum, med skruda forkunnlegum ok faugrum lofsaungum langt ut aa ueginn i mot honum. Sua leida synir sinn faudr andligan med hatidligri processione[1] ok fiolda folksins inn i hofudkirkiuna stadarins. Enn er guds uinr kemr þar, fellr hann fyrir æzta alltari allt til iardar, ok liggr sua, medan sidazta bæn in processione segiz fyrir honum, ok enn nockuru lengr sakir sinnar godfysi. Enn eptir þat gefr hann blezan ok minniz til allra lærdra manna, meira ok minna er at honum gieck. Sidan gengr hann i haull sina ok helldr þann dag hatidligan med gledi ok fagnadi godum. Sidla sama dags koma sunnan fra sio menn erchibyskups, er heim skylldu hafa flutt þann kost, er kirkiunni uar naudzunligr, ok segia eigi uænligra af sinni ferd, enn konungsmenn kuomu at þeim ok drogu af þeim kostinn med hardri hendi. Herra erchibyskup segir, at þat mun eigi gert eptir konungs bodi, ok þann kost mun hann uel aptr bæta,

[1] segiz fyrir honum *tilf.* *Cd.*

*Er byskupar foru aa fvnd Heinreks konungs at rægia.*

74. Um morguninn eptir koma riddarar til Kantuariam aa fund erchibyskups, er fyrir litlu skildu uid hann i Sanduik. Þar eru ok med þeim klerkar, er bera bref byskupanna, ok hliodar þat allt eitt, sem riddararnir flytia. Hier til suarar heilagr Thomas: „Byskupar þessir med þeim audrum, er i stormælum standa, eru eigi af oss bannsettir, helldr af sialfum pafanum, ok þui er ei uart at leysa, helldr hins ædra, er aa lagdi.“ Þeir suara: „Huat er þa liosara, enn þu uillt aftigna konunginn bædi sæmd ok uigslu, sidan þu streingir þa med stormælum, er hann uigdu.“ Erchibyskup suarar: „Vnga konung uilium uer eigi aftigna, helldr uilium uer ueita honum tuær uigslur edr þriar, ef hans somi uæri þa meiri enn adr. Enn þo at uær hofum þann uilia, er hann attum uigia, eru þeir allt eins pinandi, er hann krunudu moti laugum kirkiunnar. Ok giarna uilldim uer, at konungrinn legdi þar enga misþykt aa, enn þo i adra grein uirdiz oss, sem uer ok uart goz sie litt fridheilagt her i landi, ef enn skal ræna sem fyrr uara menn, ok nu uar gert fyrir litlu sudr uid sio, er uin þat, er uer ætludum kirkiunne, uar handregit brott af uarom maunnum. Nu heyrdi ydr uel uinum konungsins, at tia slikt fyrir honum, þuiat engi somi er þat hans tign, at kirkian se uanuird.“ Riddarar flytia þui fastara eyrendi byskupanna. Ok um sider med radi sinna manna suarar erchibyskupinn: „Til þess at saa fridr halldiz, er settr uar millum kirkiunnar ok konungsins, munum uer i guds nafni ok hans myskunn aa hætta at taka þann uanda upp aa oss, treystandi aa milldi herra pafans at leysa byskupana, ef þeir ganga til laugligrar festu fyrir oll sin afbrot at standa aa kirkiunnar dome, ok uirdum uer her til konungsins blidu. Enn ef þeir uilia eigi til festu ganga, faa þeir aungua lausn af oss, huer sem þat flytr.“

Fyrir sua fortekit ord snua riddarar reidir brutt med liotri ordrædu ok brigslum. Einkanliga leggr sigh fram til þess daudasonrinn Ranulf af Brok, þuiat hans bannsettr munnr meinmælir smurdann erchibyskupinn, at honum maa reiknaz i fulla gudlastan. Enn erchibyskupinn suarar honum aungu ordi, ok skilia uid sua buid. Flytiaz nu bratt byskupunum þessi kostabod, ok er sua skrifad, at Gillibert ok Jocelin mundu hafa þegid þann ueg, ef Rodgeir erchibyskup hefdi ei spillt fyrir þeim. Fylldiz þat med honum, sem ritad er, at hin þridia tunga sturlar margan. Hann tekr sua til ordz: „Atta þushundrat punda skiæra gullzpenninga liggr i uarom thesaur, hafi þar gud lof fyrir. Enn mestann hlut þess fiar uil eg

ut gefa, til þess at minkiz þuerud ok þriozka Thomas erchibyskups, ok hans dul ok dramb at enga uerdi. Ok þui bid ek yckr, brædr minir, latid hann eigi faa fyrirkomit yckru sidlæti. Anzit eigi um ognir hans, sækium helldr allir samt aa fund gamla konungs, er allann tima hefir (med) oss herraliga stadid moti uarom ouin, ok enn mun hann sua gera, vtan þit bleydiz ok uikit fra honum, enn samþyckiz hans fornum fiandmanni Thomasi þessum. Munu þit þa i hans uingan, sem uerdugt er, ei um alldr aptr komaz, helldr mun hann kalla yckr, sem þit erut, huglausir hlauparar ok uondir suikarar, ok reka yckr bada, sem laugin dikta, brott ur sinu riki, enn taka upp allt yckart goz. Huat liggr þa fyrir yckr? Segid mer, a hueriu landi uili þid hellz uallarar uera ok aureigar brauds at beida, aullu flettir ok haduliga afsettir. Sua fer sem ek segi, ef þit knefallit þeim, er bann ok baulfan felldi (aa) yckr.“ Þuilik ord heyra byskuparnir ok taka med samþykt suo eitrligar fortaulr.

Snuaz nu allir med einu radi at fara sudr um sio aa fund gamla konungs, finna þeir hann i Nordmandi ok falla flatir honum fyrir fætr, syrgiandi ok kiærandi upp aa Thomam erchibyskup, huersu hann hefir grimliga uidr þaa gert, segia sitt mal med aullu fyrir bord borid, utan konungsins rettindaualld ueiti þeim asio, enn stilli sua erchibyskup þann, at hann bannfæri eigi huern mann. Hier med leggr Rodgeir þessi ord, þuiat hann skilr, at konungrinn þarf rauskrar bryningar, sakir þess at hann þickiz nu sattr uidr erchibyskupinn, hann segir sua: „Mier einum af oss kumpanum er eigi bannat at bladra tungunni, þuiat huerr er þessum minum brædrum ueitir samtal, skal sekiaz af. Suo gerir Thomas uid uini þina, sem nu megit þier heyra. Suo minniz hann þeira sæmda, er þier hafid honum lagt, þuilik er hans aumbun til þess orlofs, er þier gafut honum aptr at usyniu i sitt fostrland. Þuiat nu skulu allir yduar giallda, ungi konungr ok uær, ok margir ut ifra, þat er uart bann, er uær krunudum hann. Enn uitit efalaust, at huat er Thomas erchibyskup fer nu fram, hugsar hann nu at uera eigi uppnæmr, þuiat su riddarligh herneskia, er honum fylgir ok uerndar aa bak ok fyrir, skal nu hallda hann auruggan fyrir huerium manni.“ Sem hier er komit rogi, suarar konungrinn: „Ef þeir eru allir i stormælum, er uigdu son minn edr [nær uaru[1], munum uær eigi einir undan fara.“ Rodgeir suarar: „Þola megi þier, herra, ef þier uilit, enn bratt mun birttazt, ef Thomas skal leingi leika auruggr, huat rangindum þer ok adrir þolit af honum.“ Medr þuilikum fortaulum hitnar konungrinn dag-

[1] [uær uarum *Cd.*

liga mot erchibyskupinum, sem bratt birttiz enn meir, þuiat Rodgeir fer med þeiri syslu inn i iolabod konungsins ath rægia Thomam erchibyskup. Ok þat er hann sagdi fyrr, at erchibyskup hefdi naliga fylgd ok herneskiu umbergis sik, mun lysaz i næsta capitulo, huersu satt er, ef erchibyskupinn skal eigi sialfradi ferda sinna um sysluna.

*Er Thomas erchibyskup ætlar til vnga konungs.*

75. Sem heilagr Thomas hefir heima dualiz i Kantuaria faa daga, giorir hann sæmiligan mann prior Rikard af kirkiu sæls Martini til fostra sins unga konungs. Ok er hann fram kemr, ber hann konunginum blida kuediu erchibyskups, þar med flytr hann, sem honum uar bodit, at afsaka erchibyskupinn af aullu meingerdarkyni til konungsins, þo at byskuparnir taki laugliga pinu fyrir sina ofdirfd i hans uigslu. Her med tiar hann, at þetta uar gert med orlofi ok samþykt faudr hans. Enn hans erendi fer þuilikt, sem þat hafi aunguann skilning. Konungr er barn at alldri ok halldinn med tygtan af raduneyti faudur sins, ok þui þorir hann enga uegsemd at ueita erchibyskups eyrendi. Ok sidan priorrenn skilr þat, at enginn ueitir honum þar blida asionu, vendir hann brott a fund erchibyskups. Enn er guds madr heyrir af hans ferd, synir hann sina stadfesti med astinni ok byr nu sialfan sik til ferdar at finna fostra sinn. Ok sua byzt hann heiman i audru lagi at byria usiteran, sidan hann leysiz af konungs gardi, þuiat þat liggr med hans hiarta at uitia sinn lyd ok uikia til guds bodorda, leysa þaa, sem fleckaz haufdu af samneyti umilldra, ok huat annat med þeim endrbæta, er hann sier þaurf a uera. Maa þadan styrkt marka, hueria godfyst hann bar til sinna sauda, at nykominn af laungum uegh, uilldi hann eigi sier sialfum þyrma. Sem hann er buinn, ridr hann ut af Kantuaria ok stefndi til Lunduna. Enn er hann nalægiz borgina, renna margir flockar uth i mot honum bædi burgeisar ok lægra folk, fagnandi honum med allri kunnastu. Duelz hann þar um nottina, ok byz þadan um morguninn fram i uegh, þuiat ungi konungr sitr þar eigi i þenna punkt.

Enn nu er þar til uikia, at raduneyti konungsins fregnar þat, at erchibyskup ætlar at finna fostra. Taka þeir sik saman, at su ferd skal eydaz fyrir honum; ok þat leggia þeir til, at riki konungsins, borgir ok bæir, skulu fyrirkuedaz honum til allrar yfirreidar. Suo fallit konungs bod kemr erchibyskupi vm morguninn, sem hann er ferdbuinn i Lundunum, at honum fyrirbyz at fara uidara um rikit. Guds madr suarar sua her til: „Þetta forbod er ecki sua þungt, at uer uendim uarri ferd sua miok þar fyrir, enn sakir þess

Digitized by Google

at burdartid uars herra Jesu Kristz stendr nalæg, maa uera, at betr sie skipath, at uer sem heima ok sæmum þaa saumu hatid med uarri þionustu." Ok sua snyr hann heim aptr. Enn er hans uuinir heyra, at hann snyr heim aptr, yppa þeir þegar sinum ofmetnadi med illgirndarhotum edr ognum, segia at hans hals ok haufud mun um sidir giallda sins framhleypis, e(i)nkannliga su bauluada kynkuisl Brocheis, er fyrr uar nefnd, er sælum Thomasi uar lengi þung ok hans uinum framar enn flestir adrir. Ok þar maa segia til eitt mark, huersu þat folk hafdi hoflausa aufund til erchibyskupsins ok hans uarnadar, at saa Rodbert klerkr, er hiellt erchistolinn i Kancia i hans utlegdartima, syndi sua mikit hatr, at um [dag einn[1], sem hann mætti þeiri lest, er stadnum i Kancia til heyrdi, setti hann auxi sa einn skiotinn ok hio af brott rofuna. Maa þat skilia, at þetta hans uerk leiddi af þui syndagialldi, at erchistolinum hafdi hann fleira misbodit i sinni þaruero, hoggit skoginn ok smidat ser þar af herbergi, ok huat annat er hann lysti, dro hann meir i sinn siod enn kirkiunnar. Nu maa audsynt uera, huersu heilogum Thomasi mundi þat afla til uerdleiks, at þola iafnan meingerdir enn giallda aunguar i moti, enn þott hann striddi nockurum med guds laugum ok heilagra fedra setningum, uar honum þat riett fyrir gudi, ok þui tapadi hann huergi sinni þolinmædi.

Sitr hann nu heima fram til iolanna med mikilli nytsemd, leysir margann mann af sinum misfellum, ok huggar þaa med miukri liknarhaund, er adr uaro halldnir fyrir haurmulig syndabaund. Enn af aulmosugædi, er fyrr hiellt hann ok greint uar fyrr i aunduerdri saugunni, þarf eigi langt gera, þuiat kraptaudigr madr liet sier hugkuæmt uera, huat sannleikrinn talar, at saa einn mun krunaz, er laugliga þreytir ok lyktar med þui sina raas.

*Af .iiij. riddorum guds ouinum.*

76. Burdartid drottins uars Jesu Kristz bar þaa a setta dagh uiku. Syngr herra erchibyskup sialfr hamessu ok predikar lengi eptir ewangelium yfir kor kirkiunnar, talandi e(i)nkar sætliga af dyrdarfullum hingadburd uars herra, ok huat kristinn madr skylldaz honum fyrir þat litilæti, er konungr allra konunga laa reifum uafdr i etunni. Hiedan fer hann til sidbotar folkinu tiaandi med sætum aminningum, at þeir fordiz misuerka enn uni mannkostum, sæmi heilaga kirkiu ok kennimenn, ok ottiz gud yfir alla hluti. Hier eptir uikr hann til sialfs sins personu, vottar liosliga fyrir folkinu, at eigi mun langt lida, adr hann luki sina lifdaga. Fellr þaa sua mikit til med honum, at fyrir tarinn

[1] [daginn *Cd.*

uerdr hann at huilaz um stund. Maa þat linhiartadr madr greina, huersu þat folk, er þar uar nær, mundi sik þaa bæta, þuiat sart uar maurgu hiarta at missa þuiliks faudr. Ok suo harmar lydrinn, at milli gratz ok anduarpa tala þeir suo lagliga: „Huar fyrir lætr þu oss suo skiott, godi fadir. edr huerium gefr þu oss i ualld, ef uer skulum þin missa?“

Enn er þuilikar skurir taranna hafa gengit um hrid, er þuilikt sem aa blasi fagr sunnanuindr ok hreinsi loptid af allri dimmunni, þuiat þessu næst snyr erchibyskup rædu sinni, varpar aullum grat, enn ris upp til rauksemdar med frialsa raudd moti guds ouinum, er kirkiuna fyrirsmaa ok suiuirda klerkana. Ok sua sem hann birtiz adr heitr i tarligri uidkomning, sua uirdiz hann nu hardr med heilagri hirting, nefnir hann serhuern eiginligu nafni, er mest hafa nidrat kirkiunni, eigi sidr af konungsins haull ok hirdsueitum enn adra. Ok einkanliga tekr hann fræmdabalk af Brocheis med haurdum ordum lysandi bann at nyiu yfir Ranulf ok þa adra, sem uaro bannferdir, enn bannsetr nu i stad Rodbert klerk frænda hans fyrir margar sakir storar ok opinberar. Maa þat her um lida, huersu hann klerkinn beit bannit, þuiat aa þeim sama degi uilldi rackinn eigi þiggia braud af hans hendi. Sem hinn sæli Thomas erchibyskup hefir fagrliga fyllt uars drottins embætti aa þann signada dag, gengr hann til bordz med sinni fylgd[1] sua gladr uppsitiandi, sem adr godfus i kirkiunni. Etr hann kiot, ok allir adrir i haullinni, segir þui fylgia meiri sidsemd til dyrdar hatidinni, aa huern dag sem hana berr, at þarnaz aungra lofligra guds giafa. Glediz nu likamliga hinn sæli Thomas erchibyskup sua langt fram um iolin sem gud uill med sinum uinum fatækum ok rikum.

Enn nu er at greina, huerir þat drecka aa gardi gamla konungs, er byskuparnir brugga, þuiat eigi þyrma þeir drottinligri hatid, helldr efla þeir sama rog upp aa sinn andligan faudur Thomam erchibyskup, er stund lidr, ok þui uar dryckr þeira sarliga milskadr i iolabodinu, at blod erchibyskupsins flaut um þeira hiortu, þuiat sua magnadiz þeira illgirnd med lygd ok afflutning, sem þeir skilia konungsins hug hræraz þar fyrir meir ok meir, þar til at[2] eigi þarf getum leida, huer ædi inn er gengin med honum, þuiat aeggianarord til hefnda hefiaz af hans munni opinberliga. Huar af sua stendr skrifad millum annara greina: „Einn saa madr, er þaa mitt bord ok aat mitt braud, hof sinn drambsemisfot mer i moth.“ Ok enn i annan tima segir hann sua: „Af þui gozi, er ek gerdi, sneri einn madr upp i had med

[1] fulgd *Cd.* [2] et *Cd.*



Digitized by Google

uanuirdu til uar, fotum trodandi konunga kyn ok allt uart raad." Ok enn talar hann: „Illa er saa kostr kominn, er þeir eta ok drecka, sem kallaz uinir uarir, enn sia ok heyra suiuirdu uara ok lata þo hefndalaust." Enn þeir illir menn, sem adr uaro fullir med daudligri aufund til Thomas erchibyskups, þickiaz nu hafa fengid noga framhuaut at fremia þaa guds reidi, sem þeim bio i briosti. Veliaz her til sakir sinnar ugiptu einkannliga fiorir riddarar heimolligir af herbergi konungsins, er sua heita: Reinalldr Biarnar son, er sik til aungrar illzku sparir, dyrum likr i sinum grimleik; annar Hugi af Moreuil, þat þydiz af daudra manna þorpi, ok sannliga er hann nu madr daudans; þridi heitir Uilhialmr af Traz, er optliga hefir sik i riddaraskap framit frækiliga, ok þo i audru lagi hefir hans lifnadr sua liotr uerit, at fornar illgerdir hrinda honum fram i glæpiligsta uerk; fiordi heitir Rikardr Brido, hardr madr ok uandskaparfullr, nu uordinn uerr enn skynlaus af skynsamri skepnu. Þessir nu nefndir herda sina hugi at rada sua til metorda ok meiri sæmda af konunginum, at fara sem fliotaz til Englanz at taka af lifi hinn mesta vuin konungsins Thomam erchibyskup. Ok at þessi forhugadr glæpr auflgiz þui framar yfir þeira hofud, leggia þeir til sambanz eida stora, at engi bleydiz ne bregdiz or þessi fyrirætlan. Her med lata þeir alla þaa menn eida uinna, er i samuitand eru þessara vrada, at huarki nærr ne firr skulu þeir þeira trunad opinbera, ok einkannliga geyma, at erchibyskupinn megi eigi uiss uerda, þuiat þeir ætla honum flottann enn eigi stadfesti sem profadiz.

*Af hinum heilaga Thomasi erchibyskupi, er hann sagdi fyrir sina pisl.*

77. Nv sem þessir fiorir riddarar frægir af illgerdum eru samsuarnir i dauda erchibyskupsins, sem formenn ok leidtogar glæpsins, hafa þeir sik til siofar med sua mikid herfolk, sem i þui lysiz, at sitt skip tekr huer þeira ser til farar ok af sinni haufn. Vard her einkannlig nylunda ok þeim sialfum til mikillar bleckingar, at a hauetrar tima faa þeir sua æskiligt leidi huer fyrir sik ut af Flæmingialandi, at þeir taka allir saumo haufn aa Englandi, ok sækia sua fram skipum i þann stad, sem þeir hofdu aa kuedit til radagerdar. Enn þat er einn kastali, er Salltundr heitir, sex milur fra Kantuaria. Skildu þessir aumo menn sua sina farsæld landz ok lagar, at þat mundi gott fyrir gudi, er þeir ætlaz fyrir, ok þui synir loptid sina blidu. Þat kemr ok þeim i hug, at uel muni fyrir mælaz uerkit ok til frægdar ok fremdar metaz af morgum manne. Enn su skyring er

Digitized by Google

sannari her yfir, at nu uar kominn saa timi, er gud uilldi frialsa sinn kiæra uin heilagan Thomam fra þessa heims uesold ok naudum, ok ueita honum eilifa aumbun fyrir sin staurf ok stadfesti. Enn er Ranulf af Brok ok Robert frændi hans spyria til riddaranna, rida þeir þegar til moz uid þaa med maurgu folki i fyr nefndan kastala, ok setia þar malstefnu til radagerda, huersu þeim mætti minz fyrir uerda at fanga erchibyskupinn. Enn at dikta daudarad i haleitum tima uar enn til mikils auka þeira glæps ok uesalda, þuiat þessi uar hinn þridi dagr iolanna. Munu þeir nu þar sitia.

Enn þessu nęst er til uikianda, huer uissa kemr sęlum Thomasi af þeira fyrirętlan. Saa uar einn riddari, er for sunnan um sio med þeim samsuarinn i þann trunad at segia aungum fra, huat þeir beraz fyrir, enn ecki uar hann þeim framar samlids til manndrapsins. Hann aa ser godan feelaga i Kantuaria, er heitir Rikardr, kiallaramadr aa gardinum. Riddarinn flytir sinni ferd med þeiri astundan fram til Kanciam at riufa helldr usęran eid enn samlagaz med leynd sua liotu manndrapi, þui segir hann Rikardi feelaga sinum allann þeira trunad. Enn Rikardr gerir sina skylldu, at hann birtir erchibyskupinum sialfum aull þessi ord. Enn guds madr giorir ser ecki meira um enn suarar: „Ognarhot eru slikt", segir hann. Litlu sidar kemr saa madr fyrir hann, er Reinalldr heitir, þar heimamadr, hann hefir ridit at eyrendum sinum brott i byinn ok flytr sua erchibyskupinum upp aa sina saal, at fiorir riddarar eru komnir sunnan um sio, ok sitia nu a radagerd i kastala Saltundr. Hier med flytr hann, at Ranulf med sinum feelogum er ok þar kominn, ok reid med sua miklum dyn ok daligum ordflaugum, at hann hręrdi[1] uida siobygdina, segir, at þui er ecki at leyna, at þeir ętla blodi eptir leita. Enn er guds madr heyrir sua uisan haatt ok forsaugn sinnar pinu, kemz hann uid miok, ok ma þat skilia i tuenna grein, at hann harmadi guds skepnubaurn ok þar med sina andliga undirmenn, at þaa skylldi lysta suo liotrar haurmungar. Þyda maa ok þessi taar, at hann liktiz guds syni i þui, er tar felldiz fyrir sina pining, þuiat ueykleikr manz natturu hefir þat eiginligt, at likamr berr otta sinna kuala, þott inni madr see sterkr ok ottalaus fyrir eilifdar aumbun. Ok sem afliettir nockut tarunum, suarar erchibyskup Reinalldi: „Son minn, segir hann, ver þickiumz þat med saunnu uita, at uer munum med uopnum ueginn uerda. Enn buinn skulu þeir oss finna at þola fyrir guds nafni pisl ok dauda." See her nu dyrdligan mann, er fyrir tuau uętti sua nalęgrar pinu hefz eigi til flotta eþa uerndar med

[1] hręrda *Cd.*



Digitized by Google

mannfiollda, helldr stendr uhręddr i landtialldi drottins med obeygdum hialmi himneskrar myskunnar.

Er nu hiedan aptr at uikia til riddaranna, at aa fiorda dag iolanna rida þeir brott af kastalanum fram til Kantuariam, ok koma þar sid um kuelldit, hafa litid um sik, sem eyrendamenn eru uaner. Vopnaburd hafa þeir litinn, enn sueinar þeira fara sidar med þeira folkuopn ok herskruda, ok þo sua at þat er allt undir nockurri huldu. Þaa dueliaz þeir um nottina, ok maa þat med skynsemd sua taka, sem þeir hielldi nockurn uaurd, at erchibyskupinn mętti huergi brutt leita.

*Huersu guds ovinir meinmælltv hinn heilaga Thomam erchibyskup.*

78. A fimta dag iolanna, sem hinn sæli Thomas erchibyskup sitr i sinni haull med uirktarfolki sinu, będi lęrdum ok ulęrdum, klerkum ok klaustramaunnum, koma inn fyrir hann uopnlausir fiorir riddarar fyrr nefndir, ok fara sua snudigt, at þeir gefa eigi gaum, þott þeim uerdi heilsat af nockurum. Eigi kuedia þeir ok erchibyskupinn, vtan Reinalldr Biarnar son byriar sua: „Vęr erum sendir af Heinreki konungi gamla at bera þier hans bodskap. Þui kios, huart þat geriz i fęd edr fiollda.“ Erchibyskup suarar: „Radit sialfir“, sagdi hann. „Talim þaa helldr einsliga, sagdi hann Reinalldr, enn þessir (gangi ut).“ Erchibyskup lętr sua uera, bidr sina menn ryma um stund. Enn lokusueinn lętr þo opnar dyrnar, at þeir megi sia sinn herra i hasętinu. Enn eptir litla hrid, sem erchibyskupinn skilr, at ordręda Reinalldz hefir ecki leynt eþa merkiligt, kallar hann lokusueininn, bidr hann inn lata brędr ok lęrda menn, enn adrir bidi uti. Ok sem þeir inn koma, talar erchibyskup: „Nu megi þer, herrar, fram hafa þat, er ydr likar.„ Reinalldr suarar: „Fyrir þitt kior heyri sem flestir, huat uer segium þier. Þat er bodskapr gamla konungs, at þu farir an duol aa fund unga konungs, veitandi honum þaa uirding, sem þu skylldaz herra þinum ok krunodum konungi.“ Erchibyskup suarar: „Huat skylldumz uęr honum?“ Reinalldr segir: „Þat ert þu skylldari at uita enn uer.“ Erchibyskup talar: „Fyrir faam nottum kuomu þau bod af unga konungi til uar, at uer skylldim eigi koma i hans augsyn, ok aungua yfirferd hafa um borgir ok bęi, er honum til heyra. Nu uitum uer eigi sauk til þess, þuiat ecki þickiumz uer honum hafa i mot gert.“ Reinalldr suarar: „Ecki er sua. Margt er audruuiss geranda, enn her til hefir þu gert, ok þui þarf yfirbotar.“ Herra erchibyskup suarar: „Eigi uitum uer, huat aa stendr at bęta uid konunginn, þuiat uer ętlum oss gert hafa þa

Digitized by Google

uirding, sem uer erum honum skylldbundinn.“ Riddarinn segir: „Þu hefir helldr margt brotid moti konungligum soma, ok þui bydr þer gamli konungr at uinna trunadareid syni hans, at gera betr heþan fra.“ Erchibyskup suarar: „Huar fyrir skulum uer skylldugr at uinna eid uęralligum konungi. Vtan ef skulu þer uita, at eigi uer ok engi uorra klerka skal honum heþan ifra eida uinna, þuiat allz of margir eru adr eidar utþraungdir af morgum manni med rangindum, sem i þui lysiz, at margir eru þar fyrir będi meinsęramenn ok bannsettir. Enn þar see gudi lof fyrir, at uer hofum margan frialsat af meinsęrum ok af banni leyst, ok sua skulum uer framleidis, ef gud lofar.“ „Nu at þui, segir riddarinn, leys byskupana af banni eptir konungęins bodi, þuiat honum uuitanda hefir þu þaa rangliga pint med bannz aafelli. Ok þui skalltu þar standa skyn fyrir ok allt annat, er konungrinn uill aa þik kięra.“ Erchibyskupinn suarar: „Byskupa þaa hofum uer eigi bannsett, helldr pafinn sialfr, ok ef þer uilit þat kięra, sękit hann þar um, þuiat þat maal kemr ecki til uor.“ Riddari talar: „Ok þo at þu afsakir þik sua, hefir þat gerz fyrir þina aaeggian.“ Heilagr Thomas suarar: „Med þui at herra pafinn uilldi þeim refsa sin rangindi, er mer ok minni kirkiu wnnu sua mikla meingerd, iatum uer þat oss med aungum hętti mislika.“ Riddarinn talar: „Su uar mikil meingerd at uigia uarn unga konung, konungs ok drottningar son, huerium er aull konunglig erfd til heyrir med riettu. Enn þui munt þu sua reikna, at þu uilir þessu nęst krununni af honum kippa ok uera sidan będi konungr ok erchibyskup, enn sua uel mun gud gera, at eigi um alldr munt þu konungr uerda.“ Sęll Thomas minniz þaa orda Salomonis: Reidr madr uekr þrętr, enn uitr madr lęgir uppuaktar. Sua gerir hann ok blezadr leggiandi lint andsuar uid beiskan hug, þaa er hann segir sua: „Aa aunguan haatt, herra Reinalldr, skal þat profaz, at ek halldi mik til konungs. Þui sidr uilium uer nu ok minka heidr unga konungs, at uer hyggium þann aunguann mann i uerolld, minum herra konunginum fedr hans fraskildum, at hann elski meir ok uili betr enn ek. Enn huat er byskupum er gert, skulu þeir uel uita, at þar um uar engu fram farit nema med blidri samþykt herra konungsins, riett sua, sem uar flutningr fiengi fyrir herra pafanum fremz aflat.“

Enn er riddarinn heyrir þessi ord, at med konungs samþykt sei byskuparnir bannsettir, talar hann med forzi miklu: „Heyr, heyr, segir hann, udęmilig udygd, er þu segir upp aa konunginn, at hann hafi orlofad bannsetning sinna kięruzstu uina, gerandi hann suo at

falsara. Maa þer þetta med engu moti þolaz, ok eigi uilium uer lengi þola hans heimoligir menn ok traustir uinir." Enn er Reinalldr hefir sua sagt, męla þeir uid erchibyskup margfallda folsku. hladandi brigzli aa brigzli ok ognarhoti yfir heitan. Enn guds madr hefir sik þolinmodliga moti þeira uanstilltri aakiefd, suarandi med linum ordum: ‚Sidan uer kuomum heim i land (med) myskunn guds, þǫldum uer marghattadar meingerdir, hot ok brigzli, forz ok fiar upptektir, sua miok niotum uer þess sattarbrefs, er konungrinn sendi heim i land, at uer ok uarir menn skylldim hueruetna frid hafa. Ok sialfr þu, Reinalldr, uart þar nęr aa sęttarfundinum, er þat gerdiz." Uu(in) sannleiksins Reinalldr suarar: „Þar kom ek alldri nęrr, þui ueit ek þar ecki af." Erchibyskup suarar þaa hogliga: „Gud þat ueit, þar saaum uer þik, ok þu heyrdir, huersu þat bref uar gert til uerndar oss ok uaro gozi nęrr ok firr." Riddarinn talar: „Hui kierdir þu eigi, ef þu þottiz misshalldinn?" Guds madr suarar: „Þott uer kięrdim, faaz eigi þui helldr rettendin, þuiat ungi konungr ok hans raad skipar engin maal uspurdum gamla konungi. Þui munu uer sua fram fara hieþan fra sem byriar einn erchibyskup, gefa upp fyrir aungum daudligum manni oss ok uąr kirkiunnar riettendi nie fyrir nockurum af riettum ueg uikiandi." Þessu ordi suarar einn riddari: „Heitan, heitan, segir hann, eþa huat munt þu eigi bannsetia oss alla?" Annar suarar: „Gud see mer hollr, at þat skal eigi uerda, nogu marga hefir hann nu adr bannsett." I þessu hlaupa þeir upp sueriandi uid guds sonar nafn, at þeir hafa honum allz of lengi þolt sua mikit forz ok rangindi, ok hann skal sialfan sik fyrir hitta. Ok sem herra byskup ser ędi þeira sua akafandi, at þeir mega sik eigi kyrra hafa, suarar hann þui hogligar med haleitri stadfesti, ok segir sua: „Finnit þann mann, er ydr flyi, þuiat uid skal ek taka ok horfa i guds bardaga. Leitid þann, er hot ydr flyi, þuiat suerd ydr eru ei bunari at bita, enn ek er at lata lifit." Reinalldr segir þaa: „Þer lęrdir menn, geymit þenna konungsins fanga erchibyskupinn, at þer selit hann fram, þaa (er) hann uerdr krafdr af konungs bodi." Erchibyskup tekr mali fyrir klerkana ok segir sua: „Etlit þer mer flotta? Nei, segir hann, hyggit af þui. Þui sotti ek heim til kirkiu minnar, at ek skilz eigi uid hana fyrir ognir ydrar." Eptir þetta ganga riddarar ut af haullunni med myklu harki ok hareysti ok sua fram i gardinn til felaga sinna. Enn þat maa godr madr hugleida, hueria haurmung þeira manna hiortu mundu nu þegar hafa, er elskudu erchibyskupinn sem sialfa sik, þar sem þeim maa riettliga uirdaz, at dauda suerd see skekinn yfir hans haufdi.

Digitized by Google

*Er riddarar kom(a) til sinnar fylgdar.*

79. Sem riddarar koma til sinnar fylgdar, herklędaz þeir sem i sterkazta strid birtandi liosum ordum fyrir ollum sambanzmonnum, at þeir skulu ganga at erchibyskupinum, „þuiat uer hyggium, at hann see feigr, sakir þess radleysis er med honum lysiz." Sua greiniz uopnaburdr fiogra riddara, at þeir bera będi bolauxar ok suerd, enn einn þeira bryntraull ok suerd. Bolauxar til brotz eþa upphaugs, huar þeir kięmi at herbergium, ok þar med aunnur hernadartol haurd ok tuieggiud, huort sem briota þyrfti mur eþa treuirki, at þeira glępr þarfuiz þui framar alla talman. Ok sua bunir sękia þeir upp æ gard erchibyskups. Enn er þat sau þionustumenn hins heilaga Thome, streingia þeir aptr gardinn sterkliga, enn hinir sękia at grimlega, beria ok baulfa, hauggua hurdir ok briota, huat er fyrir uerdr, sua at af þeira harki ok hareysti, eggian ok opi uerda flestir felmsfullir utan einn erchibyskupinn. Hann huggar harmþrungna, ok geriz sua blidr, sem þeir menn ueri komnir, er honum bydi til brullaups. Nu sem riddarar komaz eigi med hardfengi fram til hallarinnar, fæ þeir ser leidtoga Rodbert klerk af Broc, er sakir languistar kunni aull gaung æ gardinum. Enn af þui opi ok ofrafli, brestum ok bardaga, er þeir gera, heyrir um aull herbergi æ gardinum. Ok iafnuel þeir sem nu syngia i kirkiunni æ fyrra aptansaungs tima, samblanda sin hliod med ugg ok otta. Þui nefndum uer fyrra aptansaungs tima, at Kantuariensis kirkia hefir tuennar tidir sungnar æ huern dæg, þat er at skilia klaustramanna ok klerka.

Nu sem miok lidr aptansaung bręđra, er iafnan syngia fyrri, ganga lęrdir menn at erchibyskupi, þar sem hann sitr i sama stad, ok þar med hans heimolligir menn, allir samt bidiandi, at hann fordi ser i munkaklaustrid. Enn hann blezadr uill fordaz alla flottagrein ok sitr sem adr. Sem þetta uinnr eigi, segia þeir, at bręđr hafi lokit sinum aptansaung, ok þeim byriar at ganga til kirkiu ok giallda gudi sina skylldu æ sua mikilli hatid. Fyrir þessa sauk riss hann upp um sidir, ok bydr bera krossinn fyrir ser. Var nu skipan æ gaungunni mot uana, þuiat sua sem erchibyskupinn hafdi iafnan fyrstr farit, sua fer hann nu sidaztr. Adrir fara med flyti af mannligum otta, enn hann med hofsemd ok seinna enn eptir uana. Enn er þeir uilia meir flyta ferdinni, at hann fordi ser i kirkiuna, talar hann: „Huar fyrir lati þer sua, eþa huat hrędiz þer?" Þeir segia uępnta menn komna i klaustrid. Hann suarar: „Hui[1] skal þat brigda

[1] þui *Cd.*

yduarri sidsemi? Þeir mega ecki framar, enn gud lofar.“ Sem hann kemr i kirkiuna at loknum aptansaung brędra, renna þeir mot honum med fagnadargrati þackandi sialfum gudi, er þeir sia hann med lifi, þuiat þeir hugdu hann eyrendan, enn adrir renna þegar til at streingia aptr kirkiudyrnar. Enn er guds madr ser þat, snyr hann aptr ok slęr upp kirkiunni sua męlandi: „Þat somir ei kristnum maunnum, segir hann, at gera heilaga kirkiu at herkastala.“ Vilia nu lęrdir menn þraungua hann inn eptir kirkiunni ok sua i sanctuarium, enn hann fylgir þeim naudigr fra dyrunum.

Er nu allt i senn, at hann kemr upp sa gradr fyrir korinn, ok þeir guds uuinir koma i kirkiuna med ędisamligri raudd sua segiandi: „Huar er drottins suikarinn ok falsari rikissins.“ Enn er sęll Thomas heyrir riddarana, snyr hann ser þegar sa gradunum, ok rennr it beinazta fram i moti þeim, med uskelfdu hiarta ok blidu andliti sua męlandi: „Her em ek, sagdi hann, eigi drottins suikari helldr erchibyskup, huern leiti þer, eþa huat uili þer?“ Enn sa riddarinn er fyrst gengr, er riddarinn Uilhialmr af Traz. Hann uedr fram at erchibyskupinum ok męlir sua: „Fly, sagdi hann, þu ert daudamadr.“ Erchibyskup suarar: „Ek fly huergi i nockurn stad.“ Riddarinn gripr þa annari hendi mauttulinn, enn annari stingr hann med suerdinu kueifina brott af honum sua segiandi: „Gack heþan, segir hann, þu ert fanginn, þat er uþolligt, at þu lifir leingr.“ Erchibyskup kippir mauttulsskautinu at ser ok talar sua: „Hieþan geing ek huergi, þuiat her skulu þer gera mer, huat ydr likar. Ek er nu buinn at lata lifit til frelsis heilagri kirkiu i þess nafni, er hana keypti til fridar med sinu blodi. Hyggit af þui, at ek gefi upp guds riett fyrir suerdum ydrum.“ Herra erchibyskup ser, at nęst Uilhialmi snaraz fram Reinalldr med brugdnu suerdi til hans, hann talar sua: „Þer, Reinalldr, hefir ek marga goda hluti gert, enn þo sękir þu nu herklęddr at i kirkiu til min.“ Samlikiaz þessi ord uorum herra guds syni, þa er gydingar haunlaudu hann. Enn Reinalldr suarar erchibyskupinum: „Þat skal þu nu uita, at ek er kominn, þuiat þu ert ulifismadr.“ Enn sęli Thomas suarar: „Ef þer uilit hafa mitt lif, þa fyrirbyd ek ydr af guds halfu undir bannz pinu, at þer grandit eigi nockurum minum manni meira edr minna. See þeir sua saklausir af pinunni, sem þeir eru frialsir af saukinni.“ Ok sem heilagr Thomas hefir synt sua byskupliga stadfestu, gripa guds uuinir til hans ok hugsa at fęra hann med afli ut af musterinu, at þeir fremi sinn nidingsskap helldr utan kirkiu enn innan. Enn þat uinz eigi, þuiat guds riddari erchibyskupinn (er) studdr af helgum anda sua fast, at hann hręriz

huergi ur sporum. Ok hefir til þess aahallz eigi meira fullting af maunnum enn einn munk ok klerk þann, er krossinn bar, er Etuardr hiet. Enn huat gud drottinn heilagr andi uann i þessu mali, vottar ę siþan kirkian i Kancia, sem skrifad stendr, at marmarinn gaf sik miukan erchibyskupsins fotsporum, sem hann hefdi i snio stadit eþa einhuerri uikianligri skepnu. Mega þau spor til uitnis ę synaz, ok faa nu margan koss med kriupandi godfyst af pilagrimum.

### *Liflat Thome erkibyskups.*

80. Nv sem guds madr Thomas erchibyskup ser, at hans lifdaugum lidr, þuiat hans fiandmenn skaka sin suerd yfir hans haufdi, vikr hann ser til austrs moti þui alltari uarrar fru guds modr, sem honum uar nęst, ok hafdi adr stadit i þeim heilags anda sporum, sem fyrr uar tiad. Hann hneigir sik fyrir alltarinu aa będi kne med þessum sidaztum ordum, sua at menn heyrdi fyrir hareysti guds uuina, ok segir sua: „Almattigum gudi ok hans sęluztu modur sancte Marie ok þessarrar kirkiu patronis heilogum Dionisio ok ollum helgum fel ek mik aa hendi ok kirkiunnar sauk.“ Þessu nęst hlaupa fram skędir uargar aa milldan hirdi, afkyniadir synir aa faudur eiginligan, ok grimuztu manndraparar aa meinlausa forn Jesu Kristz. Fyrstr af þeim Uilhialmr af Traz hauggr til erchibyskups ok stefnir i haufudit. Enn sakir þess at Etuardr klerkr stod med rauskligri dygd nęst sinum herra i þessum ufridarstormi, kemr hauggit fyrst aa hans handlegg, ok tekr af naliga, enn siþan i haufudit erchibyskupsins. Ok fieck hann þui minna, sem klerkrinn tok af meira þunga hogginu. Enn þo uard þat sua mikit sar, at blodit rann yfir augu ok asionu erchibyskupsins. Eptir þetta kallar Vilhialmr grimri raudd aa sina feelaga: „Hauggit, hauggit“, segir hann. Enn uid þetta akall kom su hręzla yfir erchibyskups menn, at huerr flydi sins uegar. Enn uid þenna fyrsta auerka hefir þat meinlausa fornarlamb lifanda guds hinn heilagi Thomas sinar hendr ok augu til himins bidandi sua annars hauggs med hneigdu haufdi. Ok þui nęst hauggr enn annar riddari ofan i haufudit, ok uid þat sar fellr erchibyskup fram aa golfit med riettum likama, sua fagrliga sem til bęnar offrandi sik lifandi forn, sem þeim er sęfdiz at leysa mannkynit. Sua sem nu uar greint, fellir limr uuinarins ok at iordu leggr e(i)gin faudur i kuidi modr sinnar. Her eptir rędr þridi riddari aa liggianda erchibyskupinn, aa þann hatt at hann sueiflar til suerdinu ok snidr naliga burt af haufdinu alla krununa, sua at litid eina hiellt i framanuert, þraunguandi sua hueitikornit brutt af halminum. Suo fellr rettuis

drepinn af ranglatum, geymari uingardzins i sialfum uingardinum, hertekinn i herbudunum, skiptandi leirbud heimsins i haull himirikis. Sem hinn fiordi riddari er framgeystr af sinum kumpanum at eignaz nockurn hlut i þessu storuirki, hauggr hann i haufudsarit aa eyrendum fedr sinum med sua myklu forzi, at blodrefilliun brestr i marmaranum ok suerdit brotnar i tuo hluti. Skilzt hann sua uit, at suerdzbrotin liggia þar bedi eptir kirkiunni til minnis. Þat þyda sua uitrir menn, at þau suerdzbrot merki ueralligt ualld, er fra sinni drottnan uar legt ok nidrbrotid i taknsamligum dauda þessa dyrþarmanz.

Nu sem Vilhialmr Reinalldr Hugi ok Rikardr hafa lyktad þa grimd ok glepsku, er þeim hlotnadiz af liotu lifi ok illu[1] kynferdi, maa lita þessu nest, huerir til ueliaz at uinna þau udadauerk aa daudum erchibyskupinum, sem 'enginn mega uid iafnaz, ok huorki mun finnaz med gydingum ne heidnum maunnum. Enn huerir mega nerr standa þeiri baulfan enn þat naudrukynit af Brocheis, er allann ueg haufdu hatad erchibyskupinn umfram annat folk i landinu. Nu sua sem þeir frendr Ranulf ok Robert uaro fliotaztir i herhlaupid med fiorum riddorum, sua uilia þeir eignaz hlut i glepsamligum uerkum. Þui snaraz Ranulf fram at eyrendum erchibyskupinum ok likamanum med suo greypiligum nidingskap, at sa diofulslimr steytir suerdzoddinum nidr i hausinn boradan ok hrerir blodit med heilanum, enn hreytir siþan med diofuligri edi ok hatrsamligri hermd þessa nidingsuerks. Kallar hann hatt ok herfiliga: „Daudr er hann, daudr er hann.“ Enn er Robert frendi hans ser þetta storuirki, uill hann eigi hlutlaus uera af þessu illuirki, helldr likaz frendum sinum huatandi[2] suerdinu ofan i toman hausinn erchibyskupsins. Her med epir hann aa sina kumpana bauluada: „Brutt hieþan, brutt hieþan.“ Sem her er komit, setia þeir upp allir saman herop aa þann haatt, sem sigruegarar gera eptir sterkuztu strid, sua melandi: „Konungligir riddarar, konungligir riddarar!“ Adrir segia sua: „Hann uilldi uera konungr, ok meiri enn konungr, sie hann nu konungr.“ Suo ganga þessir glepamenn ut af mustarinu, at þeir hafa margar greinir uerri ok umannligri enn þeir, er krossfestu Jesum Kristum. Vor herra pindiz utan borgar, enn heilagr Thomas innan kirkiu, iudar hlifdu uarum herra framlidnum an beinbrot, enn þeir unnu aa erchibyskupi andlausum dreifandi hans blod ok bein med heila innan um kirkiuna. Her med leggia þeir þaa guds reidi enn framleidis, at þeir snua allir upp aa erchibyskups hallir ok onnur herbergi. Sumir

[1] illi *Cd.* [2] huotandi *Cd.*

hlaupa til hestanna, beriandi ok sęrandi erchibyskupsins sueina, ef þeir standa fyrir. Adrir hlaupa i gardinn ręnandi gulli ok silfri, klędum ok husbuningi. Bref ok priuilegia stadarins lata þeir fara med audru rani stadarins, at þau flytiz gamla konungi, ok eigi (er) nu minni þeira agirndarþorsti til fiarins, enn adr i meinlæsann dreyra erchibyskupsins. Bera þeir nu gudrękir glępamenn będi samt aa baki ser ran ok id liotazta manndrap. Enn uer uikium aptur til þess blezada likama, er nu liggr aa golfi.i rodnum fadmi sinnar modur ok brudar.

*Hversu godir menn hormvdv eptir frafall hins heilaga Thomas erchibyskups.*

81. Sem þetta udęmiliga uerk spyrzt um stadinn, syrgia sarliga godir menn, rennandi fram til kirkiunnar, einkanliga fatękir ok faudurlausir, ok allir þeir sem uoru nalęgir ok studz hofdu uid gaufugligar olmusugerdir þess milldazta faudr. Enn i adra grein mąa þat tala til rikra manna, at þeir þordu eigi fyrir konungligu ualldi at harma sua miok, sem þeim uar i hug. Enn fatękir kriupa ok kyssa þann hinn helgazta likama med tarum ok trega. Huer megi med ordum skyra, huilikr uard gratr ok harmr klerka ok klaustramanna, heimafolks ok rettuisra kristinna manna, er saa þann signada likam sua liggiandi. Suo gretu godir synir yfir sinum gaufugligum faudr, at þeira gratr ok harmr kom sannliga til gudligra eyrna. Blod hans fell eigi um kirkiugolfid[1], sem likligt uar ok synaz matti, helldr uar þat samanrunnit aa marmaranum her ok þar sem i smaa koppa, sua at hęgliga matti upp taka. Sier þat ę siþan aa golfinu, huersu marmarinn ueikz ur sinni natturu, þaa er hann myktiz ok lęgdi sik undan at taka med blodinu. Enn þar sem huortueggia uar samt blod ok heilinn, stod uhneigt i sinni natturu aa sliettum steininum. Sua prydiz biort asiona mędr heilagrar kirkiu i dyrdligum dauda þessa pislaruotz ok iatara, at dreyrinn birtiz fyrir heilann, ok heilinn rodnadi fyrir dreyrann, sem fagrliga temprud rosa med lilio. Þenna heilagan dom birtir nu þegar himnakonungrinn til upphafs, huersu haleitr uar i hans augliti, þuiat þann tima sem lęrdir menn hafa saman lesit i einn storann kalek heilann med blodinu, ok bera til alltaris, kemr yfir heilagr andi i dufu liki. Veitti þetta lifandi gud sinum piningaruott til upphafningar ok dasamligrar dyrdar ok hans harmþrungnum sonum til haleitrar hugganar. Hier med fer þat annat, at sar þat stora, er Etuardr klerkr fieck, uar fyr groit

[1] kirkiugalfid *Cd.*

Digitized by Google

ok alheillt, enn likamr erchibyskups uęri kalldr ꜳ golfinu. Ok ef harmr hefdi lofat, mętti kirkiunnar synir fagna nu þegar meir af loftigum sigri þessa dyrdarmannz, enn syta af hans pinu stundligri.

Nu ganga lęrdir menn þar til, sem hann liggr. Ok þegar sem þeir hręra likamann ur stad, sia þeir einkanligann hlut, at ꜳ golfinu undir honum liggia tuau iarnuirki hamar ok bryntraull. Ok hui þessi uigtol sua hardfellig uaru samankomin þar, drogu spakir menn undir glosu, at ollum skiliz riēttkristnum maunnum, at sua sem uor drottinn Jesus Kristr leysti heilaga kirkiu af diofuligu ualldi ok hernadi, er (marka) mꜳ fyrir þessi tol, sua skilz hun uera frialsut af þręlkan ueralligra haufdingia fyrir fꜳll ok dreyra þessa pislaruottz. Siþan leggia þeir likamann ꜳ barir ok saumauid haufudit afsnid krununnar, sem þeir mega fagrligaz, þuo siþan ꜳsionuna. Hafdi hann þa blodrꜳs merkiligsta, at ein draka geck af hęgra ueg hans ennis i skack um þuert andlitid ꜳ uinstri kinnina[1]. Ok med þui sama marki uitradiz hann siþan maurgum maunnum, ok audkenndiz sua þeim, er adr kunnu hann eigi. Her med fer þat uarum herra drotni Jesu Kristo til lofs ok dyrdar, at sua faugr ok liflig uar hans asiona blezut, sem þa er uęnn madr ok litprudr sofnar sętliga. Ok þo at dreyrinn dręgi burt af haufudsarinu um alla nottina, faulnadi eigi þui helldr su hin skięra andlitzsins fegrd, ok i fliotu mali bar engi hans limr þat mark, at hann þyrri edr þornadi, med þui synandi, at hans dyrdligr daudi er honum i guds augliti meir til uolldugrar hędar enn nockurrar minkanar. Eptir þat hefia upp lęrdir menn ok munkar barirnar lagliga ok bera nidr i kraupt kirkiunnar, þar sem stendr uirduligt alltari hins heilaga Johannis baptiste ok sęls Augustini postola Englismanna. Her nattsetia þeir likamann, ok þui sua, at þeim er eigi grunlaust, at þeir guds uuinir, sem adr hofdu ręnt kirkiu gulli ok silfri, bokum ok brefum, hestum ok saudlum, kerrum ok klędum, ok allzkyns godgripum, muni uilia draga af henni þat, er ollu þessu uar ędra ok dyrmętara, þat er at skilia erchibyskupsins likam, er allz haufdu þeir nidingliga at iordu slegit.

Suo hallda klerkar ok munkar þessa haurmuliga natt med sorg, grati ok miklum trega, sem einn gud mꜳ uita. Enn iamfram þeira anduaurpum ueitte uor herra himnakonungr mikla gledi aullum þeim, er elskudu þenna pislaruott, þuiat ꜳ þeiri saumo nott spratt upp or steininum fagr brunnr ok fysiligr þar i krauptinum, er siþan kallaz Thomas brunnr, ok med þui sama uatni þuo þeir likamann um morguninn eptir. Var þui med gudligri forsio gaufugliga skipad,

[1] kinnini *Cd.*

Digitized by Google

at þeir þyrfti aungra naudzsynia ut at leita, þuiat nu sannaz sa kuittr med ordflaug fram til kirkiunnar, at manndraparar erchibyskups muni taka hans likama med forzi ok draga um stadinn eda festa a galga. Enn þetta for eigi fram, þuiat ualld almattigs guds stod i mot. Enn þo fyrir þessa hrezlu flyta brędr þui framar at ueita erchibyskupinum graptar embętti. Enn er þeir afklęda hann, finna þeir hans likama uafþan haurdu harklędi. Uar þa liost, at hans pislaruętti hafdi lengra uerit med prisand ok meinlęti enn luta undir ouina suerd a sidazsta degi. Þuiat þetta harklędi uar eigi minnr af audru meinsamt enn af snarpri natturo, þuiat hann hefir huartueggia þolt uuęrd kladans ok suida klędisins. Her fylgir þat, sem fagętt er, at hans þrękr ofan at kniam uaru ei sidr af hari. Þessu nęst skryda þeir hann til graptar med sua miklum flyti, at þeir smyria eigi likamann med balsamo eptir uana Kantuariensis kirkiu, ok ma þat truaz med gudligri forsio sua uordit, þuiat ei uar þeim naudzsun at þiggia smurning þessarar ueralldar, sem adr uar rodinn i blodi sua gaufugrar piningar. Þat uar ok til flytis þionustunnar sem uars herra skipan, at þar i krauptinum fyrir alltari heilags Johannis uar ny steinþro adr tilbuin, ok i þessari leida þeir hinn signada Thomam erchibyskup med sutfeingnum saung, eigi hasettum hliodum helldr haurmungarfullum anduaurpum. Enn þo at yfirstaudumenn sua dyrdligs haufdingia bęri sik lagt i aullum hlutum sakir hręzlu, þickiumz uer mega þat heyriliga gera, at tala sem yfir grefti sęls Thome þat sama lof, sem at honum lytr ok skrifad stendr i bokunum.

### *Formali.*

Blezadr sie sa gud himneskr, er sier ualde þuilikann þion, sem nu er hier greptadr, þuiat kosningr heilagrar speki skein yfir honum þegar i ęskublomi ok fyrr enn hann uęri fęddr. Hier er leiddr logbrandrinn, sa er modir hans Mailld liet med hafum elldi standa upp i loptid, þuiat nu hefir astarhite lifanda guds hafid hann upp af iardriki. Allt sitt lif leiddi hann storum heilagliga hreinn ok granduarr a sinn likam. Erkibyskup uar hann ad tign ok uigslu, primas allrar Englandz kristne, ok þar med postoligs sętis legatus. Var þat uel uerdugt, þuiat alla tima finz hann uerit hafa hinn riettuisazti domare, er huorki halladi riettum dome fyrir fiemutur ne (manna) mun, sua sterkur ok staudugr med kirkiunne, ath hann ueik af riettri reglu huorki fyrir blitt ne stridt, sua riettuislega hardr uid omilldann lyd, at hann ma þeira hegnadarhamar uel kallazt. Enn

Digitized by Google

fatękra manna ok harmþrunginna uar hann hinn haleitazti huggari. Ecki finzt hans life biartara, þuiat hann fyrirleit alla heimsins fegrd, fostrland ok fiarhlute, fręndr ok uine, takandi fyrir guds ast będi aa sig ok sina fręndr fatęktar utlegd med sua myklum ok marghattudum meingerdum. Sex aar þoldi hann utlegd med sua myklum hugarkrapti, at hann liktiz sialfum guds postolum i sinne stadfesti. Nu ef saukin gerir mann godan i guds augliti, sem enginn efar uitr madr, þa finz hans sauk engi riettuisari, þuiat hann striddi i mote guds ouinum, er med ollu uilldu fyrirkoma kirkiunnar riettendum. Enn huad eda med huerium hętti hann liet sitt blezada lif, er ollum kunnigt, at hann uar drepinn fyrir guds modr alltare i haufudkirkiu Englandz af sialf(s) sins andligum sonum. Ok þau lof er riettliga renna at hans liflati[1] eru frabęr i frumtignum, þa er limrinn likiz hofdino i maurgum greinum. Huer heilagra manna (er) samuinnandizt framar sialfri guds pinu enn þessi Thomas? Lit aa þat, er fylgir, ok munt þu sanna suo uerit hafa. Huortueggi fordadi sier um stund fyrir ouina ualldi, þar til (er) inn gieck fyrirętlud tid af sialfum gude. Ok badir fyrir saugdu sina pisl, fyr enn fram kęmi, badir mot runnu sinum banamonnum med liku ordtaki, ok badir þagu frid sinu folki. Huartueggi bar sua hoguęrliga sialfan pislarpalminn, at lambinu liktuzt badir, þuiat þessi agiętismadr erchibyskupinn bar eigi haund edr klędi ser til hlifdar, eigi heyrdi anduarp edr styn af hans brioste, helldr sofnadi hann sua sętliga, sem hans daudi dyrkaz eilif(l)igha. Badir leifdu þeir femuni sinum kueliorum, ok huartueggi leiddiz i nyre steinþro af sinum hugdarmonnum. Sua fylgir þionn herra sinum, signadr Thomas lausnara uarum, er um langan tima offradi sig lifandi forn gudi sialfum med marghattodum gięzkuuerkum, lerkandi sinn likam fra lytum ok laustum med har[2] . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

82 . . . maa rettliga, at enkis manz ordfęri skyrir þat med fullu, huer uggr ok otti haurmung ok hręzla kom yfir allt (folk) i Englandi będi lęrda ok leika ok almuga fyrir drap ok dauda Thome erchibyskups, þuilikt sem folkit uęri lagt at iordu, ok engi lypti upp sinu haufdi, medan nyiaz uar um sagda haurmung. Sem marka maa af ordum eins byskups, þann tima sem einn af klerkum kom fyrir hann bidiandi fulltings aa sinu mali, segir sigh mishalldinn vid einn konungsmann będi med ran ok annarri vanuirdu. Byskupinn suarar: „Huat megum ver þer giora? Hirdir varr ok hofud hinn hęsti byskup

[1] liflęti *Cd.* [2] *Her mangler 2 Blade i Codex.*

i aullu landinu er drepinn ok deyddr[1] i sinum erchistoli ok modurkuidi allz Englandz, er drottning maa rettliga kallaz annara kirkna. Af huerium skulum uer nu fullting faa, huar er traust uart, stod edr styrkr? Byskuparnir eru drepnir i kirkiunum, heilagir stadir eru suiuirdir ok saurgadir, godir menn fottrodnir, enn glępamenn tignadir.[a] Þuiligt uar át heyra, ok þo meir i huisli enn hamęli, þuiat sumir konungsmenn uaro sua griotligir i sinu briosti, at þeira ofsi ok yfirgirnd geck upp til afarkosta uid lęrdominn fyrir slik odęmi, sem syndiz i þeim stad, sem konungsmadr[2] atti malum at skipta uid einn klerk. Ok sem þa greindi miogh aa, taladi hann sua: „Veiz þv eigi, sagdi hann, at oss konungsmaunnum er nu kent at raka krunur klerkanna?“ Maa af sliku marka, huersu hatt illmennit geisadi, þui er samkuęmt sitr i milli haufuds ok herdar, þat er at skilia Heinrekr konungr gamli ok hans hird. Þuiat þar birtiz meir hiegomligh dyrd ok hręsni fyrir maunnum enn kristiligr harmr þeirrar gratligrar ohęfu, sem liost maa uerda i þui sem fylgir. Þuiat þęr bękr, er framazt fylgia Heinreki gamla, setia þat i fyrstu eptir andlat erchibyskups, at ranfengi, þat er honum fluttiz af Kantuaria, lieti hann flest aptr fęra. Enn þat seigir engi bok, at hann fienytti sier eigi nockud af. Hier med fer þat, at sua sem hann hefir frett fall erchibyskupsins fyrir uopnum sinna manna, lętr hann lida nockura daga, adr hann gerir klerka sina med brefum til Englandz, at þeir fegri hans mal fyrir capitulo Kantuariensis.

Ok þeir framkomnir kalla brędr samt med þuiliku ordfelli: „Vier erum sendir til yduar, brędr, af Heinreki konungi gamla þess erindis, at afsaka fyrir ydr hans meinleysi, at enginn grunr leggiz til hans af þeiri ohamingiu, sem her med ydr hefir at boriz. Þuiat konungrinn fiell i sara hrygd, sua sem hann spurdi þat ferliga uerk, sua at þria daga hiellt hann sik ut af heilagri kirkiu med þui hardlifi, at hann þarnadiz alla fędu utan kendi litid af kiarnamiolk, hafdi einuistir utan alla gledi, þuiat honum syndiz fęrd aa sitt riki mikil ofręgd, ok uarla uilldi hann skilia sik med ollu hlutlausan af þessu uerki, mest fyrir þann otta, er margar meingerdir erchibyskups hefdi hręrt hann til nockurar þeira(r) brędi, at uondir ogiptumenn hefdi tekit i sitt framhleypi. Þuiat þunghbęr uar su meingerd, er hiedan fluttiz fra ydr, at herra ueri bannsettr ok allir er uid uiglsu sonar hans uaro. Var su aurinn þar fyrir hęttligh, at hon flaug at ouauru, þuiat konungrinn hugdi allann oþocka nidrsettan aa þeim fundi, er fridr formeradiz i Franz millum hans ok Thomam erchibyskups.

[1] dauddr, *Cd.* [2] konungr *Cd.*

Nu þottuz þeir, er glępinn unno, hefna konungsins meingerda a þeim manne, er honum atti bezt at aumbuna fyrir margfalldann soma. Enn sua uar konungrinn fiarri þeira fyrirętlan, at þann tima, er glęprinn gerdiz, hugdi hann þa uera a sinum gardi. Baulfad uerk er uordit ok sua oheyriligt, at ęfinliga mun i minnum haft ok alldri um alldr gleymaz. Enn þui liotara sem þat profaz, hęfir þui sidr undirmaunnum konungsins at ętla honum nockura samuitand edr uilia þar af. Enn ef nockur fleckr i þessu male hefir honum fęrdz fyrir einshueria brędi, hęfir at hann af maiz med yduarri bęn ok godfyse. Synir hann konungrinn sina mykt, at eigi ofsękir hann framlidinn, helldr giarna fyrirlętr salunni þat, er hann misgerdi. Þui bydr hann, at þier greptid Thomam suo sęmiliga hia sinum forfedrum erchibyskupunum hier i Kancia, sem engin sturlan um alldr hefdi hręrt hans lifdaga.“ Nu þott Heinrekr konungr gerdi ser þuilika skrauksemd, linadiz eigi harmr þeira uid slikt, er fyrir uaru, helldr ueliaz til nockurir af astuinum erchibyskups at fara or landi ok fram til Roms, at þeir flyti herra pafanum med fullum sannendum sua mikid haurmungarefni. Þessir sękia upp i Franz ok finna Loduis konung. Profaz þeim, sem uar uon, at olikr uar hann Heinreki konungi, þuiat yfir liflate Thome erchibyskups hefir Fracka konungr tarligan harm ok trega. Ok hann skrifar med þeim til herra pafans þat bref, er suo byriar.

*Bref Fracka konungs.*

83. Hinum helgazta fedr ok ęzta byskupi Alexandro pafa sendir kuedio Lofuis konungr af Franz. Sa son er saurgar mędr sina, suiuirdir miok manneskiuna ok brytr laugmalit hędiliga, vminnigr uelgernings uars lausnara. Aumr er sa madr, er ser lętr aungrar hrygdar fa, hueria skamm edr skada sem fęr heilog kristni i framhleypi guds ouina. Nu ef ollum kristnum maunnum er rettliga gratandi harmr kristninnar, kallar su skyllda myklu hęrra til yduar enn nockurs annars. Nu er nyung grimleiks ok ofse udęma inn leidd, þuiat nu hefir aumliga upp risit ok daudligh illzska moti astuinum guds ok suerdi lagt i sialdr Kristz, slockuandi lios ok lampa Englandz kristni suo miogh liotliga sem grimliga. Huert kallar þetta et meinlausa blod til hegningar utan upp a ydr? Þui uaknid uid, heilagr fadir, ok upprisit til riettrar refsingar. Dragit or slidrum suerdit hins heilaga Petri ok hogguit[1] fram til hefndar eptir sua heilagann mann, þuiat hans dreyri ok daudi hliodar hatt

[1] huoguit *Cd.*

Digitized by Google

um alla kristni. Nu þeir menn er bref (bera), ok sins forstiora dyrligs[1] hafa suo hormoliga mist, mega ydr inniliga greina allann haatt ok efni þessara stortidenda, ok truid þeim ordum sua sem uorum. Ualete.

Margir hofdingiar i Franz skrifudu til herra pafans, þott þar af sie faair nefndir. Enn þat er liost af letrum, at nęst Fracka konungi skrifar Uilhialmr erchibyskup af Sainz ok Theoballdus af Blesis, er fyr uar nefndr. Erchibyskups bref hefir þat form, sem hier maa heyra:

Alexandro guds uin hinum ęzsta byskupi sendir kuediu Uilhialmr lagr þionn Sennonis kristni med godfusri hlydni. Yduarri postoligri tign er handfengid ualld aa himni ok iordu, ok ydr i hendi leikr tuieggiat suerd til heilagrar hegningar, yfirsettr allar þiodir ok riki, sua at þer megid konunga i fiotri lęsa ok rikismenn i rekendur keyra. Þui er ydr aalitanda, huersu uingardrinn guds er nu geymdr, nęr þui sem Dauid sagdi, þuiat gaulltr af skogi ok aunnur uillisuin hafa hann bitid ok etid Kantarabyrgis kristni, ok enn helldr almenniligh modir sitr ok drypr med haurmung ok grati, fellir taar blodi blandat i ydru augliti, ogh er sua sett sem teinn i backa ok hofd at skotspęni, brixlud af sinum kunningium, er skaka sin hofud at henne ok segia, huar er nu gud þeira. Enn hun stynr mot hadi þeira ok drepr nidr hofdi kallandi til yduar. Heyrid hennar raudd, heilagr fadir, ok hefnid blods sonar yduars ok guds pislaruotz erchibyskups af Kancia, er nu liggr drepinn sem krossfestr sakir uerndar heilagrar kirkiu. Ogurligr hlutr ok odęmilig ilzka med gudrękiligum glęp er uordin aa uorum dogum, sua at ollum [gnestr i eyrum[2], vheyrt med heidingium, ok eigi finz getid slikra udęma med sialfum gydingum. Vpp er nu risinn annar Herodis, er illgerdamenn sendi af sinni sidu, er eigi skaummuduz at heria ok suerdum sęra krismada koronu erchibyskupsins i musteri drottins. Nu at uitnisburd ritninganna ok eigi sidr godra manna gerdiz þessi madr sannr pislaruottur będi fyrir sauk ok sarleik, fyrir lifit lofsamligt ok sialft liflatid. Nu risit upp, heilagr fadir, med stridu kristilige riettar, ok fremit hegning gudligra laga eftir þann, er laugunum fylgdi ok fyrir þeira soma[3] gaf sik i dauda. Setid lękning lidnum hlutum ok gefit forsio ukomnum Huer stadr er nu traustr. Hrędiligr ufridr blodgar kirkiurnar[4] ok dregr i dauda hina hęstu stolpa kristninnar. Vakni gudligr riettr, ok uępniz laugin til framgaungu at hefna blods ok bana þessa manz, er af Englandi kallar sua haatt, at skelfr undir

[1] dyrleigs *Cd.* [2] [gnistr i aurum *Cd.* [3] er *tilf. Cd.* [4] kirkiunnar *Cd.*



Digitized by Google

eigi at eins iordin, helldr iafnuel himnarner. Gefit þau heilrędi harmi uarum, at yduari tign sie til fręgdar, enn heilagri kirkiu til hialpar ok uppreistar. Valete.

Herra Theoballdus skrifar sua fallit herra pafanum af sama efni:

Alexandro med guds myskunn hinum hęsta byskupi sendir quediu Theoballdus iarl med drottinligri hlydni. Yduari tign, heilagr fadir, syndiz betr at semia ok frid gera millum Englandz konungs ok Thomam erchibyskups. Ok aa þeim fundi uar ek eptir ydru bodi, ok ek saa Heinrek konung taka Thomam erchibyskup i frid, ok iatadi þat sama fyrir alla sina menn. Erchibyskup kięrdi będi aa konung ok byskupa um aflagliga uigslugerd uid Heinrek unga, enn konungr gafz i ualld um þat allt będi fyrir sina haund ok byskupanna, gieck med at ofgert uar, ok erchibyskup med ydru radi leggr þat upp aa þuilika skyn, sem honum syndiz. Hier uar ek nęr, ok þat mętta ek med eidi sanna. Lysiz hiedan þui framar, huersu afskapligt er, ef hirting byskupanna med yduarri skipan eptir laugunum skylldi gefaz i sauk ok sęttarrof erchibyskupinum. Nu at samdri sętt ok fridudu mali millum þeira, sneri saa guds madr ottalaus ok auruggr[1] heim til sinnar kirkiu þess erendis, sem nu er ollum liost, at gefa sitt haufud undir haugg ok pislaruętti. Þetta et saklausa lamb fornfęrdiz i musteri guds aa nęsta dagh eptir pislartid saklausra sueina i þeim stad, sem fornfęriz uars herra blod allri kristni til hialpar. Gaf hann gladr sitt blod i frelsi kirkiunnar. Konungsins menn hinir kięruztu, eþa helldr hundar af hans haull, gerdu sigh uerkreka fiandans ok unnu sua liotan nidingskap, sem uheyrdr er annar þuilikr. Enn ef ek tala langt af tilfaur ok efni þessara udęma, maa uera, at mer uirdiz til rogs ok fiandskapar, ok þui kys ek, at þeir birti ydr framar, er brefit bera, þuiat af þeirra ordum fae þier skilt, huersu udęmiligr harmr, naud ok afelli uordinn eru allri kristni i þessa manz drapi ok dauda[2], þo at erchistolinum i Kancia liggi nęst ok i mestu rumi sua hormuligt frafall sins herra ok hofdingia. Þui maa hin romuerska modir eigi leingi þeigia yfir slikum hlutum, suo at henne se lytalaust, þuiat huer skaum edr skadi sem ger er dotturinni, dreifiz su suiuirding allt til mędrinnar, ok eigi er modur hadungarlaust, ef dottir hennar er hertekin. Til yduar kallar heilags faudr dreyri ok daudi þessa heilaga manz, ok bidr hefndar eptir sig. Enn ydr se nęr ok samradr allzuolldugr gud leggiandi allann hefndarhug laugligrar stridu upp aa yduart briost med þeirri fram-

[1] orauggr *Cd.* [2] daudi *Cd.*

kuęmd, at heilog kirkia frelsiz af liotri suiuirdingu ok endrbętiz til fegri asionu. Valete.

Nu hafa lesin uerit þriu bref þriggia hofdingia af Franz, er oll gera minning af þeiri raudd, er dreyri uirduligs Thome guds pislaruotz sendi til himna, þa er hann krunadiz undir uopnum sinna undirmanna. Þui syniz uel fallit, at su birting, er samhliodar[1] þess hattar efni, setiz nęst brefum þessum sua sem styrktar innzsigli.

I þeim stad, er Argentheus heitir, bar fyrir einn uirduligan mann i suefni a nęstu nott, adr þar kęmi tidenda saugn af erchibyskups lati. Honum heyrdiz upp i loptid, sem ein raudd kalladi med sua miklu megni: „Sie her, sagdi hon, blod mikid kallar af iordu til guds framar enn blod Abel fordum, er i upphafi heims uar drepinn af brodr sinum.“ Sa madr ihugar drauminn ok segir eptir um daginn fielaugum sinum, sem þeir tala millum sin um ymisliga hluti. Aullum syndiz fyrirburdrinn merkiligr, þott þeim uęri þa enn eigi lios þydingin. Enn litlu sidar gengr inn at þeim sa, er segir drap ok dauda Thomas erchibyskups. Einn af þeim talar þa: „Se nu, fielagi, sagdi hann, her er nu þat kall, sem þu heyrdir i nott, þuiat utan ef kallar þetta hitt meinlausa blod hatt ok huellt til lifanda guds. Fliotuirk ok lifandi er sia raudd ok gagnfęri hueriu suerdi tuieggiudu, ok engi raudd er þessi samlik, at sua skiott hafi flutz[2] ok fyllt allar alfur heimsins kristninnar, þuiat hennar dyrdarhliomi suaradi uth sa huert iardarskaut, eigi minnr enn af blodi Abels fystz pislaruotz. Enn þo at[3] lopt fylliz med piningarraudd heilags Thome, heyra þat eigi þui helldr kardinales i Rom edr helldr Heinrekr konungr gamli, er fleygir sua margan flutning ok florunn i eyrun sa þeim, at þar af daufeyraz þeir margir, ok snua fra uannlęti guds ok laganna, sliofandi sua eggteininn hins heilaga Petri, at þar fyrir fęr herra pafinn storligt amęli af maurgum manne, þuiat allr hinn heitazti bruni, er suara atti þuilikum odęmum, brędiz fyrir honum. Enn þo uerdr þat i siduztu dregit fyrir bęn ok bref godra manna, at herra pafinn sendir þann bodskap Vilhialmi byskupi af Sainz ok byskupinum af Ruduborg at stormęla allt riki Heinreks konungs fyrir sunnan sio. Ok sa sem framar fylgir erendinu til hirtingar, skal med ollu einlitr til framferdar, þott annar halliz or fyrir uilld edr uanmegn.

## *Er Heinrekr konungr tok skriptir.*

84. Sem bref herra pafans koma til erchibyskups i Sainz, tekr

[1] þeiri *tilf.* *Cd.* [2] flytz *Cd.* [3] et *Cd.*



Digitized by Google

hann suo þeira skilning, at enn skal hann fyr(r)i gera ord Heinreki konungi ok bioda honum samtal til yfirbotar a sinn fund, helldr enn steypa stormęli yfir riki hans. Ok sua gerir erchibyskup, at hann skrifar til Heinreks konungs i þann skilning, at hann kiose, huart hann uill sęttaz edr stormęlaz. Heinrekr konungr tekr þetta upp, at hann sękir fram til Sainnz med morgu stormenni, będi byskupum, klerkum ok leikmonnum. Ok er skiott at greina, huersu sa fundr for, at þar skorti eigi uid slęgdir, vndanfęrslur ok sakue(r)ndir, sua at byskup af Ruduborg uiknar fyrir, segiz helldr skulu sękia pafann sem fyrst enn stormęla Heinrek konung med þuilikri uaurn, sem hann leidir malit. Enn herra Uilhialmr auruggar sik þui framar med samþykt sins kapituli, þar med byskupa i Franz ok annara lęrdra manna, sua at hann fellir et sterkazsta forbod yfir allt riki Heinreks konungs fyrir sunnan sio, biodandi þar med erchibyskupum ok liodbyskupum undir ualldi Roma kirkiu, at þeir halldi ok halldaz lati þessar alaugur, þar til sialfr herra pafinn leysir þęr med sinni rauksemd. Heinreki konungi þickir nu at þraungua, enn sakir þess at Uilhialmr hefir framit med ollu sitt mal ok ualld i þessu mali, vill konungrinn honum aungua lotning ueita, helldr skrifar hann nu af nyiu til pafans med miukum ordum framar enn fyr, sem idranda manni heyrir, þeim er sik uill betra ok guds myskunnar leita. Her med bidr hann, at herra pafinn sendi til hans af sinu ualldi tuo legatos, at þeir geri honum alla skylldu med lausn ok likn allra hluta, er þeir sia hann i fleckadann. Uerdr herra pafinn þessu hardla feginn, kiosandi tuo kardinales i þetta eyrendi, þa er hann treystir bezt at standa fyrir konunginum med laugum ok riettlęti. Þessir taka nu fullt ualld ut af kuria med ollum greinum, er at luta þui hrygdarmali, sem heyrir erchibyskups liflati, sua huerium skripta meira manni ok minna, sem þeim syniz laug[1] til bera.

Sem þessir legatar koma til Englanz, finna þeir Heinrek konung i þeim stad, er heiter Doram. Konungrinn tiar sik blidann i þeira tilkuomu, enn þann tima sem þeir leidaz fram i malagreinir, ok kardinales bioda konunginum eid uinna eptir laugum at standa sa þeira domi, adr hann uęri leystr, bregz hann sua styggr uid, at hann byz þegar til bruttreidar. Ok sem hann er buinn i ueg, talar hann sua til kardinales: „Naudzsun rikis uars krefr oss at koma til Irlanz fliott i þessum tima, vilium uęr, at þer bidit her i landi, þar til (er) uer komum aptr. Ok ei bonnum uer, at þer hafit fram herra pafans bodskap uid þa menn, sem hlyda uilia ydru ualldi.“ Legat-

[1] laugg *Cd.*

arnir taka þat rad, at þeir skipa i ferd med konunginum tuo godfusa menn byskup Pictauensem ok erchidiakn Sariboriensem, bioddandi þeim af herra pafans alfu, at þeir leidi konunginn til myktar, huat er þeir mega med sinum fortaulum. Ok þat uerdr sua, at konungrinn uerdr uikianligr, þa er hann kemr aptr or Irlandzferdinni. Finnaz þeir þa i þeim stad, er Brinchas heitir. Suer þa konungrinn, at hann skal hallda allar þęr skriptir, er kardinales setia honum. Þat stendr ok i hans eidstaf, at huarki baud hann ne girntiz, at erchibyskupinn uęri drepinn[1], enn med þùi gengr hann, at hann hafdi kęrt fyrir uinum sinum, suo sem erchibyskupinn uęri einn af hans meingerdarmonnum. Eptir eid unninn fara þeir framm i skriptabod uid konunginn, ok hafa þat upphaf, at hann skal ganga klędlaus fyrir þa kirkiu, sem þeir nefua til, ok þar skal hann framfallinn þola opinbera hudstroku, sua sem þeir standa fyrir med lima, enn hann gengr at fram med nauktum likama. Segir hann sua: „Herrar minir, segir hann, likamr minn er i ydru ualldi, ok þo at þer biodit mer at fara til Jorsalalanz eþa i annan stad til frelsis heilagri kirkiu ok kristninni, skal ek þat giarna gera.“ Sem konungr hefir tekit radningina, er þat upphaf aa skriptum hans framleidis, at allar skipanir, sem hann hafdi sett uid Clarendun moti frelsi kirkiunnar, skal hann eyda ok aptr kalla, ok allar adrar uueniur, er aa hans daugum uaro innleiddar[2], enn þeir lanzuanar sem fyrir honum uaro, skulu sua lagfęraz ok betraz, sem herra pafinn leggr rad aa. Her med skal konungrinn hallda heilaga Jorsalalandi til starfs tuo hundrat riddara med sua dyran kost, at huerr riddari hafi eigi minna goz enn þriu hundrat gullpenninga. Her med leggia þeir honum karinu samfasta med bęnahalldi. Jatar konungr þessu aullu blidliga. Her med bioda kardinales, at Heinrekr konungr ungi skal ganga i borgan allrar skriptarinnar, at hann framkuęmi hueria grein, ef fadir hans þrotnar.

Greindir legati leysa byskupana þria, Robert, Gillibert, Jocelin. Baru þeir langa pinu glępa sinna, þuiat þeir aftignoduz byskupsdom ok heilogu embętti iafnan sidan, ok þo halladiz at þeim meiri þungi summum, sem enn mun sidar getid uerda. Kardinales taka ok fiora riddara, er drepit hofdu sęlan Thomam, med þeiri lausn ok skript, ath þeir skulu fara til Jorsalalanz. Ok þat hallda þrir af þeim med idran ok goduilia, enn Uilhialmr af Traz, er fyrstr uann aa erchibyskupinum, uerdr suikinn af illra manna fortaulum, sua at hann sitr eptir. Ok þui fęr hann gudliga hefnd, sua at hann funadi kuikr, ok badar hendr leysti brutt af honum i axlarlidunum. Syndi hann

[1] drefinn *Cd.* [2] ok innleiddz *tilf. Cd.*

Digitized by Google

i þessum kuaulum sanna idran, ok sagdiz trua, at heilagi Thomas byskup mundi honum likna mega med sinni bęn fyrir gudi. Ok þott hann hafi myskunn fengit, uar þo nytsamligt, at sua mikill glępr uęri opinberliga hegndr af gudi audrum til uidsionar. Lika faur fengu margir, at i þeira fauruneyti[1] hofdu fremstir uerit, at skiotr ok skammr uard þeira endir. Sumir urdu braddaudir an iatning ok þionustu, sumir ofuerkium lostnir, sua ath þeir bitu af ser fingr eda tunguna or hofdinu. Sumir funudu lifandi, sua til dauda fęrdir, einir uitlausir, adrir diofulodir, synandi sua huer odęmi þeir haufdu framit i faudrdrape med fylgd ok samþycki. Enn þrir riddarar fyr greindir foru þui betr, at þeir baurduz fyrir Jorsalalandi ok fiellu þar.

Enn allar þęr skriptir i Englandi, sem uarr herra tok eigi til sin med bradri hefnd, skipa kardinales upp i syslur byskupanna, sem hlotnazt, ok ber þaa Bartholomeus Exoniensis i þui mali hęsta raust, þuiat hann hafdi skrifat til herra pafans, huersu skripta skylldi þess hattar monnum, er aa nockurn hatt hafdi samlagaz þeim haduliga glęp, er uard i drapi erchibyskups, huort sem þat uęri fyrir raan eda rogh, med fylgd eþa samþykt. Ok hier i mot hafdi herra pafinn skrifat honum bref, sem sidar mun uerda nockuru liosara, þuiat nu fyr er med lykt aalitanda, huersu þessir kardinales ok postoligs sętis legati uoru nytsamligir Englandz kristni i sinne tilkuomu. Þeir leystu byskupana, þa sem dregit hofdu Thomam erchibyskup undir dom med ueralldar haufdingium, her med suarit konunginum at hans fordęmdar uillur ok sidleysur, ok stadit i uigslugerd sonar hans będi til smanar erchibyskupi ok laugunum. Her med hreinsa þeir kirkiuna i Kancia ok kiosa til erchibyskups meistara Jon af Sarisber laugligan mann, er hafdi i uthlegd (uerit) med sęlum Thomasi erchibyskupi. Þeir leysa ok riki Heinreks konungs af stormęlum, ok eptir þat uenda þeir signadir aptr i Rǫm.

*Merkilig vitran er bar fyrir eirn brodr i Cancia.*

85. Nu sem Heinrekr konungr gamli ok sialfir manndrapsmenn uirduligs herra erchibyskupsins eru settir af sialfum gudi eþa kirkiunnar laugum her aa iardriki undir idran, ma heyriliga segiaz i þaa liking, sem þat nattmyrkr liettiz nockud, er lagdiz yfir Englandz kristni, þa er Thomas erchibyskup var saklaus drepinn i haufudkirkiunni. Enn nu ma synaz, sem yfir landinu liggi þungi ok þokufall mikit, meþan margir af þeim ganga enn ohegndir, er sam-

[1] faurunauti *Cd.*

bundnir uaro þessi guds reide, med huerium tildrętti fyr eda sidar innan landz eda utan þat hefir uordit. Þessir allir hofdu tapad riettlętis birti, ok þui standa þeir riettliga merktir fyrir dimma þoku, er op(t)liga felur sialfa solina med sinum fordrętti. Sua skyggia þessir obęttir þat skięra lios, er nu leyniz i Kantarabyrgi fagrt ok gaufugligt fyrir hęsta gudi. Þessa skyring uottar uitran su, er þar uard at erchistolinum i Kancia.

Einn af brędrum snilldarmadr ok klerkr mikill uar þar milli annara, er[1] siþan samdi morg letr ok faugr af lofsamligu lifi sęls Thome, framfaur ok iarteignum erchibyskups. Honum syndiz um natt, sem hinn heilagi Thomas erchibyskup uęri skryddr ok albuinn til þionustugiordar þar i hofudkirkiunne. Hann uar riodr i asionu ok hardla biartr, sem madr ma þeckiligazstr uera. Brodurinn lysti at sia upp aa hann, enn synin uar at sinne eigi lengri, þuiat her uaknar hann. Ok enn adra nott ber fyrir hann aa allann sama hatt. Hann hugleidir nu med sier, huat þetta mune þyda, ok tekr þann skilning, at honum mun gefit fęri, ef hann uill spyria nockurs, gengr nęr meir erchibyskupinum ok beidiz blezonar. Her med talar hann suo: „Bid ek þik, herra minn, at ydr misliki eigi, þott ek spyri nockurs.“ „Tala þu,“ sagdi hann. „Ert þu ei framlidinn ok daudr?“ sagdi brodirinn. Erchibyskupinn suaradi: „Ek uar daudr, ok nu upprisinn.“ Munkrinn suarar: „Ef þu reis(t) upp samuinnandi pislaruottum, sem uęr truum, hui synir þu eigi heilagleik þinn fyrir maunnum?“ Hann suaradi: „Ek ber fagrt lios i hendi, enn þat fęr eigi synz fyrir þoku þeire, er at þreynguir.“ Munkrinn skilur eigi, huat þetta merkir. „Villt þu sia skyringina?“ sagdi erchibyskup. „Uil ek giarna,“ sagdi broderinn. Heilagr Thomas bregdr þaa upp skridliose myklu med brennanda kerti: „Hygg nu at,“ sagdi hann, huat þreynguir liosinu.“ Munkrinn ser, at þoka sua þyck legz umbergis hia ok at skridliosinu, at liosit hylur ok felur med ollu. Broderinn skilur þa synina, at uerk hans god ok dyrdlig mętti birtaz fyrir monnum, ef eigi stędi fyrir ohegnd illzskuþoka hans ofridarmanna. Her eptir gengr erchibyskup til alltaris ok setr skridliosit annan uegh hia alltarino fyrir gradunum. Byriaz þa messa utar i korinn tonlaust med þui upphafi Letare Jerusalem. Herra erchibyskup segir til þeira, er messuna byria, at hann uill helldr hafa annat messunnar upphaf, þuiat Letare Jerusalem merkizt fyrir fagnad. Þui hefz upp lagligha haurmungar officium Exsurge quare obdormis. Siþan uaknar brodirinn ok hugsar ein-

[1] enn *Cd.*

golldin.“ Enn hvat leingra, enn þetta mal profadizt suo med allri grein, ath kyr fatæka mannz var leidd aptr til lifs fyrer lofsamliga millde hins virduliga faudr Thome erckibyskups. Rika manni fanzt suo mikit vm þenna hlut, ath hann vill samlagazt i þui sælum Thomase ath stydia kosti karls þessa, suo ath hann gefr honum fyrst landzkwna, ok þar aa ofan iardarkot, er hann hafdi adr leigt. Kom nv saa fagnadardagr yfer þau karl ok kerlingu, sem alldri hafdi adr ordit fyr aa þeira æfi, ath þau uoru ordin landeigandi. Enn hueriar þacker er þau giordu þeim signada herra, er þui uolli, faum uær eigi med ordum greint i þessu mali, ok suo (er lykt) hiartteignar i guds nafni.

*Af eckiu einne er sat.*

95. Eckia ein sat i litlum bæ, hun atti son frvmuaxta kominn aa skilningar alldr. Þat ber suo til vm einn dag med þeim mædginum, ath hon huspreyia aauitar hann son vm einhveria missmvne. Enn hann tekr þat med suo uanstilltre brædi, ath hann hefr upp annan fotinn fyrir briost henni med suo haurdum slag, ath hon hnigr til iardar i omegin. Fyrst i stad lidu suo fram nauckurer dagar, ath ungi madr gleymer verckit an idran ok yferbot, sem þat sie einkis vertt. Kemr nu suo þessu næst ath sidveniu godra manna, ath hann sæker med audru folki i Kantuariam, ok er hann kemr ath musterisdyrunum hins heilaga Thome, þrau(n)guizt fyrer hann einn ok annarr, suo ath alldri fær hann inn komizt. Ok þott hann leiti suo til, ad eingin madr syniligr megi honum fra hrinda, bæger honum ei þui sidr guds domr osyniligr, sem ouinrinn sialfr sie fyrir honum. Hann unndrar sina ogiptu ok leitar til eins kennimannz, ber upp fyrir honum sitt uannkuædi ok bidr hialprædis. Prestrinn suarar: „Þu munt hafa uannrækt med nauckurum hætti þinn lifnat, ok mun stortt aa standa, þott þu hafer gleymt, þuiat heilagr Thomas skilr þik i burtt fra sinu folki ok dæmer þig omakligan heilagrar kirkiv, ok þui hæuer þier eingin vegr vtan ath leita myskunnar med iatning ok idran, ok leita vel epter, huat þik hent hefer.“ Hann giorer ok suo, skriptazt vid þenna sama prestinn, ok finnr þo eigi, hvat honum er mest ath meine, ok þui er hann inngaungu kirkiunnar iamfiare sem adr, þott hann freisti. Prestrinn seiger þaa: „Jatning þin mvn eigi suo vannuirkt, sem nær þyrfti ok naudsyn krefr, þui leita þu epter enn framar þeim obættum glæp, er þig mvn þraungua þui daudligar, sem þu hefer meir uannrækt.“ Hann salugr fer i annath sinn, ok med tilvisan heilags anda finnr hann glæpinn, er hann i fiell fyrer þessa missþyrming sinnar modur. Prestrinn seiger þaa: „Eigi er undarligt, þo ath heilog

Digitized by Google

kirkia fyrerliti þig, þuiat obættr þessi glæpr fyrerbydr þier kristinna manna samlag.“ Hann talar þaa med tarum: „Huat er nu til rads, sagdi hann, suo ath ek megi hialpazt?“ Prestrinn suaradi: „Hier synizt mier eingin skript heyriligri til liggia, ef þu villt aluarliga þig bæta, enn þu taker þann liminn i burtt af þinvm likam, er savrgadizt i suo hædiligum glæp.“ Hinn horfer ecki aa tillagit, setr auxi aa fotinn ok hauggr i burtt af sier. Skridr sidan ath kirkiudyrunum hins heilaga Thome. Eru þaa lidugar dyr ok lofut inngangs. Hier med þiggr hann suo mykla himneska myskunn ok aflausn ok likn andarinnar fyrer bæn ok verdleika hins blezada Thome erckibyskups, ath afhaugguinn fotrinn gaf honum fyrer miuka þian ok tarligt aaheit til heilaga Thomam med suo g(a)ufugligri hiartteign, ath suo sem hann hafdi bundit fotarstufinn vit afhauggit, adr enn hann skreid inn i kirkiuna, geck hann suo græddr ok albættr uth af musterinu, sem alldri hefdi hann skemdr uordit, nema þat dyrdarmarck hins heilaga Thome erckibyskups bar hann æ sidan, sem raudr silkiþradr lægi vmbergis fotinn, þar sem af hafde verit haugguit. Suo giorde hann sinn uegh i lofi guds ok hans astuinar leystr af glæp ok leiddr i myskunn grædara vors herra Jesu Kristz.

*Af gaufgum vin Thome.*

96. Beimini hiet rikr madr. Hann hafdi uerit godr fielagi Thomam ok staudugr uin, suo leingi sem hann lifde hier i heimi. Þessi riki madr eflde[1] stortt hus aa sinum bugard, ath hann ætladi, ath kirkia skylldi uera. Heilagr Thomas hafdi iatad honum ath uigia husit, enn þar til unnuzt honum eigi lifdagar, ok þvi stenndr saunglaust þat nyia uircki. Byzt nu til byskup annar at fremia uigsluna, sem herra Thomas uar under lok lidinn. Bondinn seiger sier þat miog um þverann hug, ath nauckur byskup vigdi þat sama hus, nema saa sem honum hafdi iatad. Hann uerdr þaa spurdr, huer saa uæri. Bondinn seiger hann vel nafnfræganu, þuiat hann heiter heilagr Thomas erckibyskup. Synizt þaa sumum maunnum, sem tru bondans rise miog i lopt upp, ef hann ætlar honum vigslvgiord aa iardriki, sem uar leiddr ur þessu life. Ok þo verdr honum uon sin ei ath aungu, þuiat heilagr Thomas fagr ok dyrligr birttizt honum i suefne ok talar suo til hans ok seigizt kominn ath fylla sitt fyrerheit i helgan kirkiunnar: „ok til þess, sagdi hann, ath hier um siertu ifalaus med aullu, skal eg faa þier .ii. uotta, er kirkian skal syna þier aa morgin, ath hun er uigd. Enn annar uottr er saa enn litli

[1] elfde *Cd.*

gullkross, er ek legg hier under koddann hia þier, ok saa sami kross vil ek ath dyrckizt i þessari kirkiu ok skutlizt i aungvan stad annan, ath hann syni naalægum ok okomnum, huat gud hefer giortt med þessari kirkiu fyrer mina bæn ok medalgaungu.“ Suo seiger hann blezadr. Enn bondinn uaknar, finnr krossinn, þuiat synin uar falslaus. Hier med er kirkian suo fallin sem uatne ausin bædi utan ok innann, en þo uar hon þur aataks. Hier fylger annat þessari aasynd, ath ilm hafdi hun suo sætan, ath uel maa heita enn þridie vottr hennar uigslu. Þat fylger hier med i lofi guds ok tign hins heilaga Thome, ath kirkia skein sidan maurgum taknum, þuiat eitt i millum annara endemarcka finnzt sua skrifat, at i nauckurum argang aa fimtudag iola, þat er heimferdartid heilags Thome til himirikis,[1] audladizt þaa albætta heilsu saa, er adr var kryplingr, daufr ok likþrar. Suo dyra fylling feck bondin þess fyrerheitz, ath storar ueizlur uoru yferlagdar, framar enn hann kunne ath kiosa, þuiat þær saumu mattu i kristninne aevenliga skina.

Hier fylger med uigsluhiartteign ok þat blezada litilætisverck, er hinn signadi fader Thomas framdi med einne fatækri konu. Hun atti einn smapillt suo haurmulegan ok afleiddan sinne natturu, sem hann uæri allr frasnvinn sinv edli med undarligum krankdome. Hun salug moderin heyrer dagliga, huersu heilagr Thomas skin biartt i Kanncia, ok þui berzt hun þat fyrer ath færa honum barnit. Enn suo uar uegrinn langr af þeim by, ath eigi sottizt meira aa siotian daugum, ok þo berr hun sig til. Er suo greindr bunadr hennar i ueginum, ath hun hefer eina skickiu yzta klæda, ok þar under ber hun þat saluga barn. Nv sem hun hefer farit fimm dagleider ok hefr upp hina settu, kemr madr aa uegin i moth henne, hann er blidr i aasionu ok suo buinn sem þeira formenn, er koma heim af Jorsaulum, þuiat hann berr fagran palmuond i sinne hennde. Hann talar fyr til konunnar, sem þau mætazt: „Huat ber þu suo leyniliga unnder skickiunne, sagdi hann, sem þu uiler, ad eingi siai?“ Hun svarar ok seigizt ecki bera nema klædi sin, þuiat hun ofremzt ath syna vtlenzkum manni sitt afkuæmi suo ferligt uordit. Palmari uikr þaa ath henni diarfliga ok uarpar skickiuskautit ut aa handueginn, suo ath hann sier fullgiorla, huat unnder er. Konan salug rodnar þaa, ok þui eigi olikt, sem hun hrinnde barninu fra sier med hare ravdd navckure. Ok suo ferr, ath palmar tekr med, enn hun lætr laust, hefer ath hendr vm eina stund ok þuklar limv aptr i lag med suo blezadri kunnattu, ath þenna pillt fær hann aptr modrinne albættan

[1] ok *tilf.* Cd.

Digitized by Google

til allra lida, sem alldri hefdi hann kranckr ordit. Palmar seiger þaa: „Þu mvnt ganga ecki leingra i kvelld enn fram til stadarins, er nu sier þu. Ok þann byskup, er þar sitr, mattu finna, ef þier likar, ok tia honum, huat þier hefer veitzt a ueginum. Seg honum þar med, ath saa er heilan giordi pilltinn uill, ath hann fari til Kanntarabyrgis ok bodi brædrum hiartteignina. Enn mier synizt rad, ath þu vender aptr i atthaga þinn, þuiat þu ert uanfær i þuilika farleingd.“ Suo skilia þau, ath palmar ferr heim til himirikis, enn hun lofar gud ok sæker heim byskupinn, sem henni var bodit. Fer þat allt sidan saumu leid, sem adr var ritad i forsaugn uors drottins uinar, ath byskup for fram til Kannciam ath frægia hiarteign, enn konan snere aptr til ættiardar sinnar. Suo huggadi blezadr fader harmþrungit briost. Enn hversu hann giorde uid gamlar konur, er hann heim sottv, er frasagnar vertt. I fam ordum ath þott þær kæmi suo forhrumar til hans med knut ok ofuerckium, ath eigi mætti mivkr lofi meinlætalaust i nand koma, sneru þær suo i burtt, ath þær baurdu med knefum þaa saumu sina limu, ath aller mætti siaa, huat þær haufdu þegit fyrer pislarvættissins verdleika. Suo ok hueriar heilsubætr er hann uann folki sinu heima i Kanncia, nær eingi madr letri lugt. Þar uar ein kona suo biug ok hryggdreigin, ath aa þrimr arum matti hun alldri upp rettazt, enn þegar er hun kunne ath krivpa nidr ath þeim signada erkibyskupsins likama, geck hun suo i burtt, ath bædi var hun rett ok i aullum lidum albætt.

Hier ferr þat med, ath kirkian i Kanncia hafdi feingit suo vakran geymara, ath illrædismaunnum var eigi innan handar þat, er hun atti, þott þeir feingi innkomit ok ætludu ath stela. Þar af er suo skrifat, ath einn gilldr þiofr leyndizt til nott ath locka upp allar lokr ok hurder, er geymdi kirkiuna, ok maa likligt synazt, ath saa baulvadr hals hafi of miog heima alin verit i gardinum, suo kunnliga sem hann for. Nv sem hann kemr i kirkivna, sopazt hann um fast, ath stuldrinn skuli ecki smavægr vera bædi med gull ok silfr, hrapar eitt gullker af sinne staudu suo hatt ok huellt nidr aa murinn, ath hann heyrer glaugt fyrst kirkivuaurdrinn ok iafnuel þeir menn, er lagu i næstum herbergium. Suo geymdi guds madr nu framlidinn sitt godz ok heilagrar kirkiu, ath þiofr var halldinn ok sinum samdrætti fratekinn. Skal nu hiedan vikia til einkannligs hlutar, er vor drottinn uann med villd ok verdleika þessa sins astvinar.

*Erkibyskupsins unndirlaugr i Cancia.*

97. Svo er lesit, ath i þeiri syslu sem einkannliga liggr vnder

Digitized by Google

erckibyskupinn i Kantuariam, uar einn falkiner klokr a þess hattar idn. Þath er saa madr, er ferr med hauk ok hund vt aa[1] maurck ath afla ueidiskapar fyr þaa fygling, er falkinn slær med sinum flug ok snarri natturu nidr af loptinu, enn rackinn flytr saman, huat er honum fellr, þuiat meistaradomr hefer vanit þaa bada, ath huor giorer sina syslu. Nv geingr suo til vm daginn, sem falkinn snarar upp epter einum fugli, retter einn kvistr sik meinliga i moth honum vth af eikinne, svo ath augat annat vr hans haufdi fellr til iardar. Ok sem hann kemr aptr aa armlegg herra sins, syner hann liosliga, huat hann hefer latit. Ok medr þvi ath fuglinn uar hinn uænnzti gripr, harmar suo eignarmadr, sem hann hafi storan skada feingit, hugsar þegar med sier, ath hann skal flytia falkan til lækningar hinum sæla Thomase erckibyskupi, þuiat hann uar nu frægaztr lækner i aullu Einglandi. Suo giorer hann, hefer sig fram i ueg til Kantuariam ok flytr med sier falkann. Ok ath komnum deigi sem hann nalgadizt stadinn, ridr i moti honum mikit hoffolk, þuiat suo lidu nu flestar tider dags af deigi, ath flockar foru annattueggia fra edr til. Fyrer þessvm skara var einn rikr madr vænn ok ungr ath alldri, hann uikr ath falkiner,[2] sem þeir mætazt, ok spyr þegar, þvi hann færi i þuilikann stad suo sem med leikligri hoflist, „at þu berr falka aa henndi, sem þu skuler aa fuglaueidi[3] fara.“ Hinn seiger honum i moth, huersu fallit er, þat er fuglinum til hefer borit ok huat hann uilldi þiggia. Enn þetta efni tekr riki madr med ferligum vtbriot, seiger okristiligt verck ath kalla aa heilagan mann vm slikt, „eda hyggr þu, sagdi hann, ath erckibyskupi þike uarda, huort hræfuglin hefer helldr tvo augv enn eitt.“ Hinn seiger, ath hann uænter i miskunn Thome, ath hann virdi sier ei til minnkarar, huat sem med godri æru ok litilæti verdi hans kallat. Suo skilia þeir, ath riki madr setr nei fyrer. Kemr falkinn til stadarins ok flygr framm fyrer alltari heilags Thome. Ok ei hefer hann þar leingi dualizt, adr enn hann heyrer ferd mykla framan ath musterinu. Hann sier bratt, ath hier geingr inn aundverdu briosti suo klæddr madr, sem hann hafdi mætt aa ueginum, þat sier hann ok med, ath þessi geingr nv med sidri hettv nidr fyrer aasionv, ferr hann lagr ok lotinn sem harme þrunginn. Þetta undrar falkiner hardla miog, suo uppreistan sem þessi riki madr bar sik, þaa er þeir funnduzt. Ok þegar sem fyrst er færi, vikr hann ath honum ok spyr, þui ath hann sie þar kominn, suo nylega sem hann for þadan. Enn hann fær þuilikt annsuar: „Felagi minn, sagdi hann, mik stendr su sauk, ath ek er fallinn i vors herra missþykt ok hins

[1] þaa Cd. [2] ok tilf. Cd. [3] fuglu ueidu Cd.

heilaga Thome erckibyskups fyrer þa dirfd ok dom, er eg setti framm i dag aa ueginum, þat er til heyrde þier ok falkanum, þuiat litlu sidar enn vit skildum, þotti mier likazt, sem beygdr mannzfingr kæmi ath minu auga med suo stridum aavercka, ath þegar geck augat nidr aa kinnina. Þui em ek kominn ath fridmælazt vit gud ok hinn heilaga Thomas med sannri idran, ok iamuel bid eg þik, ath þu fyrerlater mier fyrer þaa reiting, er eg giorda þier, ok þar med vil ek, ath þu bider myskunnar.“ Maa þetta efne luka utan langmælgi, hversu einkannliga gud drottinn skipadi, at madr ok fugl skiptu suo ath uors herra bodi, ath madrinn hafdi fugls auga, enn fuglinn þaa aptr mannz auga. Frægdizt þetta verck af þui margfalldliga, at hver sem skyniadi hvortt þeira form ok natturu, matti þat sannliga dæma, ath þat var audrum eiginligt af skapan, er annar hafdi. Var riki madr sidan myklu skygnari enn adr, þott hann uæri nauckud einleitr, enn þat fylgdi þui, ath suefn þurfti hann suo litinn þui auganu, er fuglinn hafdi haft, ath honum þotti mein aa, þuiat þat villdi naliga vaka allar nætr. Er hier þuertt i moti þat, er falkanum til heyrer, hann uar suefnugr sem madr, suo ath honum kom uarla aa fætr edr aa flug til sinnar idiu. Lyktazt hiartteign medr þeim ordum, ath drottinn er dasamligr med Thomase erckibyskupi ok aullum sinum astuinum.

*Vm iarteignagiord Thome.*

98. Svo mvn vitrum maunnum synazt mega, ath hiartteignaforn hins blezada Thome erckibyskups samlikizt vel uppreistum vidi, þeim er palmi heiter. Saa vidr er vagsinn olikr audrum triam, þuiat hann er minnztr vit iord, enn megnatr æ til vaxstar suo sem rot vidarins, er fuglinn med natturu fyrir mannz augum mercker hun. Þui skyra þær vitraner er upphafliga runnu sem rot unnder hiartteignum, þuiat suefnar tiar hugskoti, enn eigi likams augliti. Vpp af þessari rot geck uidrinn uægiliga med smærum hiartteignum ytri lima, þar til hann þroadizt æ til meiri uaxtar, sem nu vm tima hefer lesit uerit. Kaullum uær nv komit upp ath limum ok sialfum auextinum, þuiat allra manna skilningr er einn i þui mali, ath þat sie hit hæsta hiartteignablom heilags mannz, ef hann þiggr þaa til lifs med sinum uerdleik, sem adr eru dauder ok burtt vr heiminum. Ok þui skal þessu næst byria þat efne til lofs ok dyrdar sælum Thome erckibyskupi, ath signadr Dauid psalmista[1] syngi honum þui framar heyriligar: Justus ut palma florebit.

[1] spalmista *Cd.*

Digitized by Google

I nalægd vit erckistolin i Kanncia sath einn bondi nykumatr madr ok vel fiareigandi. Hans bugardr stod eigi firr stadnum einar tuær uikur. Þar i bynum sath magr hans ok kynferde umbergis. Tuo frændr nana atti hann miog olika, annar var modrbrodir hans gestrisinn madr ok godrar frægdar, hreinlyndr ok aludarvin klerckanna i Kanncia fyrer astud heilags Thome, hann hafdi lagt fyr nefndum systursyni sinum nauckut godz til kuonarmundar med aullum lagalesti. Annar frændi bondans var illmenni mikit, hafdr i stormælum af heilagri kirkiu, bannsettr med aullu fyrer suo haduligan skemd, ath hann hafdi lagdzt med tueimr systrum, enn verndar sidan glæpinn med þriozku ok uill eigi uit skiliazt. Bondinn, er vær nefndum i fyrstu, er suo blindr, ath hann dregr i fylgi med þeim frænda sinum, er uer hafdi, ok honum þikizt hann veita þat lid ath uera einginn leitamadr til Kanntarabyrgis, helldr i motdrætti þat smatt er til fellr. Saumu leid férr þat, er heilaugum Thomase til heyrer, þuiat hvorcki hans ne aunnr teikn vill hann i sinu husi geymazt lata. Ok þui var ei unndarligt, þo ath þat eymdarherbergi stædi til mikils bardaga, er suo syktizt margfalldliga. Nu geingr suo til efnis, ath huspreyian er med barne, ok epter lidin tima leggzt hon i sott ath kuenna sid. Horuer þat ei uænliga, þuiat hennar lettakonur skilia bratt, ath burdrinn er liflaus med henne, enn sottin hardnar þui meir ok herder sig inn ath lifi sialfrar hennar. Er nu giortt bod epter faudr hennar, kemr hann þangat fliott til huspr(e)yiv sinnar ok dottr, ok ath þessu frændlidi samankomnv med eymd ok angri gret hans hus i allar alfur. Ok þo stendr enn epter nauckut, þuiat bonda fellr suo nær af nyteknvm astvm, ath hugr hans glatar sinn styrck ok velltr i suo mikit volad, ath hann er buinn til ferdar. Huspreyia in siuka kenner giorla, huat sier lidr, ath daude sialfr er fyrer dyrum, ok þui hugsar hun þangat ath renna til fulltings ok hialpar, sem nu uar allra godra manna sidr i Einglandi. Enn sak(er) ueykleika bonda sins ok fyr greindrar illmenzku þorer hun eigi ath heita a hinn heilaga Thomam fyrer sier, suo ath (hann) uiti, ok þo vill hun giarnan fa nauckut af hans blezaudum teiknum ath bera yfer sig. Þat tekr hun rads ath siduztu, at hun kallar sinn trvnadarmann ok fær honum leyniliga eitt fingrgull hardla uænt ok seiger suo til hans: „Þu skallt fara til Kantarabyrgis ok bera sælum Thomasi kuediu mina med þessari minning. Hier med skalltu bidia hann, sem þu kannt bezt, ath hann virdi mik eigi samblanna þeiri fæd, er bonndi minn leggr til hans, þuiat suo uil ek frialsazt vr allri kuol, sem ek truer hans heilagleik ok ek treyster hans bænum. Giarna

uillda ek, ath þu feinger uatn hans ok ef ek er lifs. Enn flyttv ferdinne, þuiat sottin geingr mier nær." Senndimadrinn ferr sem fliotazt maa hann ok fær uatnit, enn þo er huspreyian erinid, adr enn hann kemr aptr. Vex nu eymd ath nyiv. Vit þat var bonndinn adr harmsleginn vitleysis med aullu, ok þat er nu meira starf i bænum ath geyma hann lifanda enn huspreyina dauda. Þat er nu rads tekit, ath hleypt er nu upp i byinn til þess rika mannz, er reyndr var ath godum radum. Ok þegar sem hann heyrer suo mikinn harm, bregdr hann vit ok kemr framm. Er þar ogladligt inngaungu, einn er daudr, annar vitlaus, allt folk uar i kuein ok angri. Riki madr leitar epter spakliga, hversu til hefer geingit vm sottarfar husfrurinnar edr vanheilsu bondans. Saa madr seiger honum, sem for til Kanneiám, huersu[1] husfruinn fridmælltizt vit sælann Thomam. Riki madr seiger þa: „Eg þikiumzt skilia, ath frændi minn er halldinn tuenre sekt, ok þui er honum makliga komit tuevallt syndagialld, fyrer þann oþocka, er hann hefer sælvm Thomase ok stadnum i Kancia, mvn hann hafa latit husfrv sina, enn fyrer sitian vid frænda sinn bannsettan, mvn hann hafa tapat samvizkunne." Sidan talar hann sue vit þann sama mann: „Þu skallt fara i annan tima til Kantarabyrgis ok færa Thomase vin minvm hring þenna, er ek fær þier, ok hier med ber þu ord min sira Guzalin, ath hann komi til min med þa heilaga doma, sem hann vænter ath mesta myskunn megi afla, þuiat vær þurfum nv miog vid." Senndimadrinn skilar hringnum ok flytr sem greint var prestinvm. Sira Guzalin byzt a þann hatt til þessa motz, ath hann flytr med sier vors herra likama ok blodbland hins heilaga Thome erckibyskups. Ok sem hann kemr fram til bęiarins, bidr riki madr hann giora þeim huggan fyrer guds nafn. Hann byriar suo, ath hann lætr bland heilags Thome erckibyskups i uigdan kalek, sidan berr hann yfer eukaristiam i kross ok lætr i siduztu fornarhiolit mæta uatninu. Suo blezadan liquorem leggr hann med lettri fiodr yfer augu huspreyiunnar framlidinnar. Ok henni bregdr likt vit sem sofanda manni, ef þann veg er uith hann komit. Hun sier upp augum ok renner til synar. Enn litlu sidar sem hun greiner, med hueriv sottarfar hennar hofzt i fyrstu, kallar hun til sin þær lettakonr, sem fyr hafdi hun, seigizt kenna, ath burdrinn hefer lif þegit, ok hun vænter sier letta. Huat er leingra, enn med fyrstu skerpu, sem henni kemr, fæder hun sueinbarn bædi uænt ok lifmikit. Ok rett iafnfram sem pilltrinn kom i lios, var fader hans aptr leiddr i sina[2] samuizku. Maa þat godr

[1] haorsu *Cd.* [2] sama *Cd.*

madr hugleida, hversv fagnadrin munnde þar sætliga gud lofa ok hans haleitan uin Thomam erckibyskup. Sira Guzalin skirdi pilltinn nyfæddann med Thomas nafne, þuiat hann skilde, hversu þat uar vidkuæmiligt, ath þann sem erckibyskup reisti til lifs, heite hans eignarnafne. Var bonndi eigi sidan minnr goduiliugr enn adr hardinndin. Ok[1] sæ kynþattr elskadi sætliga þann blezada guds mann Thomam erckibyskup, er med gudi lifer an ennda.

*Af Jordanus riddara.*

99. Jordanus heiter riddari, rikr madr ok mikill vin hins heilaga Thome, þuiat hans pilagrima tok hann iafnan feigins hennde, huort er þeir foru framm edr fra, veitti hann aullum herbergit, er hafa uilldu, ok maurgum bædi samt hus ok vidværi. Þat fiell til i hans herbergium med guds domi, ath vm haustit i Augusto manadi, kom þar inn sott mikil ok stod allan tima fram til paska. Enn eigi greiner bok, ath manndaudi fylgdi suo mikill þeiri sott, enn þat stenndr skrifat, ath Jordan atti son, er Vilialmr heiter, hann var kominn sæ tiunda vetr. Fostrmodur atti hann pilltrinn, er honum hafdi veitt fagrt vppfædi, hun tekr sott ok anndazt. Ok þegar sæ þridia deigi epter, sem hun er greptud, sykizt pilltrin vm atta daga, enn anndazt sidan sæ þridiu tid dags, er uær kaullum dagmal. Ok fliotliga kemr prestr ok syngr sæmiliga yfer pilltinvm, þuiat honum þotti ofrs von epter suo riks mannz son. Alla hina næstu nott epter er vakat yfer pilltinum med grat ok lioskerum, þuiat bædi fader ok moder satu i sorg. Næsta morgin epter koma þar .xx. pilagrimar hins heilaga Thome erckibyskups. Þessir haufdu verit i Kancia ok flytia þadan med sier heilagt uatn af hans benivm. Riddarinn tekr þa med astud epter uana gioranndi þeim uænan snæding med sialfs sins godzi, adr enn þeir fara sæ burtt af hans gardi. Ok sem ath þeir leysazt i burtt, bidr hann þæ ath gefa sier af uatne heilags Thome. Kemr prestr bratt sæ gardinn i moti likama sueinsins, ath hann flytizt ok greptizt. Riddarinn seiger, ath prestr skal fyrst taka uatnn hins heilag(a) Thome ok dreypa i munn pilltinum, ok seiger þat sitt hugbod, ath heilagr Thomas leidi aptr son hans i veralldligt lif. Prestrinn seger suo, ok skipazt ecki vit, bydr sig enn til ath færa likit til kirkiugraftar, seiger ath þetta er uitleysi ath vardueita suo leingi daudan mann. Jordan seiger, ath betr skal profa þat mal, adr enn pilltrinn er grafinn: „Þuiat mier vikzt alldri hugr vm þat, sagdi hann, ath Thomas erckibyskup muni til sin vm taka,

[1] adr *tilf. Cd.*

ok uar hans madr ok uin alla stund, samedan hann lifdi.“ Sidan geingr hann sat likamanum ok setr knif i millum tanna honum ok hellir sidan uatninu ofan i bukinn, ok til þess ath uatnit skuli nidr leita i briostit ok þui framar, lypter hann upp haufdinv. Ok sem hann hefer hier ath stadit um hrid, kemr raudr fleckr i vinstri kinnina, ok nauckuru sidar lypter hann upp augunum, suo glauggr i sinne grein, ath hann kenner bædi faudr ok modr ok talar suo til þeira: „Þui standit þit med harmi yfer mier, sagdi hann, þar sem hinn heilagi Thomas byskup vill, ath þit fagnit bædi? Þui leiddi hann mik aptr, ath ek skylldi lifa yckr til hugganar.“ Suo reis hann upp af baurum heill ok albættr. Hafdi (daudr verit) allt fra þridiv tidh ok til þrettanndu stundar sa næsta dag epter.

Fylger hier enn annat dyrdartakn likt i saumu grein. Eckia nauckr sath i bæ litlum nære sio i Einglandi, hun atti .iij. baurn, dotter hennar uar frumuaxta, aunnur þreuetr, sonr hennar uar misseriss gamall. Nv geingr suo til ath salidnu sumri, ath eckian fer til laugar med þesse tuo env yngri baurnin ath þuo þeim ok bua til suefns. Sem þau uoru adr laugmod, enn er þau sitia i laugunne, kalla fiolskylldr ath modurinne, suo ath hun geymer eigi radsins, þuiat hun bydr vm elldra barninv ath hugsa til hins yngra. Ferr hun til idiu sinnar ath vinza korn. Enn barnfostrid tekzt eigi betr enn suo, ath þat sem geyma skylldi fer i burtt ath leika sier, enn smabarnit kafnar i laugunne. Ok stundu sidar sender huspreyian þa dottur sina ellztu ath sækia verckfære nauckut, er þar liggr hia laugunne. Kemr hun aptr med gratliga saugu, ath barnit er dregth i laugaruatninu. Moder rennr til, tekr barnit ok ber med kvein ok kall ut sa vidan uoll, ok vid hennar kall koma þar saman .v. eckivr, þuiat karllmenn voru sa sio roner, enn sumer i akrvercki. Þær taka pilltinn, vellta ok skaka, ef nauckut mætti vatnit upp ganga, ok kemr til einkis starf þeira. Þar ber ath framm einn Jorsalafara, ok sier sa um stund, huat þær hafazt ath, ok sidan talar hann suo: „Til huers kemr yduart starf? Fait þier ei skilt, ath pilltrinn væri laungu daudr?“ Ein af eckiunum tekr þaa til ordz: „Vær skulum heita allar samt sa uorn herra ok heilagan Thomam erckibyskup med knefalle ok heilagri bæn Pater noster niu sinnum, ath uær faum huggan.“ Þær giora suo. Ok er allt samtt. Aunnr talar þa til modrinnar: „Tak einn þrad, sagdi hun, ok legg uit likit, heit þar gudi med ath gefa heilugum Thumase suo hatt kertti ok færa sialfum Thumasi.“ Ok af enndi. Ok litlu sidar enn þetta uar giortt, flaut vr munninum bædi blod ok vatn, ok þar næst blauskrar pilltrinn badum

augum. Sidan kemr krytr nauckur i briostit, þar til ath gratr fylger. Suo uar hann af dauda reistr fyrer ualld ok verdleika hins blezada Thome erckibyskups. Hafdi hann flotit .iij. stunder i laugaruatninu, enn adrar fimm þadan ifra, þar til er hann lifnadi pilltrinn. Hann hiet Gillibert ok lifdi leingi sidan.

Enn uar aunnr eckia kynstor ok audig, hvn var einkannligr vin Thome erckibyskup(s) hier i lifi, huat þat kostadi godz eda fylgi. Sonu atti hun þria er suo hetv Ciprianus, Gustus, Regulus. Ciprianus var ellztr, enn Regulus yngstr. Aller voru þeir brædr i saumv vinattu til Thomam erckibyskups med opinberum godvilia i þann tima, sem heilagr Thomas var uthlægr. Voru þeir, sem fyr matti likt heyrazt i saugunne, suo haundlader ok halldner sem konungs suikarar, ok þar fyrer letu þeir bader sitt lif. Ok einne natt sidar enn þeir voru greptader, fær Regulus broder þeira brada sott med bana ok er lagdr i saumv grauf. Suo liggia þeir vtlegdartima Thome erckibyskups ok þar til er hann birtter fyrer sinn haleitan dauda med lifunndum hiartteignum. Enn suo langann tima fieck moder þeira þriggia varla gladan dag, þuiat hun gret bædi sona lat, ok huersu afskapliga er þeir voru slegner med hatri ok hermd vid hennar vin Thomam erckibyskup. Ok þui sier milldr fader til hennar ok kemr i suefne til hennar med blidum ordum ok blezadarfullum, sem henni þackande allar sinar uelgiorder. Seiger ok liosliga, ath þann mannamisse sem hun hefer feingit, huort sem helldr er fyrer hans skulld edr audru uegs i lati sona sinna, skal henni aptr bætazt. Epter suo dyrliga vitran, vaknar hun, ok fyser þratt ath vitia þeirar kirkiv, sem syner hennar uoru greptader ath. Ok sem hvn kemr ath kirkiunne ok ber sig inn i gardinn, lystr upp liosi myklu fyrer hennar asionu, suo ath fyrer otta, er hana gripr i syn þessari, þorer hun eigi framm ath hallda ferdinne, ok vikr sier aptr ath hlidinu. Ok an duol heyrer hun, ath henni er eptertaur veitt. Enn hun hrædizt ecki þvi minnr, þar til ath otti flyr, enn fagnadr fyller hennar briost, þuiat til beggia handa ganga hier fram syner hennar fyr nefnder reister af dauda, eda sannara ordtak, ath þeir voru reister til lifs af iardar leir, ok þo uoru þeir nv bædi uæner ok uel halldner i ualldi ok verdleikum uors drottins astuinar Thome erckibyskups. Mvn vel skilianda manni synazt einkanliga framkuæmt i þessu dyrdarvercki þat, er fyr med ordum vors herra Jesu Kristi var lesit i vitruninne, ath slikt valld, sem hann gaf Petre postula uolldugum Jons syni, þvilikt munndi hann gefa virduligum Thome Kantvariensi. Annan skilning maa þann leida af þessu dyrdartakne, huersu millde

heilags Thome skin med himnesku liose, ef hann hefer daudan lifgat fyrer bæn þess mannz, er omakligaztr var (a) iardriki fyrer ofsokn ok utlegder, fyrst honum sialfum ok þar uth ifra bædi frændum ok oskylldvm, med suo haurdu grimdarhatri, ath sialfr daudinn skýlldi maurgum af þeira safnadi, sem nv var litlu lesit af tveimr brædrum Cipriano ok Gusto.

Þessa grein eignazt med aullu Heinrekr konungr gamli. Hann reid vm dag ath skemta sier med falka a fuglaueidi, ok einn kertissveinn rauskr madr rann med honum a fæti. Þadan giordizt suo hættliga, at kornhestr konungsins slær fætinum til mannzins suo snartt a midian kuidinn, at þegar lagu idren ute. Konungrinn harmar þetta tilfelle, þott hann være hardbrystr framar flestum maunnum. Hiedan geingr suo mikit þoran[1] inn i hans sektarfulla samvizku, ath hann fellr a kne ok hefr þa bæn til heilaga Thomam, ath hann skuli minnazt fyrer myskunn sina, ef nauckut hefde honum vel likat i hans giordum, ok leggia þessu uannkunædi þaa lækning, ath pilltrinn lifnadi. Hnat leingra, enn hier epter sier konungrinn likams augum, sem hann hefer i burtt uikit fra likamanum, ath madr i byskupsskrudi geingr þar ath, sem hann liggr orindr a vellinum. Byskup þessi lytr ath manninum ok leggr a sina haund suo til likinndiss sem madr væri (vaktr) af suefne. Hefer þat mal þann ennda, ath kennemadr huerfr ath syn, enn saa ris upp, er adr var daudr. Heinrekr konungr geingr þaa nær ok spyr, hvat honum hefer lidit. Enn pilltrinn giorer fyrer sier heilagan kross ok seigizt suo fast sofit hafa, ath mikill þungi liggi a honum, sidan er hestrinn laust hann. Konungrinn seiger, ath vm meira efni sie ath tala, enn hann hafi likamliga sofnat, „helldr hefer Thomas erckibyskup veitt ockr myskunn ok gefit þier lif." Vitiadi litlu sidar] konungrinn legstadar hins heilaga Thome ok geck berfættr þriar milur til stadarins offrandi .vij. merckr silfrs ok .iij. merckr gullz. Maa þa grein hier inn leida, þo ath vidara standi i saugum heilagra manna, ath þaa er gud drottinn vill einkannliga dyrckazt lata i kristninne sina eini med heilagleik ok storum hiartteignum, lætr hann ei fyrer standa bæner syndugra manna, ath þeira dyrdarfullr verdleikr skine suo yfer iardriki sem fyrer hans augliti. Enn veiter Thomas erckibyskup Heinreki konungi fleire uelgiorder, sem i þui lysizt, sem hier fylger.

*Af Hlaudve Fracka konungi.*

100. Svo byriar þetta mal, ath agætr herra Loviss Fracka

[1] þroan *Cd.*

Digitized by Google

konungr astsamligr vid hins heilaga Thome erckibyskups geck fram almenningsveg til fedra sinna ok uar greptadr i mustere uorrar frv guds modur, þui er hann hafde elft[1] ok tignat faugrum presentum. Af hans agætri vthferd er suo biartt[2] til frasagnar ok lystiligt, ath hans legstadr birttizt med hiartteignum. Tok þa konungdom i Frannz fyr nefndr Phil(ip)pus son hans. Hann var litillar heilsu ok kendi likþrar, ok þann krankdom þyngdi med honum ar af are, þar til sem ender giordizt a, sem sidar mun sagt verda. Enn nu er fyrst ath uenda til Einglandz, ath Heinrekr konungr vngi mægizt vit Phil(i)ppvm Fracka konung ok eflizt þar fyrer bædi til landz ok fylgis.

Lida nv suo timar, ath faulnan fellr i frændsemi þeira fedga, suo ath margar greiner ok metnadarhot med vondra manna medalgaunga ok syndagialldi gamla konungs verdr þeim til aaskilnadar, ok þat efne þruttnar suo midil þeira med afskapligum hætti, ath a fimta are epter pial hins sæla Thome erckibyskups hallda þeir suo ofrændsamligt strid, ath þeir buazt i hauggoraustu med fylktu lidi. Enn þeira styrckr vard eigi likr, þuiat vngi konungr hefer til fylgis bædi mag sinn Fracka konung ok þar med Skota konung. I moth þessvm .iij. haufdingium hefer gamli konungr sem eina haund fulla, þuiat bædi ualldzmenn[3] ok almuginn i Einglandi fylger honum (eigi enn) lætr hann fullkomliga sier ath baki, suo ath uarla ma sa finnazt, ath nu ueiti honum fullan trunat. Er nu suo komit malit, ath Skota konungr med sinum styrck er inn kominn i Eingland, þuiat konungs rikia Skotlandz ok Einglandz skilr ei meira enn einn fiallgardr ok laugr einn harla mior. Enn Fracka konungr biodzt til skipa, sunnan vm sie, þuiat su er ætlan þeira konunganna ath hafa gamla konung fanginn ok af flettan aullum sæmdum.

Enn er hann heyrer, sem hann er staddr fyrer sunnan sio, huersu heimrinn herder sig i moth honum bædi til haska lifs ok sæmda, ottazt hann epter manndoms hætti ath falla suo hædilig(a) fyrer sinum ouinum, suo rikr ok uppreistr sem hann hafdi leingi farit, ok huert rad er hann megi reisa i moti þuilikum uoda, finnr hann fulalaust, þuiat þat brast honum eigi. Þat er svo fallit, at hann minnizt a þa elsku, sem fordum hafdi verith i millum hans ok hins heilaga Thomam, þa er (hann var) hans kancelier, fyrer þessa endrminning ok einkannliga sakir myskunnar, er ueittizt i mannzins lifgiof, sem fyr uar skrifat, treystizt hans hiartta nu i annan tima ath kalla til hins heilaga Thomam. Ok med þui byriar hann sina pilagrims-

[1] elft *Cd.* [2] biortt *Cd.* [3] ualldzmann *Cd.*

ferd sunnan vm sio ath sækia til Kantuariam. Ok sem fyrst sier hann (til) stadarins, stigr hann nidr af hestinum ok afklædizt aullu konungsskrudi, tekr sidan fatækligann kyrttil, geingr sidan berrfættr fram til þeirar kirkiv, er astuinr guds dyrckadi enn ath nyiu bædi med blodi sinv ok bierttum hiartteignum. Þar vaker konungr vm nottina med bænum ok akalle til guds ok heilags Thomam. Enn vm morgininn heyrer hann messu ok stenndr berrfættr ath henni, ok epter hana sungna nefner hann sier vætti fyrer aullum saheyrindum nærverundum, ath hann tekr aptr ok onyter allar þær skipaner ok sidueniur, sem þeim erckibyskupi hafdi missætti[1] af stadit, giorandi þetta enn ath nyiu alltt opinbertt, sem fyr hafdi hann iatat kardinalibus. Hier med leggr hann sialfan sig ok sitt riki under ualld ok uernd hins heilaga Thome erckibyskups. Ok þetta allt saman heyrer sa blezadr guds madr, þar sem hann stendr a fialle uppi, epter þui sem sial(f)um honum syndizt i suefne fordum i Franz, þat fiall er Jesus Kristus ste a, er huirfill yfer aullum fiollum, þat er at skilia dyrdarkonungr yfer aullum helgum Thomas erckibyskup samteingdi sig þessu fialli. Þann fuglafiolda er flycktizt ath Heinreke konungi honum til meina, þat er fiolmenne ok herfolk er nu safnazt honum a moth, þesser aller dreifazt vids uegar, þuiat heilagr Thomas rennr nidr af fiallinv ath hialpa konunginum med sinum dyrdarligum verdleikum. Enn huat mercker fyrer þann eina mann, er i drauminum stod ath styrckia fuglana konungi til ofæru, Fracka konungr eda Heinrekr vngi, vilivm uer eigi dæma, þuiat greinin hallazt til beggia. Þat flytr unga konung under þyding, ath fader hans var af honum omakligaztr mothgangs, enn Fracka konung[2] leider þat under glosv, er sa madr fieck snartt suipuhaugg af Thomase, ennda fær hann i þann sama punkt suo snarpan siukdom, ath hann setzt aptr ok er hvergi fær. Suo frialsazt gamli konungr, sem synin forspadi, af allri ogn ok otta sinna ouina fyrer verdleik vors drottins vinar. Ok þegar sem hann fregnar, ath Fracka konungr er fratekinn, er þuilikt sem allr stormr falli i burt, vallzmenn ok almugi hal(l)a sig aptr til fyra goduilia hann ath hefia ok honum fylgia. Hiedan giorizt suo, ath beggia viner ganga[3] i medal þeira fedga, suo ath sættarfundr er skipadr. A þeim fundi styrckia þeir fedgar med saunnvm fridi sina frændsemi. Þar fylger su radagiord, ath þeir bader samtt skulu draga landher at Skotakonungi, ath hann hafi makliga kaupferd ut af rikinu. Þetta ferr fram, ath þeir ellta Skota-

[1] hafdi *tilf. Cd.* [2] konungr *Cd.* [3] gangi *Cd.*

Digitized by Google

konung burtt af Einglandi, ok þar upp yfer uinna þeir mikit heruircki a hans riki bædi med elldi ok uopnum.

Suo stod hinn heilagi Thomas hia gamla konungi i þessari þraut, sem nv uar greint, ok þo lætr hann ei hier lyktazt sina elskv vid hann, þuiat hann birttizt honum i draumi med reiduligu yferbragdi, seigiandi berum ordum, ath hans illgiorder[1] suo storar giora hann i burtt vr allra kristinna manna uon, utan hann taki sig vnder suo beiska idran ok alvarliga med pisl ok hardretti, sem þeim manne heyrer, er suo lidtliga[2] leiddi sina lifdaga. Ok til marcks hier vm gaf honum til vitnis, at a sauma nott, sem hann geingi af sæng, mundi hann briota sina haund, ok þat sama fylldizt. Snerizt konungrinn þaa fyrer þessi ognarord til fremri idranar enn fyr med hungr ok harklædi, þar til ath b(l)ezadr Thomas birttizt i annat sinn ok er nu helldr blidari, seigiandi suo, ath nu hafi hann feingit nauckura lifs von fyrer augliti hins heilaga domara ok eilifa, ef hann spiller ei vm hiedan af. Þessa efasemd, er heilagr Thomas setti sidazt til gamla konungs, ok af annari grein versa þann hinn syrgiliga, er sialfum Thomase birttizt i Franz, sem fyr var lesit, latum vær þat muna, ath aungua dirfd edr dom vilium vær a leggia, hversv hann hefer farit vr þessu lifi, þuiat hann reiknazt a medal þeira manna, er guds þolinmædi hafa reynt i fremsta lagi bædi fyrir laugbrot ok ohlydni, ok til þess ath epterkomandi fordizt þui framar þuilik dæmi, lætr drottin op(t)liga, sem ritningar greina, þess hattar manna framfavr allann tima heilagri kristne okunna vera. En til dyrdar sælum Thomasi erckibyskupi maa þat uel trvazt fyrer þaa hlvti, sem nv hafa næst lesner verit, ath miukliga mvn hann hafa frammi stadit fyrer ualldinu, ef konungrinn uar med nauckurum hætti disponeradr til annligrar myskunnar, ok fyrer sitt blod ok bana maa hann þegit hafa, ath þat sie falslaust, er finnzt i sumum bokvm af idran konungsins, þat fyrst ath hann lagdi astud til kirkiunnar i Kanncia skipandi þangat med nefndu æsk(i)ligt offr i gulle ok silfri, amedan hann lifdi, ok hier med ath hann hafi skilit vit drottninguna, gefit upp allt rikit syni sinum[3] ok geingit i hreinlifra manna safnat eda einvister. Nv ef þetta er satt, mun hinn heilagi Thomas suo hafa vm geingit med sinvm verdleik vith gud, ath þat hafi konungrinn þegit, sem aull hans malaskipti lagu vidr, ath hann hafi sanniliga gratit sina gledi med hinvm sæla Dauid konungi ok signadri Marie Magdale(ne). Maa þat ok uel seigia, ef Thomas erckibyskup hefer haftt i fylgi med sier hier vm unnuztu sina guds modr Mariv, tekr

[1] illgiordum *Cd.* [2] liosliga *Cd.* [3] synum *Cd.*

brvtt allan efa, ath þa hefer Heinrekr konungr feingit goda daga. Maa ok suo hellzt mykia versa þann, er heilagr Thomas heyrde framsagdan, ath med liosum ritningum hafa marger hluter suo verit fyrersetlader af gvdi, ath þeir skylldu eflazt i sina framkvæmd ok eigi verda sydru vegs enn med bæn ok verdleik heilagra. Veitti ok drottinn suo langann tima Heinreki konungi til idranar, ath hann lifdi full atian ar ok anndadizt[1] a nitianda epter fall ok heimferd Thome erckibyskups til himnarikis.

Enn nu skal hiedan vikia til þess, er fyre var, ath Heinrekr konungr ungi ok Jon erckibyskup ok þar med vallzmenn ok allr almugi i landinu hafer einn[2] ok sama vilia til lofs ok dyrdar hinum signada Thome erckibyskupi, ath suo sem hann birtizt margfalldliga blezadr med velgierdum ok allzkonar hiartteignvm vid folkit nær ok fiare vtan landz ok innan, svo dyrckizt hann i heilagri kirkiu af aullvm kristnum maunnum med virduligu hatidarhalldi, sem hann samreiknazt fyrer takn heilaugum maunnum i himiriki.

*Er vor drottinn.*

101. Sem [su tid[3] kem, er vor drottinn Jesus Kristus villde sælan Thomam suo uegsamazt lata yfer iardriki, sem hann var med honum haleitliga virdr i (e)ilifv riki, skipar konungr ok erckibyskup almenniligan fvnd i Einglandi allzhattar stettar lærdra ok leikmanna. Aa þeim fundi er þat stadfest med blezann guds ok samþyckt allra godra manna, ath sendibodar med brefvm ok bænarordvm herra konungsins ok allrar alþydu skulu gioraszt til kuriam til Alexsandrvm paua med þeirre framferd[4] ok flutningi, ath signadr Thomas erckibyskup leiddizt i samsveit heilagra manna fyrer þat postuligt valld, er Jesus Kristus gaf pavanum til þuilikra storhluta. Ok suo sem þeir forv ok fram kuomv tiande dyrligar hiartteigner fyrer sialfum herra pauanum, maa þui hver godr madr nær geta, hversu gladliga heilug Roma kirkia mundi taka þessum eriendum, þuiat sa sem malefnin eignazt, er sua frægr i kristninni af stadfesti ok þolinmædi, vannlæti[5] ok heilaugu lifi, sem hann bære skinanda lios i sinum haundum fyrer hvers manns hugskoti. Enn þat er bækr vikia til, ath þetta nyttsemdarerindi fære nauckut seinna, enn flesta mundi vara, maa þat vitrum manni liost verda, huadan leiddi, rett af þui romuerska raduneyti, er herra pauann afleiddi fyrer þat fylgi ok epterlæti, sem nauckurir kardinalis haufdu olaugliga veitt Heinreki konungi. Ok þa framkvæmdi drottinn sinn vilia i þessu mali ok

[1] anndazdizt *Cd.* [2] ei nu *Cd.* [3] [sotin *Cd.* [4] framferde *Cd.* [5] uannmætti *Cd.*

Digitized by Google

skipadri tid, þat er ath skilia in capite ieiunii, þuíat sa þann sama dag epter ewangelium geingr sialfr herra pavinn med sinvm brædrum kardinalibus vpp a kor, flytiande sialfr þetta hit hialpsamliga erindi til lofs ok virdingar sælum Thomasi erckibyskupi, hversu hann striddi fyrer guds kristne med vthlegd ok meingiordum, med saklausum dauda, ok nv gæddr guds vinattv skinandi med hiartteignvm. Epter milldan sermonem, sem honum likar, tok hann ser i haund þann lykil himirikis, er lausnari uor gaf Petri postula fyrstvm daudligra manna hier a iordu, ok huer hans uikarius epter annan helldr ok hefer med saumv rauksemd ath leysa ok vpp liuka, huat er rettlæti digtar a himne ok iordu. Med suo dyrligu ualldi postuligrar rauksemdar leider herra Alexsander pavi sælan pislaruott virduligann Thomam erckibyskup inn i kathalogiam sanctorum, biodande af guds alfu ok heilagra postula Petri ok Pauli, ath hann dyrckist med lofsaungum ok aheitum sem hinn haleitazti[1] guds vin. Ok suo sem þessi laugtekning heilags Thome for fram i sialfri Petra kirkiu fyrer otalegum fiolda lærdoms ok leikmanna, hefr sialfr herra pauinn Tedeum, ok hann syngzt vth af kardinalibus ok lærdum maunnum suo hatidlega[2] med hringdum kluckum, sem vor drottinn[3] Jesus Kristus lofade fyr i sinne heilagri kristne. Hier epter skrifar herra pavinn nordr i Eingland þat fagnad(a)rletr, er allri landzbygd birttiz, huat gud drottinn hefer þeim veitt i sæmd ok sælan heidr sins pislarvotts erckibyskups. Þat bref formerazt suo i nafne guds.

### *Fra Alexsandro paua.*

102. Alexsander paui þion þiona guds sender virdulegum brædrum erckibyskupum ok lydbyskupum ok audrum kirkiunnar forstiorum ok hennar klerckum i Einglandi kvediv ok virduliga blezan. Dyrdliga ilmar ydvart land ok enn helldr aull almennelig kristne af þeim blezada sætleik, er gud eilifrar dyrdar veiter verdleika virduligs[4] faudr hins heilaga Thome erckibyskups, er bædi finnzt i sinv (lifi) dasamligr ok dyrdarfullr. Ok med þvi ath lifet skein med margfaulldu blomi kraptanna, birtti þat sama vor drottinn makliga epter[5] hans sigrsamligan dauda, (er) ææskiligt er a ath minnazt, þuilikt er hans var efsti dagr med frabærum sigri ok prydi pislarvættis. Nu þo ath aull efasemd sie fiarre hans virduligum heilagleik, villdi þo lausnari uor ok lauardr Jesus Kristus tigulega birtta hans fræg(d) ok ageti med maurgum taknum ok storum hiartteignum epter daudann, til

[1] haleitazta *Cd.* [2] suo sem *tilf.* *Cd.* [3] drottins uors *Cd.* [4] virduligum *Cd.* [5] er *Cd.*

þess ath aller megi sia i kristninne, huat hann hefer þegit af sinvm gudi fyrer þann haska ok harmkvæli, fyrer stadfesti ok stora mædi, er hann þoldi hier i heimi fyrer sins [drottins nafn[1]. Aullum birtizt[2] fyr sem nalæg(d)uzt hans lofsamligv lifi, hversu hans athafner ok lifiat var makligt hveriu lifi. Hier fyrer birtte drottinn aullum þeim, huer erfidislaun sinnar framgaungu er hann hefer audlazt i himnariki. Nu ath heyrdum maurgum ok myklum taknum med laugligu profi fyrer oss ok vorum brædrum, taukum vær þat allt med skylldu bædi fagnandi ok þui truanndi, ath heilagr Thomas erckibyskup lifer eilifliga med gudi rodinn pislarvottr i sinu blodi, enn med iblæstri heilags annda ath opinbera þat sama ok bioda suo halldazt vm kristnina, ok þui sie aullum kunnigt naverundum ok epter oss komundum, ath med radi ok blidu iatyrdi brædra uora taukum vær andlega in capite ieiunij virduligan Thomam erckibyskup i catalogum sanctorum i Petrs kirckiu[3] otalligv fiolmenni lærdra ok olærdra[4] nærveranda. Þui biodum vær ydr af þui ualldi, er vær berum, ath piningardag suo dyrligs mannz haldi þier hatidlega i hverium argang kriupandi med audmykt under hans blezadar bæner, ath (fyrer) sinn uollduga verdleik, er hann audladizt i gudi med lofligri stadfestu allt til dauda, leide hann ydr ok ladi sem sina eiginsonv af nalægri dyrliztu til samlags ualdra manna ok eilifra fagnada. Valete in Cristo.

Þetta bref herra pauans, sem nv uar lesit med laugtekning hins heilaga Thome, tok allr Einglandz lydr med suo hatidlegum fagnadi, sem sialfr drottinn hefde þeim sentt skinanda lios af himnum. Ok þaa fystu hatid, er þeir hielldu sinum fedr Thomasi erckibyskupi ath stolinum i Kanncia, kunnum uær ei greina med audrum hætti, enn sokn med offr var suo mikil, ath þott fatækr tæki med i morgin þui aullu godzi, væri hann fullrikr ath kvelldi. Syndi ok vor drottinn Jesus Kristr maurgu sinni, hversu þessi laugtekning var þægilig ok samþykt hans guddomligu velldi, þuiat[5] optazt mundi suo til bera, ath sa sialfan krunudag erckibyskups yrdi þær nauckurar hiartteigner, er frabærar mattu kallazt.

Lidu nu suo langer timar, ath hatidarhalld guds vinar tignadizt med allre sæmd ok heidr vm aull Einglandz hierud ok uida annars stadar. Enn hans blezadr likamr laa þo lagt i steinþro luk(t)r sem adr, þar til drottinn mykladi hann ok vpp hof vr sameignu dupti daudra manna, at suo sem hann skein audrum hæri i salunne, væri hann ok hans likamr signadr ok huerium virduligri. Ok þvi

[1] [nafns drottins *Cd.* [2] bætizt *Cd.* [3] i *tilf. Cd.* [4] ok *tilf. Cd.* [5] þat *Cd.*

Digitized by Google

er nu þat efni greinanda þessu næst, hversu vpptaukudyrd hins heilaga Thome med skrinsettning fremzt sa fylldvm tima epter tilskipan heilags anda.

*Fra helgan Thome.*

103. Þa er lidit uar fra hingatburd vors herra Jesu Kristz [þushundrad tuo hundrud[1] ok tuttugu ok fiogr ar, a fimtugunnda are epter pining hins heilaga Thome a daugum Honori paua, þridie med þui nafne er enn atti sath epter Alexsandrum pava tercium i postuliga sæti, ok sa timvm Stefani Kantuariensis erckibyskups, er hinn fiorde sat epter virdulegann Thomam i þui valldi, kueykti suo miog ast ok hiartteignagiord heilags Thome hiorttv Einglismanna, ath med samvilld ok athkvædi herra pavans vilia þeir eigi leingr þola, ath þeira dyrligazte[2] fader liggi suo lagt i skriptinne, sem fyrst (er) hann var leiddr, helldr (at) hann tignizt ok i virduligan stad vpp hefizt, ath allr lydr luti honum ok hialpizt i hans verdleikum. Enn med þvi ath vær nefndum Stefanvm fyr i bokinne, er kalladr uar Langathun, synizt vel stannda ath greina med einne klausv, hversv mikinn mann drottinn ualdi til ath giora translacionem hins heilaga Thome. Enn su klausa byriazt suo, ath þessi Stefanus var suo mikill klerckr, at Jnnocencius[3] paue tercius hinn dyrligazti madr næstr fyrer Honorium setti þar af suo fallinn skilning, þa er grein giordizt af visdomsmaunnum i ver(a)ulldinne, herra pavinn tok suo til ordz: „Eigi er kristnin rikare en suo, sagdi hann, ath hun hefer halfan þridia klerck. Stefanus Langathun i Einglandi er fullr klerckr, annar madr meistari Galfridus er ok allr klerckr, vær erum enn þridi ok ei meir enn halfr.“ Hier er uottr klerckdoms Stephani, ok bætti þat alla vega, er mannkostum heyrdi, þuiat epter hans veralldligt lif birttizt vel kristninne, hversu kær er hann var gudi. Þvi samþycker þat aunnr hans gæzka, ath hann kallar Kanntuariam nauckura sæmiliga kennemenn, ok þo lagt i fystu. Maa þar nefna midil annara herra Rigard Sarisberiensem byskup. Herra Stefanus erckibyskup bydr ok avllum korsbrædrvm þar, munkum ok aullum tilkomnum lærdum maunnum, ath hallda faustr med heilaugum bænum þria næstv daga, adr (gangi) nidr til legstadar guds pislarvotz, ok sem kista er fagrliga gior med saunnvm lasi, geingr herra erckibyskup nidr i grauftinn med lærdum maunnum nauckuri stvnd epter completorium, sem ueralldar folk er i nadum. Þat var fimta kalendas dag Julij, þat (er) tueim nottum fyrer heimferdardagh postula Petri ok Pauli. Þeir ganga aller samt

[1] [þushundrud ok tuo *Cd.* [2] dyrligizte *Cd.* [3] hinn nocencius *Cd.*

Digitized by Google

